# Qvøld-vøkurnar
## 1794.

Samanteknar
af
Dr. Hannesi Finnssyni.

Sídari Parturinn.

Selst almennt innbundinn 69 skildíngum.

Leirárgørdum vid Leirá, 1797.
Prentadur ad bodi ens Islendska Lands-Uppfrædíngar-Félags, á kostnad B. Gottskálkssonar,
af Bókþryckjara G. J. Schagfiord.

# Innihaldid.

## Hellstu Prentvillur:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Bls. 199 | línu 22 | vd | les ad. |
| 220 | 19 | lastverdur | lastverd. |
| 270 | 31 | fulls | fulls. |

Mánu-

Mánudaginn, 1 Decembr.

## XLIX. Sagan af Farsæl og Lánleysíng.

Einusinni var Drottníng, sem ól tvö sveinbörn dáfríd. Valva nockur, sem henni var mjög vinveitt, var bedin ad vera vid þá börnunum vóru nöfn géfin, og mæla gott um fyrir þeim. Eg mæli um fyrir þeim eldra, sagdi hún, ad allslags ólucka stedji ad honum, þar til hann hefir fimm-um tvítugt, og hann skal heita Lánleysíngur. Þegar Drottníngin heyrdi þetta, hljódadi hún uppyfir sig, og sárbeiddi Völvuna, ad taka aptur þessi ummæli. Þér vitid ecki hvörs Þér bidjid, svaradi hún, verdi hann ei ólángéfinn, þá verdur hann vondur. Drottníngin þordi ecki meira ad tala, en beiddi Völvuna ad lofa sér ad ráda ummælum fyrir seinna syninum. Kannské Þér mælid þad um sem verst gegnir, svaradi Valvan, en þad fær svo ad vera, eg skal géfa Ydur þad, sem Þér óskid handa honum. Eg óska, sagdi Drottníng, ad honum luckist ætíd allt hvad hann vill gjöra, og þá veit eg hann verdur fullkominn.

Skéd gétur ad Ydur ysirsjáist í því, sagdi Valvan, en ecki læt eg Ydar ummæli gylda lengur enn í tuttugu og fimm ár.

Bádum Kóngs-sonum vóru fengnar fóstr-ur, en strax á þridja degi vard fóstra þess eldra sjúk, hann féck adra, í henni brótnadi lærleggurinn af biltu, hjá hinni þridju þverr-adi mjólk, strax og hún lagdi Lánleysing Kóngs-son sér á brjóst, og þar þad rykti barst út, ad sitt slisid vildi hverri fóstrunni til, sem tæki Kóngs-son þenna ad sér, vildi engin sídan fóstra hann, eda koma nærri honum. Barn-skepnan hljódadi af sulti, samt aumkadist enginn yfir þad. Bóndakona, sem sjálf átti mörg born, er hún gat naumast haldid lífinu í vegna fátæktar, baud sig til ad taka Kóngs-son, ef hún fengi mikla medgjöf med honum, og þar-ed Kóngur og Drottníng elskudu ecki Lán-leysing, en gátu vel sied af honum, fengu þau hann fóstrunni í hond, og skipudu henni ad flytja hann í þorp sitt. Sá yngri Kóngs-son, er hét Farsæll, óx og vel dafnadi; foreldr-ar hans elskudu hann eins og sinn augastein, en hugsudu ecki svo mikid sem einusinni til þess eldra. Fyrr var ei sú vonda kona, sem hafdi tekid vid Lánleysing, heim komin, enn hún reif af honum allt skartid, sem á honum var, og lét þad á einn sona sinna, sem var á ald-ur vid Lánleysing, en vafdi Kóngs-son aptur í vonda flik, bar hann útí skóginn, sem var fullur af grimmum dýrum og lét hann þar í

holu

holu hjá þremur ljóns-hvolpum, svo þeir ætu hann upp. En módir þessara ljóns-unga gjørdi honum ekkert illt, þvert á mót lét hún hann sjúga sig, hvaraf hann vard svo sterkur, ad hann geck einsamann missiris gamall. A þeim tíma dó sonur fóstrunnar, sem hún hafdi látid vera í stad Kóngs-sonar, og þótti bædi Kóngi og Drottníngu vænt um ad þau vóru laus vid hann. Lánleysíngur var í skóginum þar til hann var tvævetur, þá, sá einn Hofdíngi frá Kóngshirdinni hann, og undradist ad hitta barn eitt medal villudýra. Hann aumkadist yfir þad, flutti þad heim til sín, og þá hann heyrdi, ad verid var ad spyrjast fyrir um barn, sem vera skyldi Jarsæl til skémtunar, baud hann Drottníngunni Lánleysíng til þess. Jarsæli var fenginn Lærimeistari, er skyldi kénna honum ad lesa, en Lærimeistaranum var skipad ad láta ei Kóngs-soninn gráta. Hann hafdi sjálfur heyrt þetta, og fór þess vegna ad gráta strax, sem bókin var tekin, svo þegar hann var fimm vetra, þeckti hann ecki bókstafina. Lánleysíngur var þá ordinn vel lesandi, og farinn ad skrifa. Til ad koma hrædslu ad Kóngs-syni, var Lærimeistaranum skipad ad strýkja hann Lánleysíng í hvört sinn, sem Jarsæli yrdi eitthvad á, svo hvörsu sem Lánleysíngur bar sig ad vera skickanlegur, var hann þó barinn; en Jarsæll var svo uppvödslumikill og vondur, ad hann fór sífeldlega illa med bródur sinn, hvorn hann þeckti eigi.

Væri Lánleysingi gêfid epli, eda skópparakríngla, þá hrissadi Farsæll þad út úr hondunum á honum. Hann lét hann þegja þegar hann vildi tala, og neyddi hann til ad tala, þegar hann vildi þegja; í einu ordi: Lánleysíngur var réttur píslarvottur, sem enginn aumkadist yfir. Þeir brædur lifdu þannig þar til þeir voru tíu vetra, og Drottníngin undradist stórlega yfir hvad fákunnandi sonur hennar var. Valvan hefir svikid mig, sagdi hún, eg hugsadi ad sonur minn mundi verda sá lærdasti allra Kongborinna manna, því eg óskadi ad honum skyldi luckast allt, sem hann vildi taka sér fyrir ad gjøra. Hún fór til Volvunnar ad spyrja hana hvornin þessu væri háttad, en hún svaradi henni, Þér áttud ad óska syni Ydar ad fá gódann vilja lángtum heldur enn gáfurnar. Hann vill ecki vera annad enn mjøg vondur, og þad luckast honum ágætlega, eins og Þér sjálfar sjáid. Eptir ad hún hafdi talad þetta, sneri hún bakinu ad Drottníngu og fór burt, en Drottníng sneri mjøg sorgbitin heim aptur til síns slots. Hún ætladi ad ávíta Farsæl, svo hann sæi ad sér, en í stadinn fyrir ad lofa bót og betran, sagdi hann henni, ad ef hún taladi nockud sér óþægilegt ord, skyldi hann eckert borda, svo hann dæi af húngri. Drottníng vard af þessu lafhrædd, tók hann uppi kjoltu sína, kyssti hann, gaf honum sætabraud, og lofadi hann skyldi eckert læra í viku, ef hann bord-

adi

adi eins og hann væri vanur. Lánleysíngur var nú ordinn allra barna afbragd bædi ad framforum í kunnáttu og gédlempni; hann hafdi svo vániſt vid mótmæli, ad hann hafdi engann vilja, og hann stundadi ad verda fyrri til ad gjöra Farsæl allt til þóknunar, enn hinn gat bendt til þess. En þad hſkradi í því vondsku barni, ad siá ad hann var í ollu betur ad sér enn þad, gat því ecki med nockru móti lidid hann, og Lærimeistararnir vóru sifeldlega ad berja hann Lánleysíng til ad þóknast Kóngs-syninum. Loksins sagdi þetta vondsku barn Drottníngunni, ad hann gæti ei litid Lánleysíng lengur med augunum, og hann ætladi ecki fyrr ad borda, enn búid væri ad reka hann út af slotinu. Þar var Lánleysíngur á hjarni, og enginn vildi skjóta skjólshúsi yfir hann, til ad forþóknast ei Kóngssyninum þarmed. Hann lá um nóttina undir eik nockurri, var nærri krókna dur af kulda, því þetta var um veturinn, og hafdi eckert til matar um qvoldid nema einn braudbita, sem einhvörr af medaumkun hafdi rétt ad honum. Um morguninn eptir sagdi hann med sjálfum sér: ecki tjáir mér ad vera hér kyrr og gjöra ecki neitt; eg skal vinna til ad fá mér uppheldi, þángad til eg verd svo stór ad eg gét farid í stríd. Eg man til þess ad eg hefi lesid í sogunum, ad sléttir og réttir strídsmenn hafa ordid Hershofdíngjar, hvörr veit nema sú luck a egi fyrir mér ad liggja ef eg er skickanlegur,

eg á hvorki fødur né módur, en Gud er fadir fødurlausra, hann lét ljón verda mér ad fóstru, han mun ecki yfirgéfa mig. Eptir ad hann hafdi þetta mælt, reis hann upp og las bænir sínar, því hann lét aldrei hjálida qvøld edur komandi morgun ad bidja Gud sér til hjálpar, og var vanur á medan ad láta aptur augun, spenna greipar, og líta hvorki til hægri né vinstri handar. Bónda nockurn bar þar ad, hann sá hvørnin Lánleysíngur bad til Guds af øllu hjarta, og sagdi med sjálfum sér: eg er viss um, ad pilltur þessi má vera skickanlegt barn, eg er sáttur med ad taka hann fyrir smala-dreng, Gud mun blessa mig hans vegna. Bóndinn beid þar til Lánleysíngur hafdi endad bænir sínar, og sagdi þá til hans: pilltur minn! villtú verda smaladrengur hjá mér, þá skal eg fæda þig og annast. Þad vil eg gjarnan svaradi Lánleysíngur, og eg skal gjøra þad svo vel sem eg gét. Bóndi þessi var velmaktar madur, sem hafdi mikid umleikis, og héldt margt fólk, hvort eins og konan og børnin opt stálu frá honum. Þegar þau sáu Lánleysíng, líkadi þeim vel; hann er barn, sogdu þau, hann skal gjøra hvad sem vid viljum. Einusinni sagdi konan vid hann: drengur minn! madurinn minn er nápína, sem aldrej sær meir neina peninga í høndur; láttú mig fá eina kind, og segdu dýrid hafi bitid hana. Húsmódir gód! svaradi Lánleysíngur: eg vildi af øllu mínu hjarta vera

ydur

ydur til vilja, en eg vil heldur deyja enn ljúga og vera þjófur. Þú ert heimskíngi, svaradi konan; enginn skal fá ad vita þó þú gjörir það. Gud fær ad vita það, svaradi Lánleysíngur, hann sjer allt hvad vid hofumst ad, hann straffar bædi þá, sem ljúga og stela. Þegar bóndakonan heyrdi þetta, flaug hún á hann, gaf honum snoppúng og hártogadi hann. Lánleysíngur fór ad gráta, bóndinn, sem heyrdi þad spurdi konu sína, hvarfyrir hún herdi barnid? hann ser uppá allt sem ætt er, svaradi hún, eg sá í morgun ad hann var ad veida ofan af troginu rjómann, sem eg ætladi ad selja á torginu. Æ! þad er ljótt ad vera húrsnati, svaradi bóndinn, kalladi á einn vinnumanninn, og skipadi honum ad strýkja Lánleysíng. Þad hjálpadi ecki, ad hann sagdist ecki hafa snert rjómann, henni húsmódur hans var betur trúad enn honum. Sídan fór hann út í haga med kindum sínum. Bóndakonan sagdi til hans; nú! láttu mig strax í stad fá einn saud! eg á bágt, svaradi Lánleysíngur, þér egid alls kosti ad gjora vid mig, hvad þér viljid, en þér skulud samt aldrei fá mig til ad ljúga eda stela. Þessi ókind fékk alla á bænum til ad vera vonda vid hann, svo hún gæti hefnt sín. Hann var úti í haganum yfir sénu nótt og dag, en í stadinn fyrir ad géfa honum mat eins og ødru vinnufólkinu, fékk hann ecki nema rudur og skol, og þegar hann var heima, bar hún uppá hann allt þad íllt, sem

 vid-

vidbar á heimilinu. Hann var tvo ár hjá þess-um bónda, og þó hann lægi á beru gólfi, og hefdi illt fædi, þroskadist hann samt svo vel, ad allir héldu hann fimtán vetra, jafnvel þó hann væri ei eldri enn tólf ára; ad ödru leiti var hann ordinn svo þolinmódur, ad hann setti ecki á sig þó hann væri ávítadur ad saklausu. Einusinni þá hann var sendur til landsdrottins húsbónda síns, heyrdi hann ad Kóngur nockurr þar skamt frá væri ad búa sig til strids; hann beiddi þá húsbónda sinn farar-leyfis, og fór fótgángandi til ádur umgetins Kóngs, til ad fá ad verda stridsmadur. Hann géck á mála hjá Hundrads-hofdíngja nockr-um, sem var í mestu hofdíngja röd, en var sidadur eins og bófi. Hann blótadi, bardi stridsmennina, skal frá þeim helmíngi af málanum, sem Kóngur gaf þeim til fædis og klæda, og hjá þessum Hundrads-hofdíngja átti Lánleysíngur lángtum verra enn hjá bóndanum. Hann hafdi gengid á mála uppá tíu ár, og jafnvel þó hann sæi, ad flestir lagsmenn sínir stryki, vildi hann samt ei fylgja þeirra dæmi; því, sagdi hann, eg hefi tekid móti peníngum ad þjóna í stridi tíu ár, svo eg stæli frá Kóngs-inum, ef eg héldi ecki ord mín. Þó nú Hundr-ads-hofdínginn væri illmenni, og færi eins illa med Lánleysíng og adra, vard Hundrads-hofdínginn þó ad virda hann í hjarta sínu, því hann sá ad hann gjördi ætíd hvad skylda hans var. Hann féck hönum opt í höndur

peninga

peninga til sinna útréttinga, og trúdi honum fyrir lyklum til herbergja sinna, þegar hann annadhvort ferdadist útá landsbygdina, eda var ad veitslum hjá vinum sínum. Hundrads-hofdingi þessi leit aldrei í bók, en hann átti samt fjølda af gódum bókum, svo ad þeir, sem sóktu hann heim, skyldu halda hann væri lærdur madur, því í þeim løndum var þad manna meining, ad sá Hershøfdingi, sem ecki hefdi ydkad sig í sagnafrædi, yrdi aldrei nema heimskingi og fáfrædingur. Þegar Lánleysíngur var búinn ad ljúka af verki sínu, sem stridsmanni bar af hendi ad leysa, drack hann ei né spiladi med lagsmønnum sínum, heldur læsti sig inni í herbergjum Hundrads-høfdíngjans, og lagdi sig eptir þar ad læra strids-konstina, med því ad lesa nafnfrægra Hershøfdíngja lífssøgur, svo hann feck gott skynbragd á ad stjórna her og heyja stríd. Hann hafdi verid sjo ár stridsmadur, ádur hann skyldi gánga í bardaga. Hundrads-høfdíngi hans tók med sér sex stridsmenn, medal hvorra Lánleysíngur var einn, til ad njósna í skógi nockrum. Stridsmennirnir fóru ad rádgast um í hljódi, ad drepa íllmenni þetta, sem aldrei léti linna á høggum og sløgum, og þar til stæli braudinu útúr munninum á þeim. Lánleysíngur sagdi þeim, þeir skyldu ei svo vondt verk gjøra, en í stadinn fyrir ad láta ad ordum hans, søgdust þeir skylda drepa hann med Hundr-ads-høfdíngjanum, ef hann vildi ei hverfa ad

einu rádi med þeim, og strax brugdu sverdum allir fimm. Lánleysingur hljóp Hundradshofdingjanum til varnar, og bardist svo karlmannlega, ad hann einn lagdi fjóra af stridsmönnunum ad velli. Þá Hundradshofdinginn sá, ad hann átti honum líf sitt ad launa, beiddi hann Lánleysing forláts á öllu því illa, er hann hafdi gjört honum, og sagdi Kónginum frá öllu, sem skéd hafdi, er strax gjördi Lánleysing ad Hundradshofdingja, og gaf honum mikid árlegt kaup.

## Þridjudaginn, 2 Decembr.

Lánleysingur var ei þesshâttar madur, ad stridsmenn hans hefdu viljad sitja um líf hans; því hann elskadi þá eins og sín egin börn, og lángt frá ad vilja draga af þeim þad, sem þeir áttu, gaf hann þeim opt af sínum egin peníngum, þegar þeir gjördu sína skyldu. Hann annadist þá, þegar þeir vóru særdir, og straffadi þá aldrei af því illa lægi á honum. Eptir þetta sló í mikinn bardaga, Hershofdinginn féll, og allur herinn komst á flótta. Þá hrópadi Lánleysingur hátt: ad hann vildi heldur deyja med æru enn flýja med skömm. Hans stridsmenn hrópudu aptur á mót: ad þeir skyldu aldrei vid hann skilja, og þeirra góda eptirdæmi kom hinum til ad blygdast, svo þeir söfnudust allir kríngum Lánleysing, og bördust þá

svo

svo kallmannlega, ad þeir tóku son Kóngs óvinanna til fánga. Kónginum þótti vænt um, þá hann heyrdi ad hann hafdi unnid þenna sigur, og gjördi Lánleysíng ad ædsta Herzhøfdíngja yfir lidinu. Kóngurinn sýndi hann Drottníngunni og dóttur sinni, en þá Lánleysíngur sá Kóngs-dóttur, feck hann strax elsku til hennar, því hún var dá-fríd, en þá byrjadist qvøl hans fyrir alvøru, því honum stód fyrir hugskots sjónum, ad hann væri ei borinn til ad eignast neina Kóngs-dóttur. Hann einsetti sér þess vegna, ad láta eckert á sinni elsku til hennar bera, og þó hafdi hann dag hvørn mestu pínu ad útstanda, samt tók þad yfir, þegar hann heyrdi, ad Farsæll Kóngs-son hefdi sjed Gullvøru, svo hét Kóngs-dóttirin, afmálada, hefdi þá fengid elsku til hennar, og sendt sendiboda til ad bidja sér hennar til eginkonu. Lánleysíngur vard þá nærri daudur af hugar-vøli, en Gullvør Kóngsdóttir vissi ad Farsæll Kóngsson var dádlaus og illmenni, sárbeiddi þess vegna fødur sinn, ad neyda sig ei til ad ega hann, svo sendibodarnir fengu þad svar, ad Kóngsdóttirin vildi ei svo fljótt giptast. Farsæll vard eins og vitstola af brædi þá hann feck þetta Kóngsdótturinnar svar ad heyra, því hann hafdi aldrei reynt nein mótmæli á æfi sinni, fadir hans, sem um eckert gat neitad honum, bjó sig strax til strídsmóti fødur hennar Gullvarar, en þessi vard ecki forvida vid þad, því, sagdi hann, medan hann Lánleysíngur er Hershøfdingi minn, qvidi

gvídi eg ecki fyrir neinu strídi. Hann kalladi þá á þenna sinn Herrshöfdingja, og skipadi honum ad búa sig til strídsins; en Lánleysingur kastadi sér fram fyrir fætur honum og sagdi: hann væri borinn og barnfæddur í Köngsríki fodur hans Jarsæls, svo hann ei mætti bera herskjöld móti sínum eginn Kóngi. Fadir hennar Gullvarar vard mjög reidur, og hótadi Lánleysing ad láta drepa hann, ef hann vildi ecki hlýda, en þar á mót skyldi hann fá dóttur sína ad konfángi, ef hann gæti sigrast á Jarsæl. Enn aumkunarverdi Lánleysingur, sem elskadi Gullvöru meira enn lífid í sér, var hér í stórri freistni, en loksins var hann stadrádinn í, ad víkja eckert frá skyldu sinni, heldur án þess ad svara Kónginum einu ordi, skildi bædi vid metord og öll sín audæfi. Jarsæll hafdi nú dregid saman óvíganu her, og ferdadist til strídsins, en ad fjórum dögum lidnum vard hann sjúkur af þreytu, því hann hafdi aldrei lagt neitt á sig, svo hann þoldi hvorki heitt né kaldt. Sendibodinn, sem hans vegna hafdi farid bónordsförina til hennar Gullvarar, hafdi, til ad koma sér í mjúkinn hjá Jarsæl, sagt honum, ad hann hefdi í hird Kóngsins fodur hennar sjed dreng þann, er Jarsæll hefdi fordum frá sér rekid, og sér hefdi verid sagt, ad fadir Gullvarar hefdi lofad drengnum dóttur sinni til ekta. Þetta æsti enn meir upp reidi-eld Jarsæls, því fór hann strax og honum var batnad enn lengra

fram med stridsherinn, til ad reka Fodur Gull-varar frá ríkjum og londum, og undir eins lofadi hann hvorjum þeim ærnu gjaldi, er sér seldi Lánleysing í hendur lífs edur daudann. Farsæll vann hvorn sigurinn eptir annann, þó aldrei væri hann sjálfur í neinum bardaga, því hann var hræddur hann mundi lífinu týna, og loksins átti hann ei annad eptir enn vinna hofudborgina, hvorja hann ætladi þá ad inn-taka med ad stíga yfir múrana, og sídan drepa hvort mannsbarn er í borginni væri. Dag-inn ádur enn þetta skyldi framqvæmast, var Lánleysingur honum færdur í fjotrum og sterk-um járnhleckjum, því fjoldi fólks hafdi farid ad leita hann upp, þegar heyrum var kunn-ugt ordid hvorsu mikid í bodi væri, hvorr sem hann gæti til fánga tekid. Farsæl var þetta stærsta gledi ad hann gæti hefnt sín, og ætladi ad láta hálshoggva Lánleysing ádur enn síd-asta áhlaup væri gjort ad borginni. Sama dag héldt Farsæll Kóngsson stórveitslu ollum þeim yppurstu í herlidi sinu, því þá var af-mælis-dagur hans, er hann hafdi fimm um tví-tugt. Þegar stridsmennirnir, sem vóru inni í borginni, fengu ad heyra, ad Lánleysingur var til fánga tekinn, og ecki væri nema ein kluckustund þángad til taka ætti af honum hofudid, ásettu þeir sér ad frelsa hann, elleg-ar deyja ad odrum kosti, því þeir mininntust alls þess góda, sem hann hafdi gjort þeim, medan hann var Hershofdingi þeirra. Beiddu

þeir

þeir nú Kóng sinn um leyfi, að mega fara átúr borginni til bardaga, og í það eina sinn vóru þeir sigursælir. Sú gáfa, sem Farsæl hafði verið lént, var þá horfin, hann sneri á flótta í bardaganum, og varð drepinn.

Þá stríðsmennirnir höfðu unnið sigur, hlupu þeir til Lánleysings, og tóku hann úr fjötrum, en í því sáu menn tvo glæsilega vagna koma, og í þeim Völvuna og foreldra Lánleysings; síðan sýndi Valvan Drottníngunni hann Lánleysing, og sagði henni: þessi hetja er eldri sonur yðar, sú vanlucka, sem honum hefir fylgt, hefir leiðrétt hans sinnisbresti, þar hann var að geðslagi bráðgeðja, offafullur og forsugur. Farsæll aptur ámót var góðmenni af náttúrunni, en varð illmenni af óhóflegu eptirlæti, og Guð hefir ecki viljað leyfa, að hann skyldi lifa lengur, því hans vondska vóx dag frá degi. Hann misti lífið áðan; en til að hugga yður eptir dauða hans, þá vitið, að hann hafði fyrir stafni að setja föður sinn af Kóngs-tigninni, því honum leiddist að hann varð ecki sjálfur Kóngur. Kóngur og Drottníng urðu hissa af öllu þessu, en tóku Lánleysing með mestu blíðu sér í faðm, því þau höfðu heyrt margt gott sagt frá honum.

Gullvør Kóngs-dóttir og faðir hennar urðu glöð af að heyra hvørnin luckan hafði skipt með þeim bræðrunum. Lánleysingur ektaði Gullvøru, lifðu þau saman lengi og vel, og kepptist hvørt við annað í mannkostum,

um, dygdum, og ad láta sem best af sér leida vid alla.

## L. Oskirnar.

Einusinni var madur nockurr ecki allrikur, hann gipti sig og átti frída konu. A qvoldi einu um veturinn sátu þau vid eldinn og vóru ad tala um: hvad luckulegir nágrannar þeirra væru, sem audugri vóru enn þau. O! ef í mínu valdi stædi ad fá hvad sem eg vildi óska, sagdi konan, þá skyldi eg verda luckulegri enn þeir allir. Og eg líka, sagdi madurinn; ef vildi eg hefdi lifad á þeim tímum, sem huldufólkid var á ferd, og einhvørr af því hefdi þá viljad lofa mér ad hitta á óska-stundina. J því sama sáu þau hjá sér standandi frída konu, sem sagdi til þeirra: eg er ein af huldufólkinu, og eg lofa yckur ad gefa yckur þá þrjá fyrstu hluti, sem þid óskid, en varid yckur, því eptir ad þid erud búin ad óska þriggja hluta, gef eg yckur eckert meira. Eptir þad hvarf huldukonan, og hjónin þóttust nú í miklum vanda stodd. Fyrir mitt leiti, sagdi konan, ef eg mætti ráda, veit eg hvørs eg skyldi óska: eg óska einkis ennnú, en mér synist þó ad eckert sé svo gott, svo sem ad vera fríd, audug og af háu standi. En, svaradi madurinn, med ollu þessu, gætir þú samt verid siúk, ánægjulaus og kynnir ad deyja á únga aldri; þad væri lángtum skyn-

sam-

samlegra ad óska sér heilbrygdis, gledi og lángra lífdaga. Til hvors væri ad lifa lengi, og vera undir eins fátækur, sagdi konan, það væri ecki til neins annars, enn ad verda vesæll þess lengri tíma. Naumar hefdi huldukonan átt ad losa ockur ad óska tólfsinnum; hvíad eg þarf í hid minnsta ad halda á tólf hlutum, ef vel væri. Það er satt, sagdi madurinn, en vid skulum hafa tímann fyrir ockur, ad hugsa ockur vel um til á morgun, hvorjir þrír hlutir ockur séu naudsynlegastir, og þareptir skulum vid bidja um þá. Eg skal vera ad hugsa um það í alla nótt, sagdi konan, en á medan skulum vid orna ockur, því kaldt er. Í því sama bili skaradi konan ad eldinum, og þegar hún sá ad hann var vel glæddur, sagdi hún, án þess ad hugsa eptir, því: tarna eru gódar glædur, eg vildi eg ætti álnar-lángt bjúgá til ad borda í qvold, því nú væri hægt ad steykja það. Naumast var hún búin ad útala þessi ord, fyrr enn bjúgad datt nidur úr rótinni. Bolvud veri úr þér kræsinga-girnin med bjúganu þínu, sagdi madurinn, var það ecki falleg ósk ad tarna, og nú eru ecki eptir utan tvær óskirnar. Hvad mig áhrærir, þá er mér svo illt í skapi af því, ad eg vildi bjúgad væri ordid fast vid nefid á þér. Í sama augnabragdi sá madurinn, ad hann var enn heimskari enn konan hans, því med þessari annari ósk, hoppadi bjúgad uppá nefid á konuskepnunni, sem ecki gat slitid það þadan. Mikil

óláns-

bláns sképna er eg, sagdi hún, og ofmikill vondsku-madur ertú, ad þú óskadir bjúganu á nefid á mér. Eg gét svarid dýrann eid, elsku-konan mín! ad eg hugsadi ecki eptir því, svaradi madurinn, en hvad egum vid nú ad gjora? eg ætla ad óska ockur stórra audæfa, svo skal eg láta gjora hulstur af gulli handa þér utanum bjúgad. Eg bid þig fyrir alla muni, ad gjora þad ecki, svaradi konan, því eg tek lífid af mér, ef eg á ad vera med bjúganu því árna á nefinu. Trúdu mér! vid egum ecki eptir utan eina ósk, gésdu mér hana í vald, annars kasta eg mér út úr glugganum á lopti þessu; í því hún sagdi þetta, hljóp hún til ad ljúka upp glugganum, en madurinn hennar, sem elskadi hana, hljódadi af öllum kroptum og kalladi: vertú kyrr, elsku-konan mín! eg géf þér til leyfis ad óska þér hvors sem þú vilt. Hana þá! sagdi konan, eg óska ad bjúgad detti af nefinu á mér. Í sama bili datt bjúgad nidur á gólf, og konan, sem var skynsöm, sagdi vid manninn sinn: huldukonan hefir gjort leik ad ockur, og þad var mátulegt. Máské vid hefdum verid enn þá óluckulegri enn vid nú erum, ef vid hefdum ordid rík. Trúdu mér, elskan mín! þad er best ad óska einkis, en tökum á móti því, sem Gud vill vera láta, og senda ockur. Nú skulum vid borda bjúgad ockar, úr því vid egum eckert annad eptir óskirnar enn þad. Madurinn sá ad konan sagdi satt, þau bordudu bjúggd med gledi, og

súrudu ecki framar um þá hluti, sem þau hofdu áſett ad óſka ſér.

## LI. Gátur.

37.) Snjór. 38.) Blek- og Sand-byttâ. 39.) Draumur. 40.) Qveikur.

41.) Í gamla daga ſtód hárid á hofdinu á mér upp, og þá hafdi eg krans af grænum laufum; nú er þad búid ad miſſa alla ſína prýdi, ſnúa ſér audmjúklega til jardar, og ſkrída í duptid.

42.) Í fyrſtunni hvíldiſt eg rólega í barmi blómſtranna, þá kom lítill þjófur, og bygdi úr mér ſlot handa ſér. Þareptir kom miklu ſtærri ſtigamadur, braut nidur ſlotid, og er nú ad láta eldinn brenna mig.

43.) Hvørr ſjer aldrei ſinn líka?

44.) Eg gjori hardt og mjúkt; marga gjori èg fátæka, en ſamt fleiri ríka. Enginn vill hafa mig ofnærri ſér, èda of-fjærri, því ſé eg ofnærri, eydi eg ollu, en allt deyr, ef þad ætti ad miſſa mín víd.

45.) Á daginn hef eg eckert ad gjora, og þá er eg látinn í eitthvørt ſkot, en þegar nóttin kémur, gleypi eg í mig eld og bál.

---

## Midvikudaginn, 3 December.

## LII. Dæmi-søgur.

### 14.) Mørgum kémur makleg hefnd.

Vondskufullt barn nockurt hafdi yndi af ad trampa á jardar-orma og ønnur skridqvikindi, til ad qvelja þau. Til hvørs eru þær, sagdi þad, ókindurnar þær arna, annars enn ad fóttroda þær? Módir þess bannadi því þad, og sagdi, þad ætti heldur ad bera sig ad frelsa líf meinlausrar skepnu, enn ad drepa hana. Barnid hlýddi ecki módur sinni, og héldt áfram í þeim vonda vana. Einusinni fann þad lítinn høggorm, sem þad hugsadi mundi vera jardar-madkur, og eptir vana trampadi ofaná hann, en høggormurinn beit barnid, svo þad beid bana af, vard svo saklausu ormanna hefnt.

### 15.) Ecki verda allar ferdir til fjár.

Gamall Hani var á vakt uppá eldhúsi; þángad kom Tóa hlaupandi, og kalladi med hýrri gladværdar raust: galadu, vinur! galadu! nú kém eg med gledi-fréttir til þín! galadu! því dýra strídid er á enda, allir eru ordnir þreyttir á þessum óróa, svo fridur og eining eru nú í ríki voru. Eg sjálf er send med þenna bodskap til þín frá øllum Tóum. Komdu fljótt ofan, vinur! svo eg géti fadmad þig ad mér,

og géfid þér fridar-koss! — hvad ertu ad líta í kríngum þig? — Hann Strútur, Móri og Flekkur koma, hundarnir, sem þú þeckir, svaradi Haninn — Tóa tók til fótanna — Haninn spurdi: hvad kémur til þín hleypur svona? Slétt eckért, bródir minn! sagdi Tóa, strídid er ad sönnu úti, en eg veit ecki hvört þeir hafa frétt þad.

16.) Auds er vant vid ydjusemi.

Bóndi nockurr, kominn undir andlátid, átti ecki audæfi ad eptirláta börnum sínum, en vildi þó locka þau til vinnusemi, svo þau hefdi ætíd nóg fyrir sig ad leggja, kalladi þau ad rúmi sínu og sagdi: innanstocks á eg eckert, börnin mín! eins og þid vitid sjálf, en allt hvad eg hefi gétad unnid mér inn mína lífs-tíd, hefi eg falid í urtagardinum ockar, þar megid þid leita ad því; skömmu sídar dó hann. Börnin þóttust vera vís um, ad einhvörsstadar í gardinum væru peníngar, grófu þess vegna, og rótudu upp moldinni í mesta ákafa og fundu þá aldrei, sem ecki var heldur von til, því þeir vóru engir, en aptur á mót bar gardurinn besta ávöxt af því moldin í hönum vard svo vel mulin.

17.) Ymsir ega högg í annars gard.

Hrafninn sat á háfum kletti, og héllt á ostsneid í nefinu, Tóa feck þef af þessum osti, og þar hún var glersvaung, kom hún til Krumma, seg-

segjandi: áh! sæll vertú! finn eg þig núna hérna? mikid yndi er ad sjá þig, hvad fallegur þú ert! lofadu mér ad horfa á, og virda þig rétt fyrir mér! játa má eg, ad frídari og tíguglegri fugl hefi eg aldrei sjed, því væri saungurinn þinn hálfpartinn svo fallegur, sem útlitid er, þá vildi eg ecki sjá fuglinn Phænix hjá þér. Vid þetta hól, sem falsarinn setti á hann, géckst Krummi upp, og þoldi ecki vid af stolltri gledi. Mér er best ad láta hana heyra til mín, hugsadi hann, og sperrti upp ginid. Ostur-inn datt þá nidur, sem Tóa strax gleypti í sig, og sagdi: „Krummi minn enn frídi! smjadr-„ararnir lifa af þeim, sem gjarnir eru á ad „heyra til þeirra; svo sem eg nú er búin ad „láta þig komast ad raun um." Er ecki sá lærdómur meira verdur enn tíu slíkar ostsneid-ar? Tóunnar lærisveinn þagdi, lagdi undir kollhúfurnar, en hugsadi med sér, ad gott væri ad muna henni þetta, þó seinna væri.

Einusinni bar Tóa í kjaptinum hrossa-kjöts stycki til grenis síns, þá Krummi mætti henni. Hvad? sagdi hann, lamba-bani! er þjóttu-nóra núna öll veitslan þín? mikill nyrfs-ill máttu vera, ad halda þig ecki betur enn racki! einhvorntíma hefir betur blædt fyrir þér! skodadu þarna í steckjar-túninu, hvörnin lömb-in eru ad stockva og flocka sig! sá refur, sem hefdi vitid, nýtti sér þetta tækifæri, en þad er audsjed, þú ert ecki fodur þíns sæla maki, man eg samt þær tídirnar, ad þú varst brögd-

ött, þegar þú vildir, enda ellti luckan þig þá! —Tóa lét narra sig, sleppti hrossakjöts flyksunni og hljóp til lambanna. Smalamadurinn, sem lá í steckrnum sá til hennar, og sigadi á hana hundunum. Tóa sagdi þá vid sjálfa sig: eg á nóg til nærsta máls, þó ecki nædi eg lambi í þetta sinn. Hún fór þá ad leita. En Krummi sat kátur uppá kletti, og sagdi: ómakadu þig ecki, vinur! til ad leita svo smásmualega ad hrossakjöts-mórunni þeirri arna, eg tók hana traustataki, og er búinn ad gjöra mér gott af henni, því eg vissi þú satst ad volari lambakjöts-veitslu, sem hefir verid þér betri enn tíu slíkir bitar; þar til er mér stærri ánægja ad géta gantad Ref, enn þó eg kynni mikla saungsist. Ádur lét eg narra mig, núna þarstú ecki til skuldar ad reikna hjá mér fyrir þad.

18.) Betra er ad bogna enn bresta.

Sterkt Eikartré og grannur Reyr komu í kapprædu hvört þeirra sterkara væri. Eikin sagdi: og þú vænt'eg, sért sterkur, sem beygist ofanad jörd af hvörjum vindblæ? Reyrinn svaradi: þad mundi sannast á sínum tíma. Nockru eptir kom á hardvidri. Reyrinn beygdi sig nidur ad jörd, og hafdi engann skada af storminum; en Eikin streyttist alltaf á móti, þángad til hún rauk útaf med rótum og öllusaman. Þá sagdi Reyrinn: nú sjer þú hvad þad hefir uppá sig, ad standa í nøsunum á meKtugum fjandmanni.

19.) Opt missir sá sitt, sem meira beidist.

Ulfaldanum féll mikid sárt, ad hann hafdi eckert ad verja sig med, beiddi Júpíter þess vegna, ad géfa sér eins vel og nautinu horn, sem væru bædi til prýdis og varnar. Júpíter vissi best, hvad Ulfaldanum hagadi, neitadi honum þess vegna ecki einasta um hornin, heldur tók líka ofanaf eyrunum á honum, hvaraf hann vard enn þá óálitlegri. (*)

20.) Svo mis-sjest øldrudum, sem úngum.

Tvær Tóur misaldra komust inní hænsna-hús um nótt, drápu þar hanana, allar hænurnar og úngana med; þareptir mettudu þær húngur sitt. En únga og brádna vildi eta allt upp, en hin gamla og rádsetta geyma nockud til seinni tímanna. Hún sagdi: „reynslan hefir „gjört mig forstandugri enn eg var, þegar eg „var á þínum aldri; eg hefi sjed svo margt „sídan eg kom í heiminn. Vid skulum ecki „eta allt upp á einu málinu.“ Hin yngri svaradi: „eg ætla ad gjøra mér gott af því, á „medan eg má, svo þarf eg ecki heldur mat „í heila viku á eptir, og þar til kémmist þad, „ef þad er geymt, eda sá, sem hænsnin átti „sitji kannské um líf ockar ef vid komum híngad aptur á morgun.“ Hvorug vildi brúka annarar rád. Sú yngri át svo mikid, ad hún naumast gat dregid sig í greni sitt, og sprack þar

(*) Ulfaldinn hefir lág eyru, snubbótt ofan.

þar af of-fylli. Hin eldri fór daginn eptir, ad vitja leyfa sinna, en var drepin af eganda hænsnanna. Svo verdur þeim úngu optast ad tjóni ad þeir eru of fjærmiklir, og sólgnir í sælgæti, en ágirnd hinna gömlu sedst aldrei.

21) Gott er ad gjöra vel, og hitta sjálfann sig fyrir.

Nockurr gódur gamall madur, sem kominn var á grafar-backann, var af fullsjádum syni sínum rekinn útá sveitina. Einusinni þá fedgarnir af hendíngu funduft, beiddi fadirinn grátandi son sinn, ad senda sér einar reckjuvodirnar, sem hann hefdi skilid eptir. Þú sjer, sagdi hann, hvad mikla þörf eg hefi á þeim, hefi eg þó ecki híngad til fengid þær, hvörsu opt sem eg hefi bedid þig. Þegar sonurinn kom heim, fékk hann syni sínum reckjuvodirnar, og skipadi honum ad bera þær fljótt til hans afa síns. Drengurinn fór ecki utan med adra reckjuvodina. Þegar fadir hans frétti þad, vard hann fokreidur, kalladi á hann og sagdi: því fórstu ecki, þorparinn þinn! nema med adra reckjuvodina til hans afa þíns? Fadir minn! svaradi pillturinn, og lét sér eckert vid bregda: „eg geymi hina handa ydur, „þángad til eg eins rek ydur útá sveitina.“

22.) Margur dansar þó hann dansi naudugur.

Api sá steik á brennandi glædum, en treysti sér ecki vegna hitans ad ná henni. Hann tók

þad

þad til bragds, ad hann greip løppina á kisu, hvornin sem hún bad hann og mjámadi, og krækti med henni matinn til sín.

23.) Allur er jøfnudurinn gódur.

Tóan vard fyrri til ad bjóda Storkinum til máltidar, og setti fram fyrir hann velling í grunnu fati. Storkurinn, sem hefir yfrid lángt og mjótt nef, gat ecki nád neinu af því, en lét ecki á bera hvorsu honum sveid þad. Skømmu eptir baud hann henni aptur til veitslu. Hún mundi ecki til hvornin hún hafdi í gard fyrir sig búid, og kom á tilsettum tíma, hafdi þá Storkurinn smáskorna steik í hálsmjórri flosku. Tóa gat ecki komist ad, nema ad sleikja um hálsinn á henni, en særdist af ad sjá Storkurinn át allt einn. Þegar hann var mettur ordinn, sagdi hann af spotti: láttú þér ecki þykja midur, Tóa gód! þó eg hafi tekid mér þitt dœmi til ad breyta eptir.

24. Pad eru ecki allt Klerkar, sem sída hafa kápuna.

Asninn fór einusinni í Ljóns-húd, þá allir, sem hann sáu urdu hrœddir, og flúdu vída vegar. Húsbóndi hans var allstadar ad leita, en af því annad eyrad stód uppúr Ljóns-húd-inni, þeckti hann grip sinn, og rak hann med hardri hendi heim, til ad bera bagga sína. Þadan er sídan máltakid: audþecktur er Asn-inn af eyrunum.

25.) Slægur etur slægs mat.

Ljónið lagdist fordum í sótt, þá komu oll ferfættu dýrin, ad vitja þeß, nema hún Tóa. Ulfsinnm syndist hér væri besta tækifæri til ad fyrirkoma henni, og sagdi vid Ljónid, ad af ollum dýrunum hefdi eckert foraktad þeß bod, sem þad hefdi sendt þeim, nema hún Tóa, og væri þad slæmt til eptirdæmis, ef slíkt lidist óstraffad. Rétt í sama verkángi kom Tóa ad, og heyrdi seinustu ordin, sem Ulfurinn taladi. Þegar Ljónid sá hana, espadist þad, og ætladi ad rífa hana í sundur. En henni vard ecki ordaskortur, heldur sagdi, ad af ollum þeim dýrum, sem komid hefdu ad vitja þeß Hátignar, hefdi enginn nema hún hugsad uppá medal vid þeß sjúkdómi, en hún hefdi strax hlaupid til læknirsins ad vita hvada medal hér ætti vid, og þad hefdi hann sagt sér. Ljónid skipadi henni ad segja hvort þetta medal væri. Herra! svaradi Tóa, þad er, ad Ydar Hátign láti flá lifandi Ulf, og leggja yfir Ydur glódvolat skinnid, þad medal sagdi læknirinn aldrei brygdist í þessum sjúkdómi. Ljónid lét strax flá Ulfinn eptir rádi Tóunnar. Þegar hún sá Ulfurinn var nærri daudur, sagdi hún vid hann: mikid ljótt er ad espa Kóng sinn móti þegnum hans; því gott á hvorreinn ad láta af sér leida, en aldrei illt.

---

Simtu-

Fimtudaginn, 4 December.

## LIII. Enginn veit hvört gæfa géfst þá girnist.

Sigurdur Blálands Kónaur sendir veraldarinnar innbyggjurum qvedju sína, óskandi ofsátúngum audmýktar og andvara, en sútardætrum ánægju og lósemis.

Svo mælti Sigurdur. Einvalds-herra yfir fjörutíu þjódum, hann, sem hafdi allt eptirsækjast, og útskipti aud med allsgnægtum, á sinnar ríkis-stjórnar tuttugasta og sjounda ári: „loksins, Sigurdur! er þín „mæda og þitt erfidi á enda, þú hefir forlikast vid þá, sem þér vóru andvígir, þú hefir svæst tvídrægnina, nidurkjæft hirdmannanna öfundsýki, burtrekid allt stríd frá þínum landamerkjum, og uppbyggt marga kastala í löndum óvina þinna. Allir, sem hafa „stygat þig, titra fyrir þinni augsýn, og hvar „sem þín raust heyrist, er henni hlýdt af öllum. Þitt Hásæti er verndad af eins mörgum strídskoppum, eins og mýid er á sumardag, og hvorra makt enginn fær heldur mótstadid enn drepsóttarinnar eitrada Anda. „Þín geymslu-búr eru uppfyllt med allsslags „hervopn, og þínar fjárhyrslur rýma ecki „meira af enna ýfirunnu Kóngs-ríkja herfángi. Argædskan flýtur á þínum okrum, „og audæfin glóa í þínum borgum. Þín

 bend-

„bending er eins og jarðskjálfti, er hristir fjöll„in, og þitt hýrlegt tillit eins og morgunroð„in í blíðviðri. Í þinni hendi er þúsundanna„styrkleiki; og þín heilbrygði er þúsundsinn„um þúsunda vellíðan. Þín höll er full af„hrósins gleði=saunaum, og blessunarinnar andi„gefur þínum fótsporum endurnæringar ylm.„Þínir þegnar dáðst að þinni maktar dýrð,„þeim kemur engin eymd eður háski í hug.„Því viltú, Sigurdur! ecki vera hluttakandi„í öllum þeim gæðum, er þú meddeilir ödr„um? því skyldir þú einnsamann gánga úr„vegi frá gledinni í þessari hvørs manns far„sæld? því skyldi hjarta þitt nagast af ótta,„edur þín ásjána formyrkvast af sorgarskyjum,„þegar sá audvirdilegasti af þeim, er kalla„þig Herra, brúkar daginn til gladværdar en„nóttina til rósemis? loksins, Sigurdur! hugs„adu þig um, og brúka speкina! hvar til er„sigurinn, nema til þess að madur búi óhult„ur, og því safna menn audæfum, nema til„að kaupa med þeim velgengnina?"

Sidan skipadi Sigurdur Kóngur ad láta tilbúa eitt sitt lystislot er byggt var á ey, sem lá í Grænavatni, svo eckert skyldi þar bresta, er vera kynni til ánægju þá hann þángað kjæmi. „Eg vil, sagdi hann, hverfa frá bró„sennunni í tíu daga! og vil ámedan enga á„hyggju hafa fyrir að vera á Rádstefnu, eda„útgefa Forordníngar. Laung hvíld getur ei„ordid þeirra hlutskipti, sem drottna yfir mørg„um

„um þjóðum; en tíu daga ró kann þó ecki „að neitast mér. Svoddan stuttrar ánægju „og farsældar tímabils gèt eg þó verið viss um „að njóta, án þess að sorg, vyl eða óþægi„leg tilfelli ángri mig á meðan. Eg skal úti„lykja frá mínum hybýlum alla áhyggju, og „burtryma frá mínu hugskoti hvörju hellst því, „er trubla kynni saungvanna gleði, eða minka „gèstabodanna sætleika. Eg skal uppfylla alla „mína sálu með ánægju, og sá að reyna hvað „það er að lifa svo ecki ein einasta ósk sè ó„uppfylld."

Innan fárra daga var allt gjort, sem hann hafði fyrirskipað, og Sigurdur Kóngur fór með skyndi til Græna-slots, er stóð á hólma nockrum, hvörr undirbúinn var til gleði og ánægju. Hann var allur plantaður með sérhvörjum þeim grösum og blómstrum, er breida dægileguftu liti mót sólunni, og með þeim trjáum og urtum er uppfylla loptið með sætasta ylmi. Oddrumeginn í grasgardinum, sem var yfrid stór, vóru opin gángrúm til að reika í á morgnana, en hinnmegin þyckvaxin eikabyrgi, og rósamir laufskálar, með uppstöckvandi vatnsædum til að sitja við og hvíla sig í um middegið. Allt það, sem gat gjort skilníngarvitunum ánægju, edur þócknast innbirlaninni, allt hvað ástundan gat útpressað af náttúrunni, eða ríkidæmi meddeilt konstinni, allt hvað sigurvinníngin gètur yfirkomist, eða lempni dregið til sín, var þar samankomið á einum

stad, svo ad allsslags yndis þánkar urdu. Þar bædi uppvaktir og mettadir.

Til þessa yndæla stadar baud Sigurdur öllum þeim af hans hof-fólki, sem hæfilegast-ir syndust til ad géta tékid á móti ánægju eda veitt hana. Allir hlyddu fúslega hans skip-un; úngir, frídir, gladlyndir, skarpvitrir, flyttu sér allir til ad sedjast af farsæld. Þeir sigldu fagnandi yfir vatnid, hljódfærin juku gledina á ferdinni, og allra hjörtu útvídkudust af eptir-væntingunni.

Þá Sigurdur Kóngur var ásamt med hans glada förunevti lendtur; ásetti hann sér strax frá þeim tíma, ad segja skilid vid alla ánægju, ad sleppa huga sínum í tíu daga til gledi og rósemis, en þareptir ad hverfa aptur til manneskjunnar almennilega stands, og láta sitt líf eins og ad fornu vera blandad af sorg og gledi.

Hann géck strax inní sitt herbergi, til ad hugsa sig um hvar hann ætti ad birja þenna sinn sælu-hríng. Hann hafdi alla vellystíng-anna smidi hjá sér, um ad velja, en vissi ei hvörn hann skyldi til sín kalla, því hann gat ei brúkad svo einn, ad hann ei med því sama frestadi hins adgjördum. Hann útvaldi og forkastadi, hann ásetti sér og umbreytti aptur því áformi, þar til hans sinnis-kraptar þreytt-ust og þánkarnir trubludust. Sídan géck hann úti sal þann, hvar géstirnir bidu eptir honum, en augu hans vóru ófkjær, og ásjánan óhýr;

svo

svo hjá öllum uppkom þaraf misförnægja. Hann vard þess var, þeir urdu domm. hvad honum þókti midur, þared hann fann ad sin sinnis órósemi jókst af þeirra gladværdarleysi, en hann þó ætladist til gledi og sorgarléttirs af þeim. Sneri hann svo aptur inní sitt herbergi, leitandi eptir hugsvölun í brjósti sér; kom þá hvorr þánkinn á fætur ödrum, og ein umhugsanin fædi adra af sér. Tídin rann burt í þessari dymmu þoku er uppfyllti hans þánkafulla sinni, þar til hann um sídir raknadi vid, upplypti sinu hofdi, og sá ad vatnid glóadi af sólarlags geislunum. „Svona er, sagdi Sigurdur, og stundi vid undir eins, svona er „manneskjunnar lengsti dagur; ádur enn vér „lærum ad brúka hann, vitum vér ei fyrri til „enn hann er á enda."

Honum þókti svo illa farid, ad hann var búinn ad tapa mesta parti af fyrsta deginum, ad hann hafdi enga lyst til ad nyta sér qvöldid, og þegar hann hafdi vegna þenara sinna, þvíngad sig til ad snúast lystugur, og vekja þá gledi hjá ödrum, er hann sjálfur gat ei haft, ásetti hann ad geyma von sína til morguns, og gánga til hvílu, til ad njóta ásamt med ensidisins og armóds þrælum blessunar þeirrar, sem svefninn med sér færir.

Hann reis snemma upp annann morguninn, og ætladi þá ad vera sæll. Lét hann því festa Forordníngu uppá hallar-dyrnar, í hvörri skipad var: „ad hvorr helst, sem í níu

„daga

„daga léti sig sjá í Kóngsins nærveru med ó„gledis-svip, eda sýndi nockurt merki á sér til „óánægju eda sorgar, skyldi æfinlega útlægur „úr Græna-gardi."

Þessi tilskipan spurdist strax um öll herbergi á Slotinu, og í öllum gángrúmum aldingardsins. Öll gledi flaug þarmed burt, og þeir, sem ádur donsudu á sléttunum, eda súngu í forsælunni, urdu strax áhyggjufullir, hvornin þeir kynnu svo koma útliti sínu og augnatilliti fyrir, ad Sigurdur Kóngur gæti ecki adfundid eda merkt neitt, er forskuldadi þá útrekníngu, sem hann hafdi hótad.

Sigurdur Kóngur fann þá, ad hvort eitt andlit var brotid í fellíngar til ad sýnast brosleitt, en sá útvortis hýrleiki gat ei dulid ad innvortis var áhyggja, ótti og tilgjörd. Hann var siálfur vinalegur og altélegur vid ástvini sína, en þeir þordu ei ad tala neitt, nema med stærstu varkárni, til þess þeir létu ei bera á neinni sorg eda misþyckju. Hann stack uppá allsslags gamansemi, sem enginn hafdi neitt á móti, þared mótmæli hefdu kunnad ad virdast óánægjumerki, en hirdfólkid gaf sig eckert ad því, heldur lét sér einasta annt um vera ad koma sér í mjúkinn hjá Kónginum med glediteiknum og galsa háreysti. Hann færdi eitt og annad skémtilegt í tal, en honum var ei svarad med odru en kalda gamni og tilgjordar-hlátri, svo ad þegar hann var búinn ad leita allra bragda til ad uppörfa

þá

þá ad vera málhreifa, gladsinna og egiulega, komst hann ad raun um hvorsu önyt hans skipan hafdi verid, og leid svo sá dagur burt med ógédi, og eptirsjón ad Sigurdi hafdi þetta misteklist. Loksins gjördi hann enda á ótta og hrædslu gésta sinna og læsti sig inni í sinu svefn-herbergi, til ad yfirvega og uppþenkja ønnur medöl, ad verda viss um lucku og ánægju nærsta daginn. Hann kastadi sér uppí sængina, og augun luktust aptur; en naumast var hann fallinn í svefn, fyrr enn honum sýndist ad Slotid og aldingardurinn væru í einu flódi, og hann vaknadi vid vondann draum, eins og þeir, sem hugsa þeir séu ad brjótast um, og leita allra bragda ad þeir drucknl ecki. Hann lagdi sig aptur til svefns, en hindradist í sinni ró, af því honum sýndist ad fjandmennirnir væru ad falla inní rikid, þá braust hann um til ad fara á fætur, eins og opt skédur í draumi, en gat þad ecki, hann hugsadi ad svikarar hefdu selt sig í óvinanna hendur, þaraf vard því stærri ángist hans í svefninum, svo hann af vidbjód og ofbodi datt fram úr rúminu.

Dagur ljómadi, og vegna þess hann hafdi þá enga von um ad géta sofid lengur í þeirri óró, sem hann var í, klæddist hann, flódid, óvinanna áránsir og drottins svikin vóru svo rík fyrir hans hugskots-sjónum, ad hann gat ecki slegid þeim úr þánka sér, ellegar fellt sig vid neitt gaman eda skémtun. Allt fyrir þad

íhugadi hann þetta tilfelli svo skynsamlega, ad smámsaman foraktadí hann þad, álasadi breisk-leika sínum og hló ad draumnum; en ádur-enn svo lángt var komid, var mikill partur dagsins lidinn. Þetta sannfærdi hann um þad, hvörsu lítid af mannanna áformi og uppáfind-íngum er í þeirra egin valdi; þaraf fór hann ad aumkast yfir eymd og hégóma-stollt þessara skepna, sem ega þad undir innbirlíngunni, hvört þær hafa gledi og rósemi ellegar ecki. Lokst-ins vard hann fullkomlega sannfærdur um, ad eckert var í þessa hrædslu eda mædu-spunnid, skammadist sín fyrir ad hafa eydt tímanum til ad vola yfir því, sem umlidid var, og húgs-adi med sér, ad slíkir þánkar væru ecki til annars, enn lengja med vondann draum. Med þessum fallegu yfirvegunum endadist þridji dag-urinn, og Sigurdur einsetti sér enn nú einu-sinni, ad verda luckulegur daginn eptir.

Kóngurinn hafdi þá værústu bestu nótt, sem hann kunni ad óska sér, um morguninn var hann léttur á sér, heill og gladvær, og allt leit út til ad dagur þessi yrdi mjög ánæg-jusullur. Kóngurinn kom í urtagardinn, hafdi med sér sjølda af enu ædsta hirdfólki, konum og køllum, og sá eckert í kríngum sig nema yndi og gledi. Hana! sagdi hann, þetta er réttur gledi-dagur. Sólargeislarnir stofudu gló-andi á vatninu, fuglarnir qvokudu í lundun-um, og blødin á trjánum bløktudu fyrir hæg-um blídvindi. Hann géck úr einu gángrúmi í

ann-

annad umþenkingar- og sorgar-laust, þar heyrdi hann ad úngar stúlkur sátu í forsælunni, hann fór sjálfur ad dansa med ødrum til skémtunar á grænum vellinum, en gledi og ánægja spratt upp í huga hans, ein eptir adra; hann hafdi góda og gladværa þánka, taladi allt nett og uppbyggilega, allt dáduſt ad því, og svorudu honum skarplega, svo tíminn rann fram med hægum og þægum straumi, en eckert sorgar-ský í þannkunum né óþægilegt tilfelli gjordi þar á minnsta hlé edur hindran.

Þessi saklausa Vellysting hafdi várad heila eykt, þegar rétt í einu uppkom kall og þys med skrækjum og hljódum hjá qvennfólkinu. Hann snéri sér vid, sá ad allar hlupu, sem mest þær máttu, og allt var á tjá og tundri; úngur Krókódill hafdi komid uppúr vatninu, skreidst inní gardinn, og var ad leita ad einhvorju, sem hann gæti gleypt í sig. Sigurdur sá hann, þókti midur, ad svoddan andstygdar sképna hefdi komid til ad trubla allri farsældinni. Hann var ecki lengi ad reka Krókódilinn aptur útí vatnid, en gat þó ecki fengid af hirdinni ad vera kyrr á þessum yndislega stad, né tekid frá qvennfólkinu hrædsluna, sem yfir þad var komin. Enginn hugsadi um annad enn þann ógnarlega háska, sem þeir hofdu sloppid frá, skarpleikurinn var ordinn sljór og túngurnar bundnar. Nú þóttist Sigurdur Kóngur illa staddur, hann for ad hugsa úti þau óendanlega morgu tilfelli, sem,

svo ad segja, liggja í launsátri til ad spilla mánnanna lucku. Þó var honum þad hugfró, ad hann vissi med sér, ad þetta hafdi ecki komid af hans tilstilli eda ysirsjón, og þad væri hægt ad fyrirbyggja annad eins slis seinna.

## Føstudaginn, 5 Decembr.

Ná ætladi hann ad byggja eptirfylgjandi dagq ánægju á fastann grundvoll, apturkalladi þessvegna Réttarbótina um straff yfir þeim, sem sorgbitnir væru, því reynslan hafdi kénnt honum, ad Kóngarnir hafa ei svo mikla makt, ad þeir géti rekid ólundina í útlegd, eda rádid fyrir sálarinnar þaunkum, heldur sinnst ánægja einasta þar hvar frelsid er. Hann baud þess vegna øllum til gledi og skémtunar, svo enginn þyrsti á sér ad sitja edur þvínga sig neitt, en tilsetti verdlaun handa þeim, sem daginn eptir uppfindi ødrum fremur skémtun og gaman. Stór bord í salnum vóru þakin med gulli og gimsteinum, praktugum fatnadi og dýrgripum, sem allt átti ad þéna þeim til launa, er yfirgengi adra í snild og ánægjulegri skémtan.

Í fyrstunni, þá menn sáu þessi stóru audæfi og prakt, dádust allir ad Kóngsins ørlæti. Hann þóttist nú vera viss uppá, ad þeir fengju ena stærstu ánægju med því, ad keppast hvørr vid annann í gledinni; en hindranin kom frá sjálfu þessu sama kappi, þad óx svo, ad þad

vard

vard ad sterkri sinnis=hræríngu, rak þess vegna burt þá rósemi, hvorrar kjærin gétur aldrei án verid. Þad, sem vér med ákéfd óskum oss ad fá, kémur líka af stad jafnmikilli hrædslu, ad vér kynnum máské ad missa þad. Med slíkri sinnis=hræríngu gétur gladværd ecki stadist. Ef vel á ad liggja á manni, verdur ad vera skjær og rósamleg værd í sinninu. Hún var ecki hér, heldur var órósemi og qvídi kominn í stadinn. Enginn hvorki taladi né gjordi nockud, svo ad ecki væri audsjáanlegt á honum, hvad nærri sér hann tók þad, og hvad fólginn hann var éptir ad allir skyldi dádst ad sér; allir hugsudu til launanna, þvíngudu sig til hvors, sem þeir gjordu, hvad ecki gétur annad enn misþóknast; Sigurdur mátti med sorg sjá, ad launin láu allri hirdinni í meira rúmi enn sjálfur hann.

Því meir, sem á daginn leid, því hardari var kýtíngurinn allra á milli; þeir, sem sáu ad þeir mundu verda apturúndan, fóru ad líta skocku hornauga til hinna, og ota mogli med øfundar=ydum. Sigurdur Kóngur sá, ad ef hann útbýtti launumum, eptir sem hvorr hafdi tilunnid, mundi morgum þykja midur, sem færu þeirra á mis; þared nú þessi Dagur var ætladur til gledi og velferla, vildi hann engann hrella, en sagdi ad allir sínir hirdmenn hefdu gjort sitt besta til, og øllum hefdi eins tekist, lét þá því hafa jofn laun.

Hér fór ødruvísi enn hann ætladist til! Þessi varkárni espadi þá upp, sem þóttust vera vissir um en stærstu laun. Þeim sveid sárt ad verda gjørdir jafnir hinum ríngustu, og þá Kónaurinn af örlæti sínu gæfi þeim miklu meira, enn þeir hefdu kunnad ad vænta sér, þeim lá þad samt í þúngu skapi, ad þeim hefdi ecki verid betur gjørt til enn ødrum, og þeir gætu ecki hlackad yfir hinum, sem midur fórst ad. Æ! sagdi Sigurdur Kóngur, og dæsti vid: „svona fer fyrir þeim, sem leita ad luckunni „annarstadar enn hjá sér sjálfum, og ætla „sér ad verda farsælir af ødrum." Hann vék sér þá afsídis til ad hugsa um þetta, en á medan vóru hirdmenn hans ad álasa honum fyrir launa útskiptin, og svo leid fimti dagurinn á enda.

Strax morguninn eptir fór hann ad hugsa um hvornig sá dagur ætti ad verda luckulegur, en þared honum hafdi svo mistekist allt hvad hann þángad til hafdi uppfundid, þenkti hann med sér, ad best væri ad láta luckuna ráda fyrir øllum þeim degi, og láta hvørn skemta sér eins og hann vildi og gæti.

Þetta frelsi og sjálfrædi útbreiddi gledi um alla hirdina, og nú hugsadi Kóngurinn, loksins hefdi hann hitt rétta adferd til ad vera gladur og luckulegur. Þegar hann var á gángi híngad og þángad innanum þann ánægda hóp, sem engum løgum þurfti nú ad hlýda; heyrdi hann af hendíngu, ad einn af hirdmønnunum

sat

sat úti horni, og taladi þannig vid sjálfann sig: „og hvad hefir hann þá framyfir ockur? „hann hefir kannské gjort tvö eda þrjú hreysti- „verk; en óhófid sem hann núna er sockinn í, „spillir ad hann er engu betri enn vid."

Þetta særnadi Sigurdi Kóngi því meir, sem þessi madur hafdi ætíd verid fremstur í flocki ad smjadra fyrir honum, og hrósa öllu med stærstu audmýkt á Kónginum. Í fyrstunni þókti Sigurdi svo fyrir, ad hann ætladi strax ad hefna sín, en hann stillti ad því leiti brædi sína, ad hann einasta fann uppá eitthvört skick- anlegt yfirvarp til ad reka þenna mann burt úr sinni þjónustu. Kóngunn kostadi þetta nock- urt og ecki stutt innvortis strid, en eptir ad hann var búinn ad yfirvinna hefndargirni sína, vard hann um qvöldid ecki einasta rólegur, heldur líka hafdi sæta gledi af því, ad hafa breytt vel í þessu efni.

Morguninn eptir eimdi af þessari mildi, svo hann birjadi sjöunda daginn med því, ad vel lá á honum, og hann var hýr í yfirbragdi. Eckert ógæfulegt bar vid, og gledin óx meir og meir, þángad til hann tók eptir því, ad sú eik, sem hann sat undir, minnti hann á ó- lánid þegar hann vard sigradur í Kóngs-rík- inu Goyam, hans herlid strá-drepid edur rek- id á flótta, og hann siálfur vard alla nótt- ina ad hýma undir sama slags eik og þessi var. Þá vaknadi upp fyrir honum allur sá skadi og manntjón, sem hann bedid hafdi, í

bar-

bardaganum, svívirdíngin, sem hann hafdi af heila leidángrinu, og oll þau ókjor, sem þegnar hans urdu þá ad þola af sjandmonnum hans, hvad allt nú uppfyllti hjarta hans med hrygd. Sigurdur Kóngur sló samt þessum þaunkum frá sér, og fór ad verda gladur af því, í hvorsu yndælum stad hann nú var, þegar osund þeirra, sem til lannanna hofdu unnid, aptur braust út. Hann bar sig med gódu og fortolum ad sefa þá misfornægdu, en loksins hlaut hann ad taka til myndugleika síns, og skipa þeim ad tala ecki eitt ord framar um þau laun.

Attunda dags morguninn vaknadi Sigurdur Kóngur vid, ad þys og meiri umgángur var í herberginunum enn vant var. Skommu eptir var komid til hans, og sagt ad dóttur hans Hildi væri ordid mikid íllt. Hann fór strax á fætur, lét læknarana skoda sjúkdóminn, en þeir gáfu litla von um, ad Kóngs-dótturinni mundi batna. Þar var þá endir á allri gledi! frá því augabragdi þenkti hann ei umannad, enn hvornin sinni elsku-dóttur lidi, og vard þremur dogum þareptir ad veita henni nábjargirnar.

Svona lidu þeir dagar, sem Sigurdur Blálands Kóngur, Einvalds-herra yfir fjorutíu þjódum, hann, sem hafdi allt er menn eptirsækjast, og útskipti aud og allsnægtum; svona, segi eg, lidu þeir dagar, sem hann hafdi útvalid sér til gledi og yndis, til ad hressa sig

sig á frá þeirri mædu og þreytu, sem hann hafdi af stridi og rikis-stjórninni. Hann eptirlét sögu þessa handa þeim, er seinna lifa mundu, til þess ad engin manneskja hugsi sér ad hafa í sjálfs valdi ad vera luckulegur svo lengi, sem einn dag, því sídur lengur.

## LIV. Snilli- og Rhmin-yrdi.

Skáld nockurt kom til Herra Bautru med qvædi og beiddi hann svo sem vin ad segja sér hans meiníngu. Hann las þad allt til enda, og þegar Skáldid kom nockrum dögum seinna ad sækia þad, saadi hann: mér sýnist qvædid vera oflángt. Mikid vel gjördud þér, svaradi Skáldid, ef þér vildud segja mér, hvad eg ætti ad gjöra vid þad. Þad er, svaradi Bautru, ad stytta þad um helmíng, en forkasta hinu.

Hann Helgi má vita betur enn eg, hvad mikil vinátta ockar hefir verid; mér hefir hann opt sagt, ad hann elski mig eins og bródur. Væri eg sjaudmadur hans, þá er eg viss um ad hann gleymdi mér ecki; en nú gleymir hann mér þó eg egi ad heita vinur hans.

Ingileif er ecki blind vid yfirsjónir og syndir; fátt er óstraffanlegt í hennar augum, í hid minnsta er þad hvorki skarpleiki hennar Þórdísar, né fridleiki hennar Hallgérdar. Hún

er hvorki ánægd med sig né adra, og hennar túnga er óþreytandi í ad kénna. Ertú ad spyrja ad orsökinni? hún Ingileif er farin ad eldast.

.◡. .◠. .◡.

Mælsku-manni nockrum var hrósad, svo Agesilaus Kóngur heyrdi til, fyrir þad, ad hann gæti gjört lánga rædu útaf hvorju efni, sem hann tæki fyrir sig. Agesilaus svaradi: ad þeim skósmid er hlegid, sem gjörir lángann skó á litinn fót.

.◡. .◠. .◡.

Æ daudi! þegar þú ferdast hér um, þá gaktú framhjá honum Hermundi, því hann hefir gledi, glaum og alls nægtir, en enga mædu eda sorg. Hvad á hann ad gjöra í annann heim? þad fer vel um hann hérna.

.◡. .◠. .◡.

Um snikju-gést nockurn, sem undir eins var bakmálugur, var sagt, ad hann lyki aldrei upp munninum nema ödrum til skada.

.◡. .◠. .◡.

Drengir nockrir mættu Kérlíngu, sem rak Asna á undan sér, sæl vertú Asna-módir, sögdu þeir; hún svaradi: komid þid sælir börnin mín!

.◡. .◠. .◡.

Hann Géstur fór hédan hálfnakinn og allslaus, en er kominn aptur vel uppdubbadur og slug-ríkur. Eg þeckti hann ecki, svo var hann umbreyttur; þad var ecki heldur von til, því hann þeckir sig ecki sjálfur. Þad

Það er bágt að koma því saman, að vera hreinskilinn og blíðmáll, þó má hvørr einn játa um þig, Styrkár minn! að þú gétur vel skickað þér í hvørutveggju. Þú ert mér blíðmáll á brjóst, en hreinskilinn á bak.

Hvað géngur nú að? hann Páll, sem enginn hefir gétað verið hjá, vegna þess hann var svo hávarr, og ecki gat þagað meðan hann svaf, því síður endrarnær, og hann Pétur, sem munnurinn hefir aldrei staðið á, tala núna báðir, seint, spart og í hálfum hljóðum. Eru þeir orðnir skynsamari, hógværari eður auðmjúkari? æ nei! í frostinu, sem kom í nótt eð var, varð annar hás en hinn heyrnar-daufur.

Þrír eða fjórir nágrannar mínir øfunda mig, en svo er lángt frá að mér þyki það miður, að eg vildi óska þeir væru fleiri.

Faðir nockurr vildi vissra orsaka vegna ecki hrósa hjónabandinu øfmikið svo dóttir hans heyrði til. Sú sem giptist, sagði hann, gjørir vel, þó gjørir sú enn betur, sem er ógipt. Faðir minn góður! svaraði dótturin: eg vil gjøra vel, en gjøri hvør ønnur betur sem vill.

Nockuð stollt verða menn að halda honum Grímólfi til góða, því hann setur sig svo vel til, og sýnir á svip sínum svoddan speki, að

liklegt er fáir muni hans makar. En í dag hefir allt þad, sem eg hefi heyrt til hans einasta verid, ad hann hefir bedid eptir því, sem adrir sögdu, til þess annadhvort ad jánka þad spekingslega, ellegar med sérvitsku ad vinda útúr því. Er Grímólfur sá spekingur, sem hann þykist, eda er hann ecki? eg ætla ad trúa ordum hans.

Steinólfur slær allri sinni áhyggju og forsjón á frest til á morgun. Á morgun ætlar hann ad ydrast og umvendast, á morgun gjöra sér vini, á morgun vakta sig fyrir óvinum sínum, og á morgun verda ydinn og sparsamur. Hann er ecki heimskingi nema í dag.

Eg þecki hann Krapp, sem talar svo mikid um sín hreysti-verk, hvornin hann hafi fellt þenna, lúbarid hinn, brotid tönnurnar úr einum, og gefid ödrum glódar-auga. Krappur telur þar upp allt, hvad hann hefir siálfur ordid fyrir.

Stúlka nockur qvartadi mikid yfir lygi og álasi, sem gengi fjöllunum hærra í veroldinni, og sagdi til dæmis, því hefdi verid logid uppá sig, hún hefdi átt sex börn í lausaleik. Madur, sem vid var, tók strax í taumana med henni, og sagdi þad væri ecki offögum sagt af því, hvad lygid fólk væri, því ecki væri ad trúa nema helmingnum af því sem skrafad væri.

Þú

Þú vilt, Ingun! ad eg hrósi þér. Taktú þá ord mín vel, því eg tala ecki í þeirri veru ad hræsna fyrir þér. Þú ert eins hógvær og sjó-deyda, og eins trúfost, sem medbyr.

Þorgrímur slær skuldinni uppá slæmt minni sem hann hafi, þegar hann heldur ecki þad, sem hann lofar. Já; því trúi eg vel þad sé slæmt, því hann gleymir aldrei ad hefna sín.

Hún Matthildur hlær opt, og heldur þá hendinni fyrir munninn á sér. Hvörs vegna ætl'hún gjøri þad? hún bædi heldur fyrir svortu tonnurnar í munninum, svo þær sjáist ecki, og líka sýnir hringinn á hendinni á sér.

Dryckjusvínid hann Ønundur hefir allar hofudsképnurnar meir adskildar hjá sér, enn flestir adrir: eldinn í augunum, mold í hofdinu, vatn í búknum og lopt í peninga-pýngjunni.

## Laugardaginn, 6 Decembr.

## LV. Um Hala-stjørnur.

Í qvøld kom eg nockud seinna, enn eg á vanda til inní badstofuna, heyrdi eg þá ad eldstu børnin og fólkid vóru mikid ad tala um Hala-stjørnur, lagdi sitt til hvorr, hvad hann hefdi heyrt eda ímindadi sér, var sumt, eins

og nærri má géta, ecki hid markverdasta, en lærimeistarinn í samsætinu var þó einkum gømul, minnug kona, sem sagdi frá hvad módir sín hefdi sagt sér eptir módur sinni, um himinteiknid stóra í hennar tíd, um hvort enn eru psálmar til all-vída. Hún var líka fród og tølug um allar þær óluckur, sem þar á eptir hefdu komid: ad kýr hefdi átt kálf med 6 fótum, ad kona hefdi verid brend í Stranda-sýslu, madur hefdi stolid undir Jøkli, Hekla hefdi gosid eldi, hardindi komid og stóra bólan þar ofaná. Tilheyrendurnir hlýddu forvida á, einkum af því líka ad sunnudags gudspjallid um teikn á sólu og túngli, sem útleggiast á á morgun, kom í tal med, svo Magnús litli einsamann var sá, sem eitthvad hafdi móti þessari hrædslu, en hann komst varla upp med eitt ord, því allir álitu þad fyrir gudleysi, ad efast um ad slík sýnileg Guds reiditeikn hefdu ei neitt sérlegt ad boda. Strax og ég kom ad, var þad fyrsta, ad Magnús, sem ecki var yfirbevísadur af hinna allra mótsøgnum, en gat þó ei komid þaunkum sínum í sannfærandi ord, spurdi mig: hvort Hala-stjørnur bodudu sérlegt Guds straff.

Prestur. Hvad sýnist þér strída á móti því ad svo sé?

Magnús. Þared mestur partur allra þeirra, sem á jordunni búa sjá Hala-stjørnuna undir eins, svo yrdi hún ad boda þeim øllum ólucku; en søgurnar géta ei um þad, held-

heldur er fridur í einu landi þó stríd sé í ödru, árgæzka í einum stad þó hallæri sé annarstadar, og þó einhvörr Kóngur deyi í nockru ríki, þá kann annarstadar Kóngs-efni ad fædast.

Prestur. Satt og rétt er þad; sögurnar sýna líka, ad opt hefir eitthvad luckulegt tilfallid, eptir ad Hala-stjarna hefir komid í ljós, og eg hefi einhvörsstadar lesid, ad slík stjarna hafi sjest rétt skömmu ádur enn Endurlausnarinn vor fæddist í þennann heim. En, Eydur litli! manstú ecki til hvad eg sagdi þér einusinni í haust um reikandi stjörnur?

Eydur. Þér sögdud þær væru jardir, og ad vor jörd og túnglid væru allteins reikandi stjörnur, sem í hinum jördunum væru útlits eins og oss sýnast himintúnglin; allar gánai þær sífeldlega á vissum ásskomtudum tídum kríngum sólina, og væru tvennslags, Plánetur eda Kómetur, en Kómeta væri eptir ordinu Stjarna med hári, þad er Hala-stjarna.

Prestur. Rétt er þad. En getur þú, Magnús litli! sagt mér rok til ad Hala-stjörnur sén jardir?

Magnús. Já því þær eru stödugir varanlegir hnettir, gánga kríngum sólina í aflaungum hríng, sem er miklu lengri enn hann er breidur til, en þó eptir sömu hræríngar-reglum eins og Pláneturnar, sem líka eru jardir.

Prestur. Svo er þad. Því þær fara ymist fjær edur nær sólunni, og hafa skin og birtu af henni, því sá kanturinn, sem veit ad

söl-

sólunni er bjartir, en hinn helmíngurinn dymmur, eins og allir sjá á túnglinu, og hæglega sást á Halastjörnunni 1744. Sú Halastjarna, sem 1450 gékk milli jardarinnar og túnglsins, bar skugga á þad, þá þad var í fyllingu, þad er formyrkadi þad, og sýndi þarmed ad hún var dymmur ógagnsær hlutur, sem hafdi birtu sína af sólunni. Hala-stjarnan, sem sást 1770 var ei lengra frá jördunni enn túnglid er, gjördi samt enga umbreytíngu á flódi eda fjöru; þar á mót var sú, sem 1590 sást, 80 milliónir þíngmannaleidir frá sólunni, vil eg samt ekki tala um þær, sem einasta sjást med kíkirnum. Hala stjörnurnar gánga med ödrum himintúnglum frá austri til vesturs daglega, renna upp og nidur med sömu stjörnum, vid hverjar þær ber, og þeckjast þaraf hæglega frá öllum loptsjónum, t. d. rosa-baugum, tvísólum, eldhnöttum og mörgu ödru, sem finnst skírt umtalad í Isl. Lærd. Lista Félags Rita 3 B. Þessar jardir, þad er Hala-stjörnurnar, hafa svo vissann, reglubundinn og afmarkadann gáng, ad lærdir menn géta reiknad nær þær komi aptur á sama stad, og þannig hafa þeir reiknad gáng hérum 80 Hala-stjarna, sem sést hafa sídan 837. Halley, mikill Stjörnuspekíngur í Englandi, reiknadi þær manna fyrstur fyrir 100 árum, og þá þegar 24 af þeim. Hann sagdi líka fyrir, ad Hala-stjarnan sem sást 1682 mundi aptur koma 1759, og munadi einum mánudi í reikníngi hans,

hvar

hvar til Stjornu-spekingar hafa sídan sagt orsökina, svo ad raunar skeikadi ecki reikníngur hans í hinu allra minsta.

Magnús. Vita menn þá nær von er aptur á þessum 80 Hala-stjornum?

Prestur. Já! og þegar einhvor sjest hér eptir nockra stund, er ordid hægt ad reikna hennar gáng, þó eru nockur atvik, sem géta um lítinn tíma dregid hennar tilkomu, hvor líka má reikna.

Gudmundur. Gétid þér, Fadir minn gódur! sagt ockur hvad lángur tími er ámilli þess, ad Hala-stjarnan hverfur, og til þess hún sjest nærst aptur?

Prestur. Þad er ymist, því þó þær allar gángi eptir somu reglum, þá er samt stór munur á hvorrar einnar ferd af þeim. Eg skal, til dæmis, segja yckur hvad lengi ein ferd hvorrar af 7 Hala-stjörnum varir kríngum sólina, og er þá ein slík ferd hvorrar fyrir sig eitt hennar ár, eins og hvor ferd jardar vorrar kríngum sólina, er eitt vort ár.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Halastjarnan, sem sást | 1684 | þarf 50 | vor ár. |
| " " " " " " | 1682 " | 75 | " " |
| " " " " " " | 1337 " | 100 | " " |
| " " " " " " | 1677 " | 200 | " " |
| " " " " " " | 1744 " | 300 | " " |
| " " " " " " | 1665 " | 400 | " " |
| " " " " " " | 1680 " | 575 | " " |

Lýdur. Þad veit eg ad enginn ockar lifir svo lengi, ad hann sjái haþa. En veit

nockur manneskja hvad margar Hala-stjornur eru til?

Prestur. Nei! en líklegt er ad stór fjøldi sé til af þeim; því vér sjáum einasta þær af þeim, sem koma nærri vegi vorrar jardar. Hvør ein stjarna er sól, sem svo ad segja stend-ur kyrr, gefur af sér ljós og birtu, og hefir ad líkindum hvør ein margar jardir, sem kríng-um hana gánga, má þetta med øllum rétti kallast þeirrar sólar-kérfi edur heims-kérfi. Þessar jardir fá birtu hvør af sinni sól, þær sem hún á þær skín, og sýnast því frá nærstu jørdum bjartar ad nockru leiti, eins og væru þær stjørnur, en vegna þess þær eru stíeldlega á ferd kríngum sína sól, þá kallast þær reik-andi stjørnur. Þessar reikandi stjørnur eru tvennslags, svo sem hann Lydur litli sagdi ádan, adrar sem fara í aflaungum baug, eins og spor-askja sé edur egg-mind, og komast ald-rei svo lángt frá sólunni, ad svari morgum þeim bilum, sem er millum sólarinnar og þeirr-ar somu jardar, þegar bilid er sem minnst, þessar heita Plánetur, og medal þeirra eru jørd vor, qvøld- edur morgun-stjarnan (því sama er sú Plánetan) og 5 adrar, sem menn enn þá þeckja. Hinar fara í miklu lengri og mjórri bug kríngum sólina, komast á ferd sinni mikid lengra frá henni, og kallast Hala-stjørn-ur. Gætum nú ad, hvad lángt bil er mill-um hvørrar Plánetu (edur jardar) í ockar sólar-kérfi, þá má ad líkindum ráda hvad marg-

margar Hala-stjornur þar gætu haft nóg pláts. Frá 1770 til 1785 hafa fundist 16 nýjar Hala-stjornur, hvorjar allar, og líka allar sem ádur hafa verid útreiknadar, ad einum tveimur fráteknum, hafa verid nær sólunni, þegar þær hafa komid henni nærst, enn pláuetan Mars, og er þó Mars nærsta pláneta vid jord vora. Milli plánetanna Mars og Júpíter eru 15 milliónir og 200 þúsund þingmannaleidir (5 mílur í hvorri), og aptur milli Júpíters og Satúrns enn lengra, nefnilega: 18 milliónir og 200 þúsund þingmannaleidir, þá er líklegt, ad í því ógnar plátsi sé morg ein Hala-stjarna, sem vér ei verdum varir vid, og geti hún samt verid stærri enn vor jord, þegar vér einasta adgætum, ad Júpíter sýnist oss eins og lítil stjarna, vegna þess hann er svo fjærri oss, er hann samt svo stór pláneta, ad hún gæti verid efni í 1500 eins stórar jardir og vor jord er, en þyckt vorrar jardar er 344 þingmannaleidir. Lærdi Stjornu-spekingurinn Lambert, (sem er sáladur hérum fyrir 20 árum) hefir reiknad, ad í þessum fyrr tiltekna geim innan Satúrns vebanda, geti $5\frac{1}{2}$ billíón (*) Hala-stjornur haft nóg rúm, svo engin sé annari til baga. Nú er þó plánetan Uranus, sem 1781 sást í fyrsta sinni*, 35 mill., 804 þúsund 208 þingmannaleidum utar, þad er, lengra frá sólunni enn Satúrnus, og hvorr veit



(*) Ein Billíón (Tví-millíón) er þúsund milliónir, edur þúsundsinnum þúsund þúsundir.

hvad lángt frá sólunni plánetur enn kunna ad finnast, og hvad lángt bil aptur sé þadan til sólar í næsta heims-kérfi. Sogurnar géta um meir enn 400 ymsar Hala-stjornur, sem siest hafa kikirslaust, þángad til fyrir 150 árum, en sídan kikirar hafa uppfundist, eru þær sarnir ad siást miklu fleiri. Þó er stór fioldi þeirra, sem ad líkindum hafa á himninum og syniz legar verid, en samt ei siest, af því þær hafa verid fyrir ofan sióndeildar-hrínginn um daga, hvad ed sannast af því, ad 60 árum fyrir Kristi fædíngu fell inn sólar formyrkvan, sást þá á medan á henni stód, Hala-stjarna skamm frá sólinni, sem án þeirrar formyrkvanar ecki hefdi siest. Margar Hala-stjornur hafa gétad verid synilegar, og þó ei siest vegna skyja, þoku, edur jafnvel athugaleysis Stjornu-spekínganna, því fleira verdur sá var, sem med athygli ransakar, enn hinn, sem ecki gjorir sér far af því ad leita hlutinn upp. Dæmi uppá þad er, ad þá menn 1759 vóru ad skygnast náqvæmlega eptir Hala-stjornunni, sem siest hafdi 1682, fundu þeir 7 adrar á fáum árum, og 1760 þann 11ta Febr. sáust 2 Hala-stjornur í einu.

**Lydur.** En hvornin eru Hala-stjornurnar útlits? eru þær eins skjærar og pláneturnar?

**Prestur.** Í kikir synist Hala-stjarnan fleckótt og lodin, optast med þoku í kríng, en eins og kjarni eda hnottur sé í midjunni. Sumra þeirra skin er dauft med þokuleitum hala, adrar hafa klárt skjært skin med bjortum glans-

andi

andi hala. Halinn snýr ætíd frá sólunni, hvört sem Hala-stjarnan er á ferd til eda frá henni, og stærstur er hann þegar stjarnan er nærst sólunni, en skærastur nærst sjálfri stjørnunni og svo þunnur, ad almennilegar himin-stjørnur sjást í gégnum hann.

Magnús. Er halinn þá mjøg lángur?

Prestur. Misjafnt er þad, eptir því, sem Hala-stjarnan sjálf er stór eda lítil, er nærri sólunni og jørdunni eda fjærri þeim, og líka eptir því á hvørn kantinn vér egum til ad líta. Stundum er hann svo lángur, ad hann sýnist ad ná frá því hærst á himni, til ofanad því, sem ber lægst vid jørd, er þad mikid prýdilegt á ad líta, og skýtur halinn sér því lengra út, sem lengra er frá stjørnunni, hvørs vegna þeir gømlu kølludu þad hár, en í vankunnáttu tídunum kølludu menn þad sóp og reidi-vønd Guds. Þú veitst, Magnús litli! úr Justino þínum, ad hann skrifar sú Hala-stjarna, sem sást þegar Mithridates Kóngur kom til, þad er 130 árum fyrir Krists fædíngu, hafi verid svo stór, ad sýnst hafi eins og allur himininn væri í einu báli. Hali stjørnunnar, sem sást 1618, og um hvørja hér í Íslandi vóru orktir nockrir psálmar, skein yfir meir enn helmíng himinsins; sunnarlega í Nordur-álfunni (því þar ber meira á Hala-stjørnum enn hér nordarlega) skein hali stjørnunnar 1680, sem hún Hallgérdur var ádan ad segja ydur frá, yfir hálfann himininn, og halinn á þeirri, sem sást

 1744,

1744, hvorr þó var ei nærri svo stór, sem á þeim er eg fyrr nefndi, var mældur að vera 1 millión og 400 þúsund þíngmannaleidir.

Gudmundur. Hvað lengi er slík Hala-stjarna von að sjást í einu?

Prestur. Það er misjafnt eptir sem stjörnunnar gángur er. Af engri Hala-stjörnu vita menn, sem hafi síest yfir eitt missiri. Hala-stjarnan, sem sást 1769, og sem eg hér í landi sýndi nockrum, sást í 4 mánudi. Hali hennar reiknadist 8 milliónir þíngmannaleidir, en ecki sýndist hann með beru auga ossa-lángur.

Lydur. Er hjá þeim, sem í Hala-stjörnum búa kynnu, vetur og sumar eins og hjá ockur hér á jördunni?

Prestur. Gud hefir tilbúid sínar skapadar sképnur uppá svo ymislegann máta, og hefir valid þau hentugustu medöl, til að koma sínum allra besta ásetníngi fram hjá þeim öllum, svo að vér skiljum minnst í því, egum því hvorki að efast um hans gædsku, mátt né speki í að gjora allt hid besta, hann sá líka í ondverdu allt hvað hann hafdi skapad, og þá var það harla gott. Það er því ecki von vér skiljum hvornin Hala-stjörnum er varid, þegar vér ei skiljum svo ótal margt, sem vér daglega höfum handa á medal. T. d. stóra Hala-stjarnan 1680, sem tal þetta reis útaf, kom 166 sinnum nær sólunni, og reyndi hennar hita 28 þúsund sinnum meir enn jördin, það er: að hún vard

2000

2000 sinnum heitari enn glóandi járn-millti er, ef hún hefir verid eins medtækileg fyrir hita, sem þad; aptur á mót má nærri géta hvada kuldi í henni má vera, og hvad lítil birta, þegar hún er lengst frá sólunni, þar hún yfir 280 ár er ad fjarlægast sólina meir og meir. Nockud má ráda hvada stór umbreytíng verdi á Hala-stjörnunum vid þad þær nálgast sólina, því þá vex hali þeirra mjög og þær eru þá í stífeldri þoku; en hvad skal þá segja um Hala-stjörnuna, sem sást 1779, í hvorri eitt ár, er 19009 vor ár, og sem fer 11 sinnum lengra burt frá sólunni enn Uranus, hvörr þó er 19 sinnum fjær henni enn vor jörd, samt er þessi 3 milliónir, 784 þúsund þíngmannaleidir frá sólunni. Til eru þær Hala-stjörnur, sem eru halalausar, en þær þeckjast af gánginum, sem er ödruvísi enn plánetanna, og þær fara líka lengra til nordurs eda sudurs enn plánetur. Af þeim fjórum nýju Hala-stjörnum, sem fundust á minna enn einu ári frá 18da Octóbr. 1780 til 9da Octóbr. 1781, sást engin med berum augum, en einasta á tveimur þeirra sást hali.

Af þessu öllu sjáid þid þá, börnin góð! ad Hala-stjörnurnar eru partar af heiminum, hvorn Gud í öndverdu skapadi, og þá setti hvörjum hans parti, hvörjum einum jardar-hnetti, sín lög og sinn gáng, sem þeir ætíd sídan hafa og halda munu, þángad til þeim alvísa, algóda og almáttuga Herra kynni þókn-ast med einu sínu ordi ad umbreyta þessu öllu,

eda

eda nockru. Hala-stjornurnar, eins vel, sem allur himinsins her, útbreida hans dírd, sýna hans almætti og speki, og þad ad vor jord er ei meira enn duptkorn í metaskálinni, þó virdist hann blessadur, ad hafa umsjön fyrir þessu dupti, fyrir þessa dupt-korns innbyggjurum, sem erum vér manneskjurnar. Hefjum þvi upp vor augu, eins og Spámadurinn ad ordi kémst Esa. 40, 26. Hefjum þvî upp vor augu, og sjáum hvørr svo mikla hluti hefir gjørt, leidir allann þenna her út, og nefnir þá alla (sem í honum eru) med nafni! hans kraptur og máttur er stór, svo ecki einn þeirra brestur. Ad hugsa Hala-stjarnanna gángur bodi ólucku, er sásinna, þeirra gángur er af Skaparanum eins skordadur, og hvorrar annarar reikandi stjornu, og þad er sama tilhæfi til ad Hala-stjarna bodi ókomna hluti, eins og ad þjófur steli, sótt gángi, eda illvidri komi, af því túnglid sjáist einhvorntíma í hádegis-stad á ollum vetrinum; og eg legg þad ad jøfnu, ad Hala-stjarnan, sem sást 1680, hafi bodad ad þjófur stal sér til heingíngar skommu seinna, eins og þad var fyrir Hala-stjørnunni, og bodadi hana, ad annar þjófur kann hafa stolid einhvorju skommu á undan. Himin-túnglin hafa oll sinn afskámtadann gáng, eins og eg strax sagdi, því, Gud er sá, sem gjørt hefir stjørnurnar á himninum, hann gjørir dásamlega hluti, sem enginn gétur útgrundad, og óteljandi krapta-verk, Job.

9, 9. 10. En syndir vorar og ránglæti eru þau, sem vissast og óefanlega boda oss ólucku og Guds straff. Þad er gamalt bodord, ad menn ecki egi ad hrædast himin-teiknin, Jer. 10, 2. hefir samt aldrei, verid apturkallad. Sú ydran, sem kémur af hrædslu fyrir himin-túnglunum er sjaldan lángærd; hún er opt á-þeck skip-manna ydrun, er hefir ord fyrir ad vera mjøg bráð og heit medan háskinn yfir-stendur, en vera gleymd þegar sjór og vindur aptur leika í lyndi. Vanvitrir menn hugsa litid úti Guds dásemdar-verk á medan eckert ábjátar, hlæja ad þeim, sem eyda tíma og ó-maki til þess ad yfirvega þau, en sjálfir þeir hafa mestu virdíngu fyrir spásagnar-fólki, kunn-áttu-monnum og sérvitríngum, sem med vissum leyndardóms-svip, tilgjordarlegu augna-rádi, undirfurdu-hætti, stunum, dæsum og dylgjum, uppæsa einfaldra eptirvæntíngu, tala vid þá eptir gédi þeirra, og inntaka einfeldníngauna inn-birlíngu, en þegar eitthvad fásjed tilber, svo sem þá stór sólar-formyrkvan, Hala-stjarna, mikill himinrodmi, eda þvíumlíkt sjest, blikna upp, tala um eckert annad enn dóma-dag, stríd, drepsótt og Guds synda-straff, en strax, sem þad er hjálidid, lifa og láta í glaum og gjálifi, í dreggjum hreckvísinnar, eins eptir sem ádur. Meti hvorr slíka ydrun eptir sem hann finnur fyrir réttast, en eg hefi lært ad Gud egi ad prísast med gódum verkum, med því ad lifa hreinferduglega, gudlega og spaklega í

heimi þessum, og med því ad yfirvega verkin Drottins og vegsama hann fyrir þau. Þau vitna um hans dýrd og gædsku. Lofid hann, segir David Psálm. 148, 3-6. Lofid hann sól og túngl! lofid hann allar stjærr skínandi stjørnur! Lofid hann þér hærstu himnar! lofid hann skýin í loptinu! vegsamid dýrd Drottins! því hann skipadi, og strax var þad allt skapad. Hann skordadi þad, ad þad ætíd skyldi vera innan sinna takmarka; hann setti því løg, sem þad aldrei yfirtredur.

## Sunnudaginn, 7 Decembr.

*LVI.* Hafid gát á ydur og bidjid, ætíd nær þér gétid því vidkomid, svo þér mættud verdugir álítast ad sleppa hjá þvk, sem uppá mun koma og ad verda Messías's handgengnir þénarar. Lúc. 21, 36.

Ut af þessari eptirtekta-verdu grein ásetti eg mér ad tala vid børn mín í gvøld um Bænar adferdina og þad, sem vér ætlum ockur med bæninni ad géta afrekad, en þar eg nýlega hafdi lesid fallegt samtal um sama efni, lét eg mér nægja ad brýna þad fyrir þeim.

Fad-

Fadir hans Gudlaugs litla hafdi gèfid honum qver, á þvì vóru ymsir gódir lærdómar handa børnum, og samvaldar fallegar ritníngar-greinir. Gudlaugi þókti vænt um bókina, og var strax fyrsta daginn búinn, ad lesa mikid af henni. Medal annara fann hann þessa ritníngar-grein:

Drottinn er nálægur øllum þeim, sem ákalla hann, hann er hjá øllum þeim, sem sannarlega ákalla hann. Hann gjørir þad, sem þeir gudhræddu girnast, hann heyrir þeirra kall, og hjálpar þeim. Psálm. 145, 18. 19.

Útí þessa ritníngar-grein fór Gudlaugur ad hugsa, og þókti hún mjøg eptirtekta-verd; hann fèll í þánka, studdi hønd undir kinn, og hugsadi med sjálfum sèr: „eg er gudhræddur, eg bid á hvørjum degi, og þó gjørir „Gud minn gódur ecki allt hvad eg girnist. „Þad er ecki meir enn mánudur sídan hún „amma mín sæla var sjúk, eg var í heila 2 „daga sífeldlega ad bidja, og þó tók Gud „minn gódur hana frá mèr.“ Fadir hans kom í þessu ad hønum, og sá ad Gudlaugur var í djúpum þaunkum, þaraf reis eptirfylgjandi samtal milli fedganna:

Fadirinn. Því ertú svo stúrinn Gudlaugur minn? kannskè þèr líkj ecki bókin þín?

Gudlaugur. Ojá, Fadir minn gódur! mikid vel.

Fadirinn. Eg sè þó ad þèr þykir eitthvad ad? G 2 Gud-

Gudlaugur. Eg fann hérna ritníngar-grein, sem eg skil ecki.

Fadirinn. Hvornin hljódar hún?

Gudlaugur. Gud gjörir þad, sem þeir gudhræddu girnast.

Fadirinn. Hvad þykir þér óskiljanlegt í því?

Gudlaugur. Eg bid líka, og þó gjörir Gud ecki allt, sem eg girnist.

Fadirinn. Þad er sérlegt! eg fyrir mitt leiti sæ af Gudi allt, sem eg bid um. Hvad hefir þú þá bedid um, sem Gud hefir ecki vil-jad gefa þér?

Gudlaugur. Ad hún amma mín sæla mætti lifa.

Fadirinn. Hvornin badstú þá?

Gudlaugur. Eg las á enda allar Þórd-ar-bænir, sem hann fodurbródir minn hafdi géfid mér.

Fadirinn. Er þarf nockur bæn fyrir sjúkri ommu?

Gudlaugur. Nei.

Fadirinn. Þegar þú vilt fara út ad leika þér, og bidur mig um ad lofa þér þad, ætl-ar þú þá ad lesa upp fyrir mér þad góda óska bréf, sem hann lærimeistari þinn skrifadi handa þér á dogunum?

Gudlaugur. (brosandi) Nei.

Fadirinn. Því ecki?

Gudlaugur. Þared í því stendur eckert um, ad fá ad fara út til ad leika sér.

Fadirinn. Því vildir þú þá fara að lesa út bæna-bókina þína fyrir Gudi, þegar þú ætladir að bidja fyrir henni ömmu þinni sælu, þared ekkert var í bókinni, sem heyrdi til því efni?

Gudlaugur. (hugsar sig nockud um) Já; nú skil eg, hvad mér hefir ordid á. Eg hefdi átt að láta hann lærimeistara minn gjöra bæn handa mér fyrir henni ömmu minni, þegar hún lá. Eg hefdi átt að lesa hana upp margsinnis á dag, þá hefdi Gud minn gódur ecki tekid hana ömmu mína sælu frá mér (hann fer að gráta.)

Fadirinn. En þegar þú bidur mig að lofa þér að fara út að leika þér, hverr gjörir þá bænina handa þér um það?

Gudlaugur. Enginn.

Fadirinn. Hvernin getur þú þá bedid, þegar enginn gjörir bænina handa þér?

Gudlaugur. Eg tala eins og mér býr í brjósti. Eg veit, að þér erud gódur við mig, Fadir minn! og þér takid það ecki illa upp fyrir mér, þó ordin séu ecki alltjafnt vel logud.

Fadirinn. Hvad ætli þú segdir þá, þegar þú vildir bidja mig, að lofa þér að fara út að leika þér?

Gudlaugur. Fadir minn gódur! það er ofurgott vedur í dag; lofid þér mér, að fara uppá tún-breckuna; eg skal vera skickanlegur; eg skal ecki fara lengra, og vera ecki lengur í burtu, enn þér lofid mér.

Fadirinn. Heldur þú eg muni veita þér þá bæn?

Gudlaugur. Ojá! þad held eg; nema þér hefdud einhvorjar sérlegar orsakir til ad láta mig vera heima.

Fadirinn. Heldur þú ad Gud þinn gódur elski þig eins mikid og eg?

Gudlaugur. Eg held hann elski mig enn meir, því þér hafid sagt mér, ad allt þad góda, sem þér gjörid mér, komi frá honum, og hann muni hafa umhyggju fyrir mér, þó þér dæud frá mér.

Fadirinn. Þad er aldeilis rétt! gættú ad augunum, eyrunum og öllum limum á þér, þad allt hefir hann gáfid þér, þó ecki hafir þú bedid hann um þad. Þad getur ei annad verid enn hann elski þig mikid. Því þorir þú þá ecki ad tala vid hann þad, sem þér leikur hugur á?

Gudlaugur. Því hann er svo stór og mektugur Herra.

Fadirinn. Satt er þad. En ef Kóngurinn ockar væri fadir þinn, ætli þú mundir ecki eins tala vid hann, eins og þú nú talar vid mig?

Gudlaugur. Eg held þad.

Fadirinn. Skodadu þá! Gud er líka þinn fadir. Þegar þú les þá bæn, sem hann hefir kennt ockur, þá lætur hann ockur kalla sig Födur ockar.

Gudlaugur. Hana þá! eg skal héreptir tala vid Gud, eins og eg er vanur ad tala vid ydur.

Fadirinn. Gott er þad. Ef hún amma þín sæla lifdi núna, hvørnin ætli þá vildir þá bidja Gud fyrir henni?

Gudlaugur. (hugsar sig um) „Gud minn „gódur!“ skyldi eg segja, „láttú hana ömmu „mína ecki deyja! hún elskar mig, hún minnir „mig á svo margt gott, hún segir mér úr „Biblíunni, hún ávítar mig þegar eg er óskick- „anlegur, en géfur mér koku þegar eg er á- „stundunarsamur og stilltur. Æ! láttu hana „ecki deyja! (hann fer ad gráta.)

Fadirinn. Rétt og gott! sú bæn hefdi verid Gudi þægileg.

Gudlaugur. En ætli hún amma mín sæla hefdi nú lifad, ef eg hefdi bedid svona?

Fadirinn. Segdu mér enn aptur ritníngar-greinina, sem þú varst ad hugsa úti?

Gudlaugur. Hann gjørir þad, sem þeir gudhræddu girnast.

Fadirinn. Hvørra girnd uppfyllir Gud?

Gudlaugur. Þeirra gudhræddu?

Fadirinn. Óttast þú þá Gud?

Gudlaugur. Ojá! eg skélf og hleyp í felur, þegar eg heyri, ad hann sendir reidar-þrumur. Eg verd hræddur þegar hann lætur storminn blása. Mig hryllir vid þegar eg hugsa til helvítis.

Fadirinn. Allt þetta gjørdi hún Signý sem var vinnukona hjá mér árid ad tarna, og sem eg vard ad reka burt úr vistinni. Var hún þá líka gudhrædd?

Gud-

Gudlaugur. Þad er ómogulegt, hvorn-in gát sooddan ókynd hafa óttast Gud?

Fadirinn. Því sýnist þér þad ómogulegt?

Gudlaugur. Hún blótadi stfeldlega, hún var ófróm, og hún hlýddi hvorki fodur né módur.

Fadirinn. Er þad þá nóg til ad vera gudhræddur, ad vera hræddur vid reidar-þrumur, storm og helvíti?

Gudlaugur. Nei! eg sje núna þad er ecki nóg.

Fadirinn. Hvad útheimtist þá meira til þess?

Gudlaugur. Ad hlýda Gudi.

Fadirinn. Gjorir þú þad?

Gudlaugur. Æ! ecki alltid.

Fadirinn. En þegar þú sér sannarlega ad verda gudhræddur, hvors viltú þá óska?

Gudlaugur. Ad eg gæti verid Gudi hlýdinn.

Fadirinn. Er þad hægt ad vera Gudi hlýdinn?

Gudlaugur. Eg held þad sé ecki svo hægt. Eg hugsa mér dag hvorn ad vera þad, og get þó ecki efnt þad.

Fadirinn. Þú fékst ávítur í gjær fyrir þad, þú hafdir ecki lært lectsiuna, sem búid var ad setja þér fyrir; því forsómadir þú ad læra hana?

Gudlaugur. Eg var frábitinn því.

Fadirinn. Í hinn enn fyrra dag fórst þú út svo eg vissi ecki af. Því gjordir þú þad?

Gudlaugur. Hann Sigmundur brædr=úngur minn kom mér til þess.

Fadirinn. Þú kannske verdir enn marg=sinnis frábitinn því, sem gott er, og hann Sigmundur brædrúngur þinn kannske beri sig optar ad koma þér til ills. Hvornin viltú fara ad, svo þetta gjöri þig ecki óhlýdinn?

Gudlaugur. Þad mundi vera gott, ef eg bædi Gud minn gódann, ad vardveita mig frá óhlýdni.

Fadirinn. Hvornin vildir þú þá bidja?

Gudlaugur. (eptir ad hann hafdi hugsad sig nockra stund um) Gud minn gódur! gefdu mér lyst til þess, sem gott er, og vardveittú mig svo hann Sigmundur frændi minn komi mér ecki til þess, sem íllt er.

Fadirinn. Hefir þá enginn annar komid þér til þess, sem íllt er?

Gudlaugur. Ojú! drengurinn í kotinu kom mér einusinni til ad taka braud, og eg var farinn ad blóta af henni Signýju.

Fadirinn. Hvorr veit hvad margir adrir kynnu enn nú ad verda til ad leida þig afvega? Þú verdur þá ad hafa bæning odruvísi.

Gudlaugur. Já! eg ætla ad segja: „vardveittú mig, Gud minn gódur! ad enginn „leidi mig afvega."

Fadirinn. Manstú til þess, ad þú lágst veikur í haust? þú badst læknirinn ad gefa þér aptur heilsuna, hvorju svaradi hann þér?

Gudlaugur. Eg vil feginn gjøra þad, Gudlaugur minn gódur! sagdi hann. En þú verdur þá ad taka inn dropana, eins opt og eg hefi sagt fyrir, og liggja kyrr, svo ecki komi kuldi ad þér.

Fadirinn. Ætlar þú þér hefdi batnad, ef þú hefdir ecki gjort þad?

Gudlaugur. Varla held eg þad.

Fadirinn. Gud hefir lika skipad ockur hvad vid egum ad gjøra, ef vid viljum hlýda honum. Eg sagdi þér þad fyrir skømmu, manstú þad núna?

Gudlaugur. „Eg á opt ad hugsa til „Guds; þegar eg er latur til þess góda, á „eg ad þenkja stødugløga um þá ánægju, sem „er von ad fylgja ydni og gódum verkum; „þegar eg hefi lyst til ills, þá á eg ad hugsa „úti hid vonda, sem þad dregur eptir sig.“

Fadirinn. Hvad ættir þú þá ad gjora, ef hann Sigmundur frændi þinn færi enn aptur ad koma þér til þess, sem er illt?

Gudlaugur. Eg ætti ad hugsa um áviturnar, sem eg fengi hjá ydur, og hvørsu ydur mundi mislika, ef eg léti hann ráda fyrir mig.

Fadirinn. Ef þú vildir bidja Gud ad gefa þér hlýdni, en þú vildir samt ecki gjøra þad, sem þér ber, heldur þú ad bœnin mundi þá hjálpa þér?

Gudlaugur. Varla held eg þad. Eg hugsa þad yrdi vidlika, og þegar eg beiddi lækn-

læknirinn um heilsuna, ad eg ætti líka ad gjora þad, sem mér væri skipad.

Fadirinn. Þú sier þá hvorsvegna Gud svo sjaldan gjörir þad, sem manneskjurnar bidja um. Annadhvort er þeirra bæn, ad þeir einasta lesa uppúr bæna-bókum, þad sem ecki á vid þeirra ástand, ellegar þeir óttast ecki Gud réttilega, ellegar þeir leggja þad ecki sjálfir til med hlýdninni, sem þeir eiga ad gjøra.

(Hér var fødur hans Gudlaugs sagt, ad gestur væri kominn, sem vildi tala vid hann, hann hætti þess vegna, en lofadi daginn eptir, ad bæta vid þetta samtal.)

Gudlaugi þótti mikid vænt um, ad hann þurfti nú ecki lengur ad efast um, hvornin bænheyrslunni er varid. Hann féll gladur á kné, og bad: „æ! Gud minn gódur! mikil „gledi er mér, ad þú elskar mig svo mjøg, „og jafnvel meir enn hann fadir minn. Æ! „eg vildi eg væri svo gódur, sem eg á ad vera! „æ! eg vildi eg gæti hlýdt þér í øllu eins og „gott barn! géf þú mér lyst til þess góda! „vardveit mig, ad eg ecki afvega leidist til ills! „eg vil gjarnan gjøra allt hvad eg gét, til „ad fordast óhlýdni." Þegar hann hafdi endad þessa sína bæn, var hann lángtum ánægdari og súsari til góds, enn ádur. Med gledi tók hann qverid sitt, og fór ad læra lectsíuna sína, sem honum var sett fyrir til þess daginn eptir, og vegna þess hann hafdi lyst á verki

sinn, svo átti hann lángtum hægra med ad læra, enn hann var vanur.

A medan hann hafdi þetta nytsamlega verk fyrir hendi, kom frændi hans Sigmundur, og vildi fá hann med sér í leik; en þó lystin vaknadi hjá Gudlaugi ad þyggja þad bod, svo rann honum strax í hug, ad þad væri ecki rétt gjört af sér, ad fara ad leika sér, medan hann væri ecki búinn med þad, sem honum væri sett fyrir, og ad hann mundi styggja Gud, ef hann géngi á þad heit, sem hann fyrir litlu stúndarkorni hefdi gjört.

„Frændi minn gódur!" sagdi hann, „nú „gét eg þad ecki, en strax og eg er búinn med „þad, sem eg á eptir ad læra, skal eg gjarnan koma." Sigmundi þókti midur, og sagdi, þá hyrdi hann ecki um þad. „Hana „þá," svaradi Gudlaugur, „eg ætla þá ad „vera kyrr, en gjordu þad fyrir mig, ad fipa „ecki fyrir mér núna."

Sigmundur fór fyrrtur í burt, en Gudlaugi þókti vænt um, ad hann svo luckulega hafdi yfirunnid freistnina. Hann var rólegrum qvoldid þegar hann fór ad hátta, enn hann var vanur, og þackadi Gudi, sem í þetta sinn svo audsjáanlega hafdi bænheyrt hann. Morguninn eptir fór hann ad finna fodur sinn, og bjóda honum gódann dag. Fadir minn gódur! sagdi hann, nú hefi eg reynt ad Gud gjörir þad, sem þeir gudhræddu girnast. Eg bad Gud í gjær ad géfa mér lyst til þess góda,

og

og vernda mig frá ad leidast afvega. Hann hefir bænheyrt mig. Eg var viljugur í gjær ad læra lectsiuna mína. Hann frændi minn vildi fá mig í leik med sér, en eg hafdi dirfsku til ad vísa honum frá mér. Fadirinn fadmadi ad sér son sinn. Haldtú áfram, sonur minn! sagdi hann, í því ad hafa svo einlæga umgengni vid þinn Gud, og þá mun þér sífeldlega fara fram í ollu gódu, og ad reyna hans elsku, þú munt komast ad raun um, ad gudhræddur madur bidur aldrei forgéfins.

Ef eg, sagdi Gudlaugur, hefdi bedid eins fyrir henni Ommu minni sælu, haldid þér hún mundi þá hafa lifad núna?

Fadirinn. Eg skal strax géfa þér andsvar, þegar þú ert búinn ad svara mér til fárra einna spurninga.

Gudlaugur. Ojá, Fadir minn gódur! ef eg gét þad.

Fadirinn. Þegar þú bidur mig ad leggja út fyrir þér ritníngar-grein, eda sýna þér grundvollinn til einhvorrar reglu í látínu máli, er eg þá vanur ad neita þér um þad?

Gudlaugur. Aldrei.

Fadirinn. Því þá aldrei?

Gudlaugur. Því eg held ydur þyki vída á því, ad eg alltaf læri meira og meira gott.

Fadirinn. En þegar þú bidur mig um sleikju-sætindi, um spari-fotin þín, um leyfi til ad fara út, fær þú þá alltid þad, sem þú bidur um?

Gudlaugur. Ecki alltíd.

Fadirinn. Hví þá ecki?

Gudlaugur. Þér hafid einusinni sagt mér, ad þér hefdud betur vit á enn eg hvad mér væri hollast. Eg held þess vegna þér neitid mér um margt, vegna þess þér sjáid, ad það er mér ecki þénanlegt.

Fadirinn. Þú svaradir vel! þegar þú þá heldur, ad eg viti betur enn þú, hvad þér er þénanlegt, hvorninn áttú þá ad laga bæn þína? hún módir þín ætlar ad hafa pönnu-kokur til bords í dag, og eg veit þú munir bidja um nockud af þeim; hvorninn viltú þá haga ordum þínum?

Gudlaugur. Fadir minn gódur! ætla eg ad segja, géfid þér mér nockud af kokunum þeim arna, ef þér haldid þær séu mér hollar.

Fadirinn. En ef eg géf þér nú eckert, af hvorju heldur þú það komi?

Gudlaugur. Þér haldid þá, ad þær séu mér ecki hollar.

Fadirinn. En getur þér þá þókt midur vid mig, af því ad eg neita þér um þá bæn?

Gudlaugur. Ecki held eg það.

Fadirinn. Og því ecki?

Gudlaugur. Af því eg beiddi um kokurnar undir því skilyrdi, ad þér hélduð þær væru mér þénanlegar.

Fadirinn. Skodadú þá! allteins er varid bæninni til Guds; þegar þú bidur ad Gud vilji géfa þér lyst og krapta til þess, sem gott er, heldur þú þá hann bænheyri þig? Gud-

Gudlaugur. Ojá!

Fadirinn.. Og því þá?

Gudlaugur. Vegna þess eg veit hann vill ad eg sé gódur.

Fadirinn. En þegar þú bidur um adra hluti, t. d. ad foreldrar þínir séu heilsugódir, um barna-gull, um peninga edur þess háttar, hugsar þú ad þad sé þér allríd þénanlegt?

Gudlaugur. Ecki held eg þad. Hann módur-bródir minn gaf mér einusinni boga, og med honum skaut eg af gáleysi í gluggann hans nábúa ockar, svo ein rúdan brotnadi; Eg sá þá fyrirfram hvada straff og ávítur eg mundi fá hjá ydur, og eg vard svo hræddur, ad eg margsinniis óskadi eg aldrei hefdi sjed þann boga.

Fadirinn. Hvörr veit þá betur, Gud edá þú, hvad þér er þénanlegt?

Gudlaugur. Þad er enginn efi á því; Gud.

Fadirinn. Hvörninn viltú þá haga bæn þinni, þegar þú bidur Gud um þesshattar hluti? svo sem t. d. ef þú ættir nú ad bidjá fyrir henni ömmu þinni síúkri, hvörnin ætli þú mundir orda þad?

Gudlaugur. „Gud minn gódur! láttú „hana ömmu mína lifa, ef mér er þad þén„anlegt."

Fadirinn. En þú átt ecki einasta ad bidja fyrir þér, þú átt líka ad bidja fyrir henni ömmu þinni. Ef þad hefdi verid ólucka fyrir

hana

hana ad lifa lengur, hefdir þú þá viljad bidja um, ad Gud skyldi gjöra hana ömmu þína blukkulega þín vegna?

Gudlaugur. Onei!

Fadirinn. Þú verdur þá ad laga bæn þína ödruvísi.

Gudlaugur. Já! eg hefdi átt ad segja: „Gud minn gódur! ef þad er mér og henni „ömmu minni þénanlegt, þá láttú hana lifa!“

Fadirinn. Ef þú hefdir bedid þannig og hún amma þín hefdi dáid samt; hvad mundir þú þá hafa þenkt um Gud?

Gudlaugur. Ad hann hafi þeckt, ad annadhvort hefdi mér eda henni eda bádum verid óþénanlegt ad hún lifdi lengur.

Fadirinn. Hefdir þú þá med rétti gétad skuldad Gud fyrir óhaldinyrdi, þó hann hefdi ecki bænheyrt þig?

Gudlaugur. Lángt frá, því eg hafdi ecki bedid um annad, enn ad hún amma mín mætti lifa, med því móti, ad þad væri bædi mér og henni þénanlegt.

Fadirinn. Þú sjer þá, ad Gud gjörir allt, sem þeir gudhræddu girnast, þad er bidja um, því þeir bidja Gud einkanlega um lyst og krapta til ens góda. Þad fá þeir alltíd, því sjálfur Gud vill, ad þeir séu gódir. Um adra hluti bidja þeir alltíd med þeim skilmála: ef Gud sjái þeim þad þénanlegt. Enn þared Gud er þeirra elskurikur fadir, svo géfur hann þeim eptir þeirra girnd og beidni allt

þad,

þad, sem þeim er þénanlegt. En þá þeir opt ecki fá þad, sem þeir bidja um, hugga þeir sig med því, ad Gud hafi þeckt þeim sé þad skadlegt.

* * * * * * * *

Gudlaugur var vel ánægdur med þessa útleggíngu. Þegar hann fór á fætur á morgnana, bad hann alltid Gud ad gefa sér lyst og krapta til þess góda. Þegar hann var dofinn í því, sem hann átti ad gjöra, ellegar fann ad þrá og vondska hreifdu sér hjá honum, þá bad hann Gud ad hjálpa sér ad yfirvinna þær. Þegar lagsmenn hans vildu locka hann til ills, þá beiddi hann Gud um hug og dug til ad mótstanda þeirra tillockunum. Hann vandi sig á ad þenkja fifeldlega um, ad Gud væri nálægur. Hann hafdi sér ætíd fyrir hugskots-sjónum þá ánægju, sem fylgir gódum verkum, og þad ángur, sem leti, vondska og óhlydni dràga eptir sig. Þaraf fór honum svo fram á stuttum tíma, ad allir elskudu hann, og hann var settur lagsmönnum sínum til eptirdæmis.

Tveimur árum þareptir lagdist fadir hans í sótt. Gudlaugur beiddi Gud daglega fyrir honum. Hann bad grátandi:

„Gud minn gódur! ef þad er honum fødur „mínum og mér þénanlegt, þá láttú hann „lifa lengur." Fadir hans dó samt, Gudlaugur syrgdi hann mjøg, því þeir fedgar høfdu hjartanlega elskad hvørr annann. En Gudlaugur 'gat huggad sig. Hann hugsadi med sér: „Gud minn gódur hefdi vissulega „látid mig halda mínum elskuríka fødur, ef „hann hefdi ecki þeckt, ad hans daudi var „betri bædi honum fødur mínum og mér. „Máské Gud hafi tekid hann burtu til þess, „ad flytja hann þess fljótar inní himnaríki, „og til ad sýna mér, ad Gud er minn rétti „Fadir."

Eptir þá tíd hrósadi Gudlaugur sér opt af því, ad hann med bæninni hefdi létt af sér allri sorg, neyd og mædu. Hann fór margsinnis til grafar fødur síns, og sagdi grátandi: „Gud launi þér í allri eilífd, „minn besti Fadir! ad þú kénndir mér ad „bidja."

Adur enn vid skiljum vid þetta efni, skulum vid taka undir hvørt med ødru, og sýngja seinasta versid af Psálminum: O! hvad bænmannsins øflug er:

**Bænin skal vera skickud rétt, ꝛc.**

Mánu-

Mánudaginn ⸗ Laugardaginn,
8 ⸗ 13 Decembr.

# LVII. Góð Børn eru Foreldranna besta audlegð.

## Gledi handa Børnum, í tveim Flockum.

Þeir sem Gledina leika, eru:
Kristján, Kaupmadur.
Steinn, Kaupmadur.
Margrét, dóttir hans Kristjáns 15 vetra.
Hinrik, bródir hennar 14 vetra.
Anna, dóttir hans Steins 15 vetra.
Hermann, sonur hans Steins 13 vetra.
Pétur, Hinriks Lærimeistari.
Einn Kaupmanns Þjenari.

Fyrri Flockurinn fer fram í kamersi í húsinu hans Kristjáns, en sá sídari í skrif⸗kamersinu í húsinu hans Steins.

# Fyrri Flockurinn.

## I. Atridi.

Margrét. Hinrik.

(Hafa theedryckju vid bord, og er Margret ad hella á bollana.)

Hinrik. Ertu búin ad hella á bollann handa mér? Margrét mín góð!

Margrét. Já! þarna; (hún fær honum bollann, og hann dreckur). Heyrdu! segdu mér hvad ad honum fødur ockar gódum muni gánga? hann smackadi hvorki vott né þurrt, kastadi utanyfir sig klædunum, og fór sem fljótast burt. Eg baud honum gódann dag ⸗⸗⸗ þú veitst hvad gódur, hýr, ljúfur og rædinn hann er vanur ad vera á medan verid er ad drecka theevatnid, en hann tók ecki undir vid mig. Eg baud honum aptur gódann dag og kyssti á hønd hans, hann tók í høndina á mér, og leit ofur raunalega til mín.

Hinrik. Spurdir þú þá ecki hvørt eckert gengi ad honum, edà hvørt honum þækti nockud fyrir?

Margrét. Já! en hann svaradi ecki nema: „þid fáid, því verr og midur! nógu „snemma ad vita þad."

Hinrik. Æ! honum býr eitthvad þúngt í skapi. Núna í nockrar nætur, þegar eg hefi vaknad, hefi eg heyrt til hans, ad hann hefir dæst, og nærri því snøktad, og einusinni þeg-

ar

ar eckert bar á mér annad enn eg svæfi, heyrdi eg ad hann sagdi: „æ! vesælings børnin mín!"

Margrét. „Æ! vesælings børnin mín!" hvorninn gétur hann aumkad ockur medan vid egum slíkann fodur? en satt er þad, ad lucka ockar væri enn fullkomnari, ef ockar góda módir væri enn á lífi.

Hinrik. Já! en ecki hefir þad núna verid meining hans. Þad er eitthvad, sem honum sjálfum vidkémur. Eitthvad má báglegt hafa uppáfallid fyrir honum, eda vera í vændum, en hann hafa aumkad ockur meir enn sjálfann sig.

Margrét Ef vid kjæmunst ad hvad þad væri, þá kannské vid gætum eitthvad gjørt honum til vilja, linad sorg hans, eda huggad hann.

Hinrik. Vid ‧‧‧ ætli vid gætum þad? ad vera honum hlýdin? ‧‧‧ þad gjørum vid gjarnan, hann lætur ockur verda þad hægt; ad láta vel ad honum? ‧‧‧ þad gjørum vid líka, og hugur ockar skipar ockur þad. Heyrdu! mig er farid ad gruna nockud ‧‧‧ eg hefi tvisvar, eda svo, sjed ad hann hefir fengid bréf, hrist høfudid vid og sagt í hálfum hljódum vid sjálfann sig: „illa fer þad! qvøl er þad! ecki verdur mér aptur neitt úr þessari von!" hvorninn ætlar þú peninga ástand ‧‧‧?

Margrét. Þú vekur vissann þánka upp hjá mér ‧‧‧ þú manst hvad mikid hann misti, þegar hann Jóhgeir gat engum sínum skulda-

heimtu=mønnum borgað; þá sagði hann, þeg=
ar hann frétti það: „einn missir eptir annann!
„haldi því arna fram, hvað ætli þá verði að
„lokunum?“

Hinrik. Eg hefi séð, að nú í nockra daga
hefir svo að segja aldrei verið mannlaust í
skrif=kamersinu hans. Í gjær kom eg snøggvast
þar inn til að sýna honum skriftina mína. Í
því kom þénari inn til hans, sem átti að
heilsa honum frá húsbónda sínum, og spyrja
hvað liði með að borga það, sem þeim á
milli færi? hann faðir minn skipaði mér strax
burtu, þareptir meðan eg var að fara upp
stigann, heyrði eg að eitthvað hátt géck á
milli þeirra.

Margrét. Þú munt géta rétt til! eg hugsa
að hann muni vera í skuld, og géta ecki borgað.

Hinrik. Svo mun vera! en það er eg
viss um hann hefir ei gétað að því gjort.
Hann hefir tapað hjá hinum og þessum, og
nú mun hann ecki hafa svo mikið, sem hann þarf.

Margrét. Æ! taki hann allt af mér, sem
eg á.

Hinrik. Blessuð vertú! hvað ætli það
hrøckvi? varla til að borga með einn saumá=
reikning.

Margrét. Við verðum að bera ockur
að fá hann til að segja ockur það. Æ! með=
an hann er svona sorgbitinn, hefi eg enga
gleði í veroldinni. Þó ecki væri annað þá
gætum við samt að minnsta kosti hafst hlutdeild í
sorg hans með honum.

Hinr=

Hinrik. Já! Gud gæsi vid gætum líka hjálpad honum! en eg skal strax, sem hann kémur, og eg sje ad hann er hnugginn, bera mig ad komast eptir hvad þad er, þángad til hann segir mér hvad ad sér gángi, og þó hann fyrtist vid mig.

Margrét. Hann fadir minn gódur! ... fyrrast? ... þegidu! mér heyrist hann koma upp stigann ... en hvad fljótt hann hleypur! ...

## 2. Atridi.

Margrét. Hinrik. Kristján.

(Kristján kemur úsinn, kastar hattinum og stafnum á bordid, og fleigir ser raunalega í lena-stólinn, en talar ecki ord. Bædi børnin koma hæat og hálf-hrædd til hans. Margret tekur hægri høndina á honum og kyssir, en Hinrik þá vinstri, med hvørri Kristján þó heldur fyrir augun á ser. Hann tekur med henni í hønd hans Hinriks, en lítur raunalega og þegjandi til barnanna.)

Margrét. Hvad hefir uppásallid - fyrir ydur? Fadir minn gódur!

Hinrik. Er ydur nockud íllt? ... æ! talid þér vid ockur!

Margrét. Æ! talid þér vid ockur, Fadir minn gódur! ydar sorg stíngur mig í hjartad!

Hinrik. Eg nærri græt af ángist!

Kristján. Æ! vesælings børnin mín! ég vildi eg þyrfti ecki ad segja yckur þad!

Margrét. Ecki? því ecki? kannské ydur verdi þad til léttirs?

Krist-

Kristján. Æ! stórs ...

Hinrik. En það sýnist á því, sem þér segið, að við verðum að fá að vita það; og óvissan ...

Kristján. Já! víst verðið þið að vita það ... þið skuluð þá vita ... æ! að eg ... að. eg ... er svo gott, sem tapaður frá yckur ... þið mér!

Margrét. Guð minn góður láti það ecki ské!

Hinrik. Hvornínn er það mögulegt, á meðan Guð lætur yður vera lífs?

Kristján. Æ! í hið lengsta að stundu liðinni hér frá ... lengur ecki ... skil eg við yckur ...

Margrét. Þér! að skilja við ockur? við skulum samt ecki skilja við yður.

Hinrik. Æ! hvort ætlið þér að fara að við getum ecki fylgt yður?

Kristján. Í fángelsi! børnin mín!

Margrét. Í fángelsi! æ! Guð minn góður!

Hinrik. Hvørt ætli varni ockur að fylgja yður þángað? ... og þó það væri í dauðann?

Kristján. Eg ... æ! mín elskulega Margrét! minn besti Hinrik! þið einsömul eruð, sem mér svíðið sárt í óláni mínu. Eg skyldi fús og glaður undirkasta mig øllu. En þið eruð núna þau, sem liggið mér þýngst á hjarta, eins og þið híngað til hafið verið mín einasta gleði!

Mar-

Margrét. Æ! nei! æ! nei! vid ætlum ad vera eins eptirleidis! hvorr ætlar ad setja ydur í fángelsi? eg held þér hafid eckert íllt adhafst?

Hinrik. Vid skulum fara, vid skulum falla honum til fóta, hvorsu hardur, sem hann kann ad vera, og kyssa á hønd honum, bidja, tárast og grát-bæna hann! hvors vegna á ad kasta ydur í fángelsi?

Kristján. Þid verdid ad vita þad allt-saman; þared eg veit ecki hvad lángt kann ad lída þángad til, eg fæ ad finna yckur aptur, og eg verd fyrifram ad leggja nidur fyrir yckur hvorninn þid skulud ad fara.

Margrét. Æ! hvada ólucka! Fadir minn gódur! en kannské þér hrædist meir enn...

Hinrik. Æ! víst! þér hafid opt kénnt ockur, ad vonin lætur ecki til skammar verda.

Kristján. Vid skulum ecki heldur sleppa henni aldeilis, þó svo snúist eins og hún nú sé mjøg fjarlæg. Þid skulud þá vita, ad allt hvad eg á, er ecki nóg fyrir skuldunum, sem eg er kominn í. Én hatid samt ecki fodur yckar þess vegna, og bríxlid honum ecki um, ad hann hafi komid yckur í óluckn!

Margrét. Gud minn gódur! vid hata ydur? vid! sem egum ydur allt ad þacka?

Hinrik. Sem vid elskum eins og lífid í ockur!

Kristján. Eg veit þad! stór óláns tilfélli, sem hafa komid hvad eptir annad uppá fyrir mér og skipta-vinum mínum; ofmikid traust til

þeirra, sem kaunske vóru þess ei í allann máta verdugir; von í kaupbondlun minni, sem lík= leg var, en þó bráft; skuldir, sem eg á hjá ødrum … en hvad hjálpar þad, þó eg upp= reiknadi hvørt eitt tilfelli, sem hefir hjálpast ad til ad koma mér í ógjæfuna? en þad, sem nú ríður um allt bak, hlotnast af einum vini mínum … en á hann enn þá þad nafn, þared hann lætur mig sockva í þenna afgrunn? … í stuttu máli: þad er vegna eins, sem eg hefi gengid í borgun fyrir. Fyrir hálfu ári hefdi hann viljad borga skuldina, eg hefi gefid hon= um einn frest eptir annann, og eckert frá hon= um frétt, en nú er sá, sem skuldina átti hjá honum, búinn ad fá dóm yfir mér, ad eg ann= adhvørt skuli strax gjalda hana, eda hann megi setja mig í fángelsi. Enginn vill hér lána mér, allir loka eyrunum þegar eg bid, og í dag á dóminum ad gjørast fullnæaja.

Margrét. Æ! Gud hjálpi mér! en mun ecki madurinn láta sig uppá neinn máta mýk= ja? vid skulum fara …

Hinrik. Já! vid skulum bia, vola og skræk= ja, þángad til hann hlýtur ad vikna.

Kristján. Nei! eg hefi lángsamlega þeckt hann, og veit ad hann er hørd og þver mann= eskja. Eg er búinn ad láta reyna allt! eg hefi bedid hann, nockrir vinir ockar hafa gjort þad líka, en allt er forgéfins! naumast féck eg af honum ad lofa mér, ad fara enn einusinni til ycknr, og þurfa ei ad láta flytja mig opin=

ber=

berlega í fángelsid. Eg vard ad lofa honum uppá æru mína, ad koma aptur innan eins klucku-tíma, til ad láta setja mig fastann, og nú eru einasta fá ord, sem eg þarf ad undirtala vid yckur.

Margrét. Fadir minn gódur! getid þér ecki neinstadar falid ydur?

Hinrik. Ellegar strokid?

Kristján. Hvad? vildud þid ad eg bæri ad mér bondin, og sannadi sjálfur ad eg væri svikari, ellegar ad mér væri lýst eins og landhlaupara? ellegar eg væri hjálparlaus med ángist ad hrekjast úr einum stad í annann? skodi þeir reiknings-bækurnar mínar, og þá mun sjást, ad eg er ærleg manneskja, og kannské ...enn nú séu til þeir ærumenn, sem, þegar þeir fá ad vita, ad eg hefi ecki sjálfur verid skuld í óláni mínu, heldur hraparleg tilfelli, kannské, segi eg, ad hugur þeirra vikni til medlídunar, og þó eg egi bágt, þeir ad minnsta kosti ecki leggist á yckur líka. Þeir sjá hvad lángt þad, sem eg á, hrockur fyrir skuldunum, og taka þad. Gud mun vera yckar fadir!

Margrét. Nei! nei! Fadir minn gódur! vid skiljum ecki vid ydur: þar sem þér erud, þar viljum vid líka vera...

Hinrik. Já! vid viljum lída þad sama med ydur, sem þér lídid; því þér hafid látid ockur hafa eins gott og þér hofdud.

Kristján. Þad tjáir ecki! þid fáid ecki ad koma þángad! yckur yrdi hrundid burt, og

kannské þið yrðuð líka barin, það svíði mér meir enn allt annað og það mundi auka mestu á sorg mína. Þið skuluð og verðið að vera hér! eg vil svo hafa það.

Margrét. Við verðum þá. En⸗⸗⸗

Kristján. Tíminn er naumur. Þeir koma innan skamms að innsigla í skrif⸗kamersinu mínu. Farðu Hinrik, og kallaðu á hann lærimeistara þinn!⸗⸗⸗ æ! hann getur ecki lengi verið það úr þessu! eg ætla að biðja hann að koma hér fyrir til kennslu⸗⸗⸗⸗⸗⸗ farðu!

Hinrik. (í því hann fer burt) Æ! ein ólucka an kémur á fætur annari!

Margrét. Æ! hvað ætli verði úr ockur? Faðir minn góður!⸗⸗⸗

### 3. Atriði.

Kristján. Margrét.

Kristján. Þið verðið að læra að bera mótlætið í veröldinni. Það er satt, að það dynur snemma yfir yckur! en verið þið hug⸗hraust! það færir með sér opt og tíðum þá sæt⸗ustu og bestu ávexti til seinni tímanna. Nock⸗uð verða þeir að ætla yckur til uppheldis og viðurværis, og þó það verði lítið, þá skaðar það ecki. Til að viðhalda lífinu þarf ecki mik⸗ið, en spart uppheldi hjálpar opt til, að geta búið þess betur seinna.

Margrét. Æ! Faðir minn góður! eg vil gjarnan láta mér nægja einsamalt vatn og brauð, til þess þér hafið ei neinn skort. Krist⸗

Kriſtján. Þér er núna (það er þinni góðu móður að þacka ⸗⸗⸗ og Gudi ſé lof, að hún liſdi ei þennann dag) þér er, ſegi eg, núna ſvo farid fram í qvenna handvirdum, að þú þeſs á millum gétur unnid þér nockud inn.

Margrét. Æ! eg vil gjarnann vinna nótt og dag, ef eg á að vinna handa ydur.

Kriſtján. Þeſs vona eg þú munir ei viðþurfa. Gud hefir líka géfid þér góda ſkynſemi, og það, ſem er betra enn allt annad, gott hjarta⸗þel. Þér hefir verid kénnt allt það, ſem kann að leida þig til vitſku og dygda.

Margrét. Æ! það er lángt frá eg ſé ſvo góð, ſem eg ætti að vera.

Kriſtján. Hvorr er ſá, barnid mitt! ſem gétur hróſad ſér af, að hann ſé það? en vertú einaſta gudhrædd, og berdu þig að vera góð, ſvo verdur þú það líka.

Margrét. Já! það ſkal eg, og það vil eg, ſvo lengi, ſem eg liſi.

Kriſtján. Þú ert nú ſenn komin á hættumeſta aldurinn. Þú ert af náttúrunni til vel ſkøpud, og býdur gódann þocka af þér. Vertú ecki ſtollt af því, á ſtolltinu hefir frídleikurinn opt ſkip⸗brot lidid. Vertú heldur fátæk og haldtú ſóma þinum, enn þú látir freiſtnina yfirbuga þig, til að verda rík og mikilsháttar med að tapa ſkirlífinu.

Margrét. Æ! hvorr ætli taki mig undir ſína vernd og varatekt þegar þér erud frá mér? hvorr ráda mér heilt? hvorr hjálpa mér?

eg er svo úng og óreynd! mikið vildi eg mega vera hjá ydur! að vera einsömul hérna í húsinu ‑ ‑ ‑ yfirgéfin og án ydar ‑ ‑ ‑ hvorninn á eg að útstanda það?

Kristján. Þú hvorki skalt vera hér, né gétur það. Þetta hús gétur þar að auk ecki lengi verið ockar. Að sonnu á eg hér marga kunníngja; en eg gét ecki af mér fengið, að trua neinni af þeim, sem eg hér þecki, fyrir þér, svo eg géti treyst henni til að gánga þér í móður stað, þær eru svo opt í samqvæmum, lifa í óhófi ‑ ‑ ‑

Margrét. Æ! hugsið þér eg vilji eða géti það, medan þér værud að líða sorg og neyd, og andvorpudud í fángelsi? enganveginn!

Kristján. Þær mundu líka naumast vilja taka þig, svo það væri að fullu og ollu. Þegar einhvorr verdur fátækur, þá keppist eingin um að fá hann til sín, og eg veit líka það mundi ei lengi bída þángað til adrar qvenns‑niftir færu að ofunda þig ‑ ‑ ‑ svo veit eg einninn, að bágt er að lifa medal þeirra, sem ádur hafa séd fyrri velgengni þess, sem hrapað hefir í armód. Þó þeir séu svo vel þenkjandi, að forakta ocker ecki, þá er samt nidurlægingar‑keimur þar af, að þeir aumka vesælingana, en vidqvæmt hjartalag góðs barns særist eins mikið af því, sem foreldrum þess er annadhvort med réttu eda raungu legið á hálsi fyrir, eins og það ætti sjálft þátt í því.

Mar‑

Margrét. Já! túsinnum meir! miklú heldur vilda eg líða fyrir yður sorg, sótt og sjálfann dauðann, og túsinnum heldur fara í fángelsi, enn að þér þyrftuð að líða það!

Kristján. (faðmar hona að ser) hjartans góða dóttir! æ! það er huggun að eiga slík börn, sem þú ert ... óútsegjanleg lucka ... og hvaða mæða ... fyrir mig, að geta ei gjört þau svo luckuleg eins og þau ega skilið!

Margrét. Og að missa svoddann Föður, sem þér eruð ... hváða huggun getur verið móti því í veroldinni?

Kristján. Að lángtum betri faðir lifir ... en, barnið gott! við verðum að bera okkur, að taka okkur þetta ecki ofnærri. Stoiskugleiki í mótlætinu er líka dygð, og hana vilda eg geta kennt yckur með minni eptirdæmi ... eg kom frá því, sem eg ætlaði að segja þér. Eptir því, sem eg áður sagði, þykir mér ecki vel fara, að þú verðir hér kyrr.

Margrét. Á eg að fara burt frá þeim stað, sem þér eruð í?

Kristján. Já! þú veist að eg á systur átta þíngmanna-leiðum hér frá, hún er eckja og mikil dygða-kona.

Margrét. Ojá! hún foður-systir mín! en Faðir minn góður! hún er sár-fátæk, og þér hafið alltíð híngað til verið að senda henni, hvorninn ætl' hún geti ...?

Kristján. Ecki skaltú qvíða því! þú ert ecki svo fátæk eins og þú hyggur. Þú átt ept-

eptir hana móður þína sælu qvenn-sylgir með gimsteinum, og dýrmætar perlur, sem föður-systir hennar hafdi testamenterad henni. Þá dýrgripi átt þú sjálf ::: (hann fer ad skáp, sem er í veggnum) hérna í skápnum þeim arna eru þeir, í svarta stocknum þeim arna. Þeir eru sex þúsund ríkisdala verdir, og hvörr helst Gimsteina-kaupmadur sem er, gefur þér þad fyrir þá, auk smída-launanna; því smídid er farid ad verda gamaldags.

Margrét. Sex þúsund ríkisdali! ::: en ::: hvornínn á eg ad fara med þá?

Kristján. Eg er búinn ad hugsa fyrir því. Hún systir mín er forstandug, eg er búinn í bréfinu því arna, ad vísa henni á Gimsteina-kaupmann, sem fyrir laungu hefir bodid þetta fyrir þá, og mælst til þeirra. Eg hefi lagt nidur fyrir henni, hvorninn hún skuli setja peníngana út á rentu, og eptir hennar sparsemi, á þeim stad, sem hún á heima, hvar allt er ódýrt, gétid þid ecki einasta lifad, heldur vona eg líka þú gleymir ecki honum bródur þínum, því hann á eckert til.

Margrét. Æ! hann bródir minn! þó ecki ætti eg nema einn bitann, þá skyldi hann fá helmíng af honum ::: ::: En mér dettur annad í hug! gætud þér ecki losad ydur frá þeirri ólucku, sem nú dynur yfir, med þessum gimsteinum og perlum? æ jú! Fadir minn gódur! ::: eg tek ecki vid þeim ::: 

Kristján. Þú hlýtur það að gjöra. Í fyrstu eru þeir þínir að öllu leiti, og eg á ecki hið minnsta í þeim. Hefðu þeir verið keyptir með mínum peníngum, þá skyldi eg, svo sem Guð á mig, hafa látið þá til þeirra, sem skuldir hjá mér eiga, og ecki dregið þá undan.

Margrét. Eg gef yður þá úr því þeir eru mín eign, og þá eru þeir yðar réttfengnir.

Kristján. Nei! því nú ert þú þér sjálf nærst, og þú tekir frá þér það einasta meðal, sem gæti verið þér og honum bróður þínum og henni fóður-systur þinni til hjálpar. Það kynni kannské líka að koma yckur svo á veg, að þið seinna gætuð orðið mér til aðstoðar. Og í annann máta yrði einn skulda-heimtu-maður minn friðstilltur, en hinir mundu ecki þegja fyrir það.

Margrét. Æ! Faðir minn góður og blessaður! - - -

Kristján. Í stuttu máli, eg vil svo hafa það. Skylda og skynsemi útheimta það svo. Barna! taktu við lyklinum, og geymdu hann þángað til hún fóður-systir þín kémur. Eg skrifaði henni til með seinasta posti, að hún skyldi koma, sem allrafyrst mögulegt væri að sækja þig. Þar liggja líka í skúffunni hundrað ríkisdalir í bancó-seðlum, þá skaltu brúka til reisunnar, og annars kostnaðar, sem v.d-þarf - - - biddu hann Hra. Pétur að ráða þér í því, það sem best er. En farðu nú, og

vittú hvort farið er að innsigla, og séu þeir komnir, svo gjörðu mér, þá þénustu, og láttú sækja mér stólborur.

Margrét. (í því hún fer burt) Æ! Guð minn góður!

## 4. Atriði.

Kristján. (einsamall.)

Þetta er þá kaupið, sem eg fæ fyrir allt mitt erfiði og mæðu! má sá ei vera heimskíngi, sem tekur svo nærri sér að lifa í heiminum? og hvað ber hann þá úr býtum? til þess seinast ... að líða skort, qvöl og húngur, gjöra sig og sína ólucküllega! verða foraktaður, forsmáður, og jafnvel álitinn að vera svikari! já, svikari! æ! það er sárt! mín einasta huggun er, að eg er það ecki! hefði eg tekið þá peninga, sem eg féck með henni konu minni sælu, og verið með þá í húsmennsku í einhvorjum litlum kaupstað eða við búhokur á landsbygðinni, lifað á þeim lángt frá veraldar umsvifum, háska og freistíngum, til að verða ríkur, svo hefði eg gétað verið óhultur, og lifað í ró til ellidaga ... (hann þenkir sig nockuð um) en samt, nei! manneskjurnar eru skapaðar til vinnu og atorku ... eg hefi líka komið morgu góðu til vegar, gjort margann luckulegann, og útvegað morgum fátækum atvinnu ... og sá, sem eg nú gjöri ólukkulegann ... er eg einsamall ... ecki börnin mín, því auðæfi gjöra ecki ætíð farsælann, og sú ógæfa, sem hvörein manneskja ei

ei er sjálf sok í, er opt dygda-skóli... en þar kémur hann Herra Pétur. ...

## 5. Atridi.

Kristján. Pétur. Hinrik.

Kristján. (gengur móti honum Petri) Þér munud vera búnir ad heyra bágindi mín? Hra. Pétur!

Pétur. Því midur! hann Hinrik minn hefir sagt mér frá þeim, og mig tekur þad svo sárt...

Kristján. Eg veit, ad þér hafid ætíd verid mér og mínum velviljadur. Æ! mikid á eg ydur ad þacka vegna barnanna minna!

Pétur. Og eg ... eg miklu meir fyrir ydar sérlegu gódvild, elskusemi og vináttu, sem eg hefi notid í ydar húsi. Þad sem eg hefi gjört var skylda, eckert meir enn skylda. ...

Kristján. Nú væri aptur á mót skylda mín ad borga ydur fyrir þad; en, æ! þad er líka ein mesta mædan mín, ad eg gét þad ecki, og verd ad láta þann einsamlann gjöra þad, sem bædi gétur og vill launa þad. Eg vona ad bornin mín...

Pétur. Þau eru med ydni og eptirlátsemi búin vel ad borga mér mína litla fyrirhofn, og munu betur gjöra þad eptirleidis.

Hinrik. (kyssir á høndina á honum) Ojá! þad vil eg og skal gjöra, og eg skal ecki láta mér vera svo annt um nockurn hlut svo sem

að vera ydar verdugur, og verda vænn rétt-skickaður dánumaður.

Kristján. Þess vænti eg mér af þér og þínu hjartalagi. En Pétur minn góður! þér sjáið að svo er nú komið, að eg gét ecki lengur haldið lærimeistara handa syni mínum ‥‥

Hinrik. (tekur í höndina á honum Petri, og þurkar um augun á ser) Æ! minn besti lærimeistari‥‥

Kristján. Þetta svíður mér sárast, mitt elsku-barn! af því eg veit hvað mikils þú tapar við það; en þó þið hljótið að skilja, þá verður hann samt ætíð þinn trúfastur vinur og rádgjafi.

Hinrik. Viljið þér það? lærimeistari minn góður!

Pétur. Svo lengi, sem eg lifi, minn elskulegi litli vin! faðir, vinur, ráðgjafi, allt skal eg vera ‥‥ sem eg gét.

Kristján. Þess átti eg von af ydar dygdagéði. Nú skal eg þá segja ydur hvorninn eg held best sé að fara með hann Hinrik minn. Til Jóns-messu verður hann hjá ydur. Svo lengi vóna eg þér sáið ydar litla kaup úr búi mínu.

Pétur. Og eg segi ydur, að eg skal ecki í heilt ár láta hann frá mér.

Hinrik. Hvað segir minn góði lærimeistari?

Pétur. Eckert annað enn hvað vinátta mín til þín og þinnar luckn ‥‥ og stærsta þackläti við þinn góða föður útheimta, og

það

þad ad eg vil sjálfur lucku mína og á-nægju=== 

Kristján. (umfadmar hann) O! hvada sæla og yndi ad finna slíka vini í mótgánginum! en hvaraf? eg tek viljann fyrir verkid hjá ydur!

Pétur. Sorgid þér eckert fyrir því! góð-vild ydar og sparsemi mín hafa sett mig í stand til ad géta haft nóg handa mér og mín-um litla kjæra Hinrik nærsta ár. Eg ætla ad fá mér litid kamers til leigu, eg á nockra bæklínga skrifada, sem eg hugsa eg géti selt bóksölum, og þared hann sjálfur er viljugur og ydinn, þá vona eg ad géta haft tíd, ad inn-vinna mér svo mikid, sem mér og honum næg-ir===

Kristján. Hætti þér, minn elsku gódi Pétur! annars skendst eg ecki lengur ydar góð-vild. Hún lætur mig vikna meir enn öll mín neyd, og þegar eg hugsa til ad géta aldrei endurgoldid=== (hann þurkar á sér augun og kinn-arnar.)

Pétur. Eg er búinn ad segja ydur þad, ad þad er mér gledi og ánægja, og mér yrdi ecki verra gjört, en ef eg yrdi ad neydast til ad láta frá mér til ókunnugra svo vel artad barn, medan þad er ecki stadfast í gódu, eda nóg undirbúid í þeim frædum, sem þad hef-ir eptir þess aldri gétad nád, því þó þeir, sem því seinna ættu ad kénna, sén ferdugri enn eg, þá géta þeir samt ecki elskad þad eins og eg; kannské líka þá kynni ad vanta tíma og ástund-un til þess. L 3 Hin-

Hinrik. (grætur) Æ! allrakjærasti lærimeistari minn góður! eg vildi eg gæti sagt ydur þá tilfinníngu...

Kristján. (þurkar ser um augun) Beggja ockar tár, barnid mitt gott! segja meir enn allt þad, sem túngan kynni ad tala... eg skal samt segja ydur mína þánka, og hvad eg hafdi tilætlad. Eg hefi sídan fyrir mánudi sjed ógæfu mína. Eg taladi þess vegna vid hann Herra Gódrád. Þér vitid ad hann er vída vel heyrdur og metinn. Hann hefir lofad mér ádur enn misseri væri lidid hér frá, ad koma honum Hinrik mínum á skóla ølmusu. Eg hefi sagt honum ad þér mundud koma til hans, og undirtala þad vid hann, sem þarf.

Pétur. Vel er þad; eg skal tala vid hann, og bidja hann um hjálp ef eg þarf hennar vid; en nú sem stendur...

## 6. Atridi.

Þeir fyrri. Margrét.

Margrét. (grátandi) Æ! Fadir minn gódur!...

Kristján. Vel! eru þeir komnir?... er farid ad innsigla?... ertú búinn ad láta sækja handa mér stólbørurnar?

Margrét. (grátandi) eg er... búin ad... senda... eptir þeim.

Kristján. Svo ætla eg þá ad fara ofaní skrif-stofuna, tala vid þá, sem eru ad innsigla

sigla, og bída eptir stólborunum ⸗⸗⸗ þú grætur barnid gott? berdu þig vel! þó eg falli, þá hefi eg samt góda von um framtídina. Skodadu (hann bendir til hans Hra. Peturs) þessi gódi velþenkjandi madur ætlar ad taka hann Hinrik minn ad sér, og þá ⸗⸗⸗ þá sie eg, ad ydkur bádum børnunum mínum er fyrst um sinn rádstafad, og Gud mun framvegis sjá fyrir ydkur ⸗⸗⸗ verid þér sælir, Pétur minn gódur! (hann qvedur hann og umfadmar) aldrei skal eg gleyma (grátkjokrandi) ydar gædsku og vinsemd.

Hinrik. (tekur um hann fødur sinn) Ætlid þér ad fara frá ockur? Fadir minn gódur! ⸗⸗ nei! nei! eg sleppi ydur ecki, eg skal fara med ydur!

Kristján. Hér tjáir ecki ad standa á móti, barnid gott! eg undirkasta mig þolinmódlega því, sem verdur svo ad vera, og svo hlýtur þú líka ad gjøra. Eg vona vid verdum ecki svo skildir hvorr frá ødrum, ad þú getir ecki endrum og sinnum komid til mín ad finna mig.

Hinrik. Fái eg einasta ad koma til ydar, þá vil eg sjá hvorr mig getur aptur frá ydur skilid!

Kristján. Þad siest allt seinna, Sonur minn!

Margrét. Ætl'eg fái ecki líka ad koma til ydar? Fadir minn gódur!

Kristján. Æ! já! Margrét mín blessud! eg vona hún fødur-systir þín komi til þín ádur enn lángt um lídur! og nú (hann umfadmar hana og qvedur) vertú sæl! ⸗⸗⸗ gleymdu ecki mínum

um lærdómum! prýð þú sál þína meir og meir með dygdunum, þá bædi verdur þú farsæl, og gjörir mig luckulegri, enn ríkidæmi og virdíngar hefdu gétad gjört mig!...

Margrét. Æ! minn gódi... minn besti Fadir! (hún kemur ecki meiru upp fyrir ecka, heldur klútnum fyrir augun, og grúfir med andlitid upp vid stól).

Kristján. (vid Hinrik, sem alltaf heldur ser í handleggiun á honum). Slepptú mér, Hinrik minn! fardu elsku-drengurinn minn! fardu... vertú med ástundun og dygdum ad gódum manni, svo þú gétir dregid mig aptur uppúr eymd minni, og verid kóróna elli minnar med sóma og farsæld! óttastú Gud! og stunda hvad rétt er, svo mun þér vel vegna. Hjálpid þér mér frá honum, Pétur minn gódur! (hann kyssir hann, vindur hann af ser, og fer. Hinrik hleypur á eptir honum, og Petur þar á eptir.)

## 7. Atridi.

Margrét. (einsömul.)

Æ! á eg ecki ad fylgja honum líka? nei! ég ætti ecki stadid á fótunum hvört sem er, og kannské eg líka gjördi minn góda fodur hræddann med því (hún kastar ser grátandi nidur á stól, sem stendur hjá bordi, og stydur hönd undir kinn) mikil óláns sképna er eg! daudinn tók frá mér þá bestu módur... og nú hardar manneskjur þann besta fodur!... gét eg þá eckert ordid honum fodur mínum ad gagni?... hann elur

svo

svo elskulega sinn fyrir mér! hvad? ef eg tæki núna gimsteinana? - - - satt er þad, ad hann, sagdi þá væri ecki neitt eptir handa mér, og honum bródur mínum og henni fødur-systur minni, ockur til lífs uppheldis, og þá fengi einn skulda-heimtarinn sína nægju, en hinir væru samt eptir, þad'er ad skilja, hann væri ecki frí fyrir þad; en máské hann fadir minn gódur hugsi einasta um ockur, og eckert um sjálfann sig? já! svo er þad. Eg þecki hann; hann færi í daudann sjálfann ockar vegna, svo er hann gódur vid ockur - - - svo skal eg þá líka af elskunni til hans voga eitthvad. Hann sagdi, ad nockud yrdu skuldaheimtu-menn hans ad láta ockur fá til naudsynlegasta lífs vidurværis, og - - - en þarna kémur minn gódi Hinrik - - -

## 8. Atridi.

Margrét. Hinrik. (grátandi og er ad vinda høndurnar.)

Margrét Er hann burtu?

Hinrik. Já! því midur! eckert! eckert! Gát slitid mig frá honum. En - - - æ! hann skipadi mér med alvarlegri raust - - - hann bad mig ad bæta ecki á mædu sína - - - - - - hvad átti eg ad gjora? - - - æ! eg vard - - - - - - eg vard ad hlýda!

Margrét. Vid vesælingar! en hvar er hann Hra. Pétur?

 Hin-

Hinrik. Hann gat ecki haldid sér frá ecka og gráti, og fór sem fljótast í kamersid sitt. Hann ætladi ad harka þar af sér, og koma híngad aptur.

Margrét. Sagdi hann fadir ockar þá eckert meir?

Hinrik. Nei! því mennirnir, sem vóru ad innsigla í skrif-kamersinu hans, hindrudu hann, líka vóru stólborurnar komnar. Hann skipadi mér burt, og þegar eg móti vilja mínum for skjálfandi og grátandi, og héldt í hendina á honum Pétri, kalladi hann mig blidlega til sín ádur enn hann fór inní stólborurnar, rétt eins og hann ydradist eptir, ad hann hefdi verid svo hardur vid mig, fadmadi mig med elsku ad sér, runnu þá tárin í lækjum nidureptir kinnunum á honum ofaná mig, sídan skautst hann fljótt inní stolborurnar. Æ! betur þeir færu nú ei illa med hann fodur ockar!

Margrét. Þad er nóg íllt, ad þeir hneppa hann í fángelsi, hvar hann kannské fær lítid ad borda, hefir enga birtu, og fær ecki ad sjá ockur bornin sín, því þad veit eg honum fellur sárast

Hinrik. Já! víst er þad, því hann elskar ockur! o! hvörsu mjög hann elskar ockur! *** svo mikid getum vid aldrei elskad hann aptur.

Margrét. Eg skal segja þér nockud, Hinrik minn gódur! mér synist best vid reynum til, og förum til hans Herra Steins, þó hann fadir ockar hafi bannad ockur þad, follum

um honum til fóta, og bidjum hann þángad til ...

Hinrik. (fellur um háls henni) Ojá! það skulum við! það skulum við! fljótt! elsku systir mín góð!

Margrét. Hann faðir minn hefir að sonnu sagt, að það sé til einkis, hann sé harður maður ...

Hinrik. Og! sé hann harður! hann getur þó aldrei meira gjort enn barið mig, eða lokað mig í fángelsi, og það má hann ef hann vill. Eg þarf ekki að hafa betra enn hann faðir minn góður.

Margrét. Vilji hann ekki neitt heyra, þá veit eg hvað eg skal gjora. Hann á dóttur, eg hefi einusinni sjeð hana í samqvæmi, eg skal grátbæna hana að biðja fyrir mig, og hjálpi það ekki, svo skal eg ... svo skal eg borga fyrir hann foður minn.

Hinrik. Þú að borga? hvar ætlar þú að taka það? ef þú átt peninga, því hefir þú ekki strax sagt honum foður minum það? því fékkstú honum þá ekki strax?

Margrét. Því hann hefir nýlega sagt mér, að eg ætti peninga eður þeirra virði.

Hinrik. Hvorsvegna tók hann ekki þá peninga strax? ... þú munt þó ekki hafa viljað halda þeim fyrir honum?

Margrét. Hvorninn getur þú, Hinrik minn! leidt þér það í hug?

Hinrik. Fyrirgéfðu mér, Margrét mín blessuð! en eg sé hann mun hafa bannað þér þa., eins og hann bannaði mér að fara með sér?

Margrét. O! já!

Hinrik. Hvorsvegna þá? hvorsvegna?

Margrét. Hvorsvegna? ockar vegna; en hans vegna skulum við nú í fyrsta sinni vera óhlýðug.

Hinrik. Eg ætla að fara strax og segja honum lærimeistara mínum frá því.

Margrét. Nei! Hinrik minn góður! fyrir kost og mun gjörðu það ecki; hann kynni að fallast á þær orsakir, sem hann faðir ockar bar fyrir sig, því þú veitst að hann er vanur að samsinna honum í ollu... og þá kynni hann að tala það úr ockur, og kannské ecki sleppa ockur.

Hinrik. Það er satt, sem þú segir: En hvað á eg þá að segja? bæði verð eg að láta hann vita að eg fer burt, og hvort eg ætla að fara.

Margrét. Segðu honum, að mér hafi dottið í hug, hún dóttir hans Herra Steins, að eg sé henni kunnug, og eg viti líka hún egi bróður, og ætlum við að fá þau systkynin til að biðja hann foður þeirra, að sleppa honum foður ockar.

Hinrik. Já! það fer vel, og eru engin ósannindi. Eg ætla líka að finna þenna son hans Herra Steins. Eg hefi að sonnu heyrt hann sé ecki rétt stickanlegur, en hann gétur ecki

meira

meira gjört enn neitad mér um þad, samt skal eg bidja hann, svo vel sem mér er mögulegt.

**Margrét.** Komdu þá aptur til ad fylgjast med mér, eg ætla ecki ad gjöra annad enn láta á mig kápuna. Æ! Gud gæfi vid fengjum hann födur ockar aptur! (Hinrik fer burt)... en eg verd ad taka Gimsteinana med mér (hún fer í kápuna, tekur úr honum lítinn stock, læsir svo aptur) eg skal láta þetta innaní klút, og stínga því í handa-gjörsid mitt (hún gengur burt).

## Annar Flockur.

Gledi-plátsid er skrif-stofa med kaupmanns bókum og bordi, sem hann Hra. Steinn situr vid og er ad skrifa.

### 1. Atridi.

**Steinn.** (talar vid sjálfann sig) Já svo hardt skal eg med hann fara eins og mögulegt er ... fyrstu fjórar vikurnar skal hann ecki fá annad enn vatn og þurrt braud ... ad hafa svona af mér nockur þúsund ríkisdali! ... ... (eptir nockra þögn) satt er ad ecki gat hann garmurinn sá arna vid því gjört ... en ... því var hann svoddan hjárœna ... ad gánga í borgun fyrir annann! já! eg skal finna þig! ... eg er svikinn! hvad vardar mig um hvert hann gat vid því gjört eda ecki? ... straff verdur ad vera ... máské ad einhvörr medaumkunar-fullur einfeldíngur gángi aptur í borgun fyrir hann. Hana þá! þess betur, ef svo væri! ......

(einhvørr ber á dyr) mér heyrist einhvorr berja ad dyrum? (hann fer, lýkur upp, og kallar utúr dyrunum) kom þú inn stúlku=kind!

## 2. Atridi.

Steinn. Margrét.

Steinn. Hvor ertú? hvad viltú=== hana! fljótt! (Margret fer ad gráta, og getur ecki straz komid orti fyrir sig) nú hvor kémur til fólks, ad skjæla sig framan það?

Margrét. Fyrirgéfid þér mér, minn Herra! en fyrin===

Steinn. Hvad vardar mig um sorgina Þína? med hana er ecki verdt ad fara til fólks. Hér er vissulega betl===

Margrét. Æ! mér er svo sárt ad missa Þann elskúlegasta födur===

Steinn. A! kannské þú sért dóttir þess dáfallega Kristjáns, sem hefir prettad mig um fjøgur þúsund rikisdali?

Margrét. Onei! hann fadir minn hefir vissulega ecki prettad ydur.

Steinn Ætli þú vitir það betur enn eg?

Margrét. Þá þeckid þér ecki frómlyndi hans og dánumennsku=== æ! þér vitid ecki hvad gódann fødur þér hafid tekid frá mér, og honum velsælings bródur mínum.

Steinn. A! svo! frómlyndi og dánumennsku! sá, sem gengur í borgun fyrir annann, ad hann skuli gjalda fyrir hann, og géld=

geldur þó ecki, hann er ærulaus svikari þegar hann geldur ecki.

Margrét. Æ! Guð minn góður! og líka þó hann vilji hjartans gjarnan borga en getur ecki?

Steinn. Svo átti hann aldrei að lofa því.

Margrét. Hann hugsaði sér væri það óhætt fyrir hann vin sinn.

Steinn. Það mátti hann ecki hugsa nema hann væri viss um það, annars var hann heimskur, eins og hann faðir þinn, og verður narraður eins og hann faðir þinn.

Margrét. Æ! eg bið yður, tala honum ecki illa til! honum kann að hafa yfirsjest, og það, sem nú er framkomið sýnir, að honum hefir sjest yfir; en...

Steinn. En! en, en,... hvað hjálpar að kýta sig um það tarna! eg læt ecki svoddan stelpu bera það ofaní mig, að eg hafi rángt fyrir mér.

Margrét. Það kémur mér hvörki í hug né hjarta. Nei! eg kem að biðja yður auðmjúklegast um meðlíðun og miskunsemi...

Steinn. Meðlíðun? miskunsemi? að kasta burt fjórum þúsund ríkisdölum, og rentunum að auki úti buskann?

Margrét. Nei! að sleppa honum föður mínum úr fángelsinu, hafa þolinmæði og bíða...

Steinn. Hafa þolinmæði, þángað til fuglinn er floginn útúr búrinu? og fara þá að láta dyrnar aptur? nei! nei! sitji hann kyrr, og þysti og skrækji, svo það sé að marki! Mar-

Margrét. Æ! minn gódi, Hra. Steinn! æ! hvad bágt á hann fadir minn! vid vesælings fodurleysingjar!

Steinn. A! verid þid vesælingar eins og þid viljid. Eg er ecki gódur eptir þad eg er búinn ad vera þad nógu lengi ádur. Ecki er eg skuld í því, ad þid eru vesælingar! sé sá gódur sem vill vera svo gódur ad borga mér!

Margrét. Kannské einhvorr verdi til þess, ef þér einasta sleppid honum fodur minum, og lofid honum ad hafa tíma fyrir sér = = =

Steinn. Eg hefi gefid honum tvisvar frest, og í hvórugt sinn hafa peningarnir verid til, og nú = = = nú er allt úti. Snáfadu burt, og tefdu ecki lengur fyrir mér.

Margrét. Þenkid þér eptir því hvorsu sárt honum vesælings fodur minum muni svída ad verda skilja vid ockur-bornin sín, án huggunar, án adstodar, án vina, án rádgjafa. Hugsid þér eptir ef bornin ydar = = =

Steinn. Ecki annad enn þad? bornin mín! fyrir þeim er eg búin ad sorga! skodadu þarna (hann bendir henni til kistu) hvad sem af mér verdur, þá hafa þau þarna huggarann, sem trúlega heldur í hond med þeim. Hefdi hann fadir yckar farid eins ad, þá hefdud þid nú nóga huggun, og hann sæti ecki fastur þar, sem hann er núna. Og eg væri líka búinn ad fá minn betaling.

Margrét. Æ! þér megid vera vissir um þad, ad hann fadir minn gódur hefir eckert

spar=

sparad til þess, ad eptirláta ockur børnum sinnum audlegd af dygdum, gudhrædslu og gódu uppeldi; en vid erum á þeim aldri, ad vid þurfum á leidarvísir ad halda, ádur enn vid gétum fært ockur þad í nyt. En Gud mun ecki forláta ockur‥‥

Steinn. Hana þá! þess betra fyrir yckur! í stuttu máli: snáfadu burt þinn veg, og komdu ecki svo nærri mér!

Margrét. (ser alltjafnt nær og nær, og seinast tekur í hondina á honum, og fellur á kne) æ! allrabesti Herra Steinn! á mínum knjám‥‥‥ (hann slítur sig frá henni) grátbæni eg‥‥‥ (hann hleypur í kríng í stofunni, og hún eptir honum, hann er altaf ad skrækja Ecki! Ecki! Ecki! en hún heldur áfram med bidjandi raust) hafid þér medlidun! sleppid þér honum fødur mínum, Gud mun æfinlega blessa ydur fyrir þad!‥‥‥ hana þá, viljid þér ecki? svo heyrid þá!

Steinn. (stíngur fíngrunum í eyrun á ser) eg heyri eckert, eg sje eckert, burt! burt!

Margrét. Eg skal borga‥‥ (Steinn hleypur inní kómentu innar af skrif stofunni, og skellir hurdinni í lás) hann er burt! mikid hardar manneskjur eru til í verøldinni! þad hefdi eg aldrei gétad ímindad mér! hann vill ecki heyra ad eg baud mig til ad borga‥‥ eg sé ad hér gét eg engu til vegar komid; eg verd ad fá hana dóttur hans til ad bjóda honum þad.

(hún gengur grátandi burt.)

## 3. Atridi.

Steinn. (er ad smáægiast útúr kómentu byrtunum; þánaad, til hún er burt, og kiemur síðan út)

Eii, hvad hún píndi mig stelpu-krackinn sá arna! heidi, það varad lengur ..., eg veit í sannleika ecki ... mér hitnadi svo um hjarta-ræturnar ... litla greyid ad tarna, var svo hjartnæmt ... hann fadir hennar má vera ecki svo slæmur, úr því hann á svo góda stúlku ... andstygdar krackarnir mínir mundu vissulega ecki svo bidja fyrir hann fødur sinn, ef eins væri ástadt fyrir honum ... eg vildi ad eins, ad annarhvorr ánginn sá hefdi verid vid! mér er sagt, en sýnt ecki, ad þau þacki mér eins vel fyrir það, eg hafna svo miklu handa þeim, eins og hin fyrir það, ad fadir þeirra hleypir sér í skuldir. Já, heidi það ei verid nema fjøgur hundrud, í stadinn fyrir ad það eru fjøgur þúsund ríkisdalir: ...... Eg held eg hefdi vegna þeirrar góðu stúlku ...

## 4. Atridi.

Steinn. Hermann.

Hermann. (flissandi) Hähaha, haha! ...

Steinn. Ná! hvad gengur á fyrir þér? hvad á heimsku-flissid ad tarna?

Hermann. Hahaha! ef þér vissud, Fadir minn gódur! hvørda gaman eg heyrdi!

Steinn. Ná! eg vænti einhvørr hafi gengid á svelli, og dottid á nasirnar?

Hermann. Æ! lángtum hláturlegra.

Steinn.

Steinn. Ná! aldrei vænti eg hann hafi brotid í sér bana-kringluna?

Hermann. Ecki heldur þad, Fadir minn! hvorr haldid þér hafi verid hjá mér?

Steinn. Mikid flón ertú! og þú heldur eg hafi ecki mikid ad gjøra, ad vera ad hugsa úti þad.

Hermann. Þér gétid þó ecki gétid í kell-inn ⸗⸗⸗ hann Hinrik litli ⸗⸗⸗

Steinn. A! á! nú skil eg, og hún systir hans var hjá mér ⸗⸗⸗ þú munt eiga ad bidja mig um ad sleppa honum fødur þeirra? en eg segi þér ⸗⸗⸗

Hermann. O! ecki þurfid þér ad slá var-naglann fyrir þad! ad sønnu vill hann þad: en hahaha! eg á ad bidja ydur, grátbæna ⸗⸗⸗ og eg man minnst af því, sem hann var ad vola framaní mig ⸗⸗⸗ eg á ad bidja ydur, ad taka hann, og láta hann aptur í fángelsid, og géfa honum eckert annad enn vatn og braud, og gjøra vid hann hvad sem þér viljid ⸗⸗⸗ en einasta ad sleppa honum vesælings fødur hans, hahaha!

Steinn. Sýnist þér þad svo hláturlegt? ⸗⸗⸗ hm!

Hermann. Ná! þad var enginn, sem beiddi hann um þad!

Steinn. Svo! þú hugsar þá, ad þó honum fødur þínum væri kastad í fángelsi, hvar eda hvorninn, sem vera vildi, þá mundir þú láta vera ad bjóda þig til ad þola, þad í hans stad?

Hermann. Og nú verd eg að hlæa að ydur, Fadir minn góður! Þér í fángelsi? ecki annað enn það! Þér hafið nóg af peníngum, og svo lengi, sem hvorreinn gétur borgað, er honum ecki kastað í fángelsi.

Steinn. Það veit eg, heimskíngin þinn! en ef eg ætti nú ecki penínga, sem eg er vakinn og sofinn með sveita mínum að draga saman handa yckur, ellegar þjófar kjæmu og stælu frá mér peningunum mínum, ellegar eg gengi í borgun fyrir einhvorn:::

Hermann. Ecki koma þjófarnir, þeir géta ecki náð miklu hérna. Þess vegna er hér stór járn-hurð, járn-stengur fyrir innan gluggana, og stór þrílæst járn-bundin kista::: og að gánga í borgun?::: já! það vænti eg þér gángið í borgun?

Steinn. Mikið heimskulega talar þú! hvorreinn Kaupmaður verdur opt að lána penínga, og hefir opt slæma skuldu-nauta::: sjerdu ecki hvörninn mér géngur núna?::: ef þeir borga mér ecki, sem eg á hjá, þá gæti eg ecki borgað þeim, sem eg er skyldugur, vegna þess eg fengi ecki neitt hjá ødrum, og þeir, sem ættu skuldir hjá mér, séttu mig þess vegna í fángelsi::: þá vænti eg þú mundir láta bída að bjóða þig í fángelsið mín vegna?:::

Hermann. Jh! Fadir minn góður! ecki hefdi eg hleypt mér í þær skuldir.

Steinn. Hefir þá hann Hinrik hleypt sér í skuldirnar hans fødur sins?

Her-

Hermann. Þess vegna er það svo hlát-urlegt! og þar að auki þá eruð þér ecki svo einfaldir, að taka slíkann litinn dreng í stað-inn fyrir fullvaxinn mann.

Steinn. Hér er nú ecki verið að tala um það hvað eg ætla að gjöra, heldur hvað þú mundir gjöra. En ef svo væri að eg léti mér lynda að taka soninn í staðinn fyrir föður hans í fángelsi, ellegar og ef skuldaheimtú-mað-ur minn, sem ætti eins peninga hjá mér, vildi vera ánægður með, að taka þig í staðinn fyr-ir mig; ætli þú mundir gjöra það?

Hermann. Æ! Faðir minn! það er kát-leg spurníng! en hvað þér getið verið nær-gaungulir í að spyrja? ‥‥ hana þá! yður gæti ecki verið það til neins gagns; og hvað ætli þeir vildu gjöra við mig?

Steinn. Það sama, sem eg á að gjöra við hann litla Hinrik, sleppa honum föður þínum, en láta þig vera í fángelsi, og hafa vatn og brauð þángað til hann borgar.

Hermann. En ef faðirinn gæti ecki borg-að, eða vildi ecki?

Steinn. Hann væri þá alla sína lífs-tíð í fángelsi.

Hermann. Ecki vildi eg eiga slíkann föður.

Steinn. Hermann! Hermann! eg sje, að þó hann eigi ecki svo mikla peninga, sem eg, þá á hann þó betri born.

Hermann. Og ef hann ætti meiri pen-ínga, þá væri hann betri faðir.

Steinn. Er drengurinn þar enn?

Hermann. Já! eg vildi ecki heyra hvað hann var að maja, en hann qvaldi mig þángað til, að eg varð að lofa honum, að eg skyldi biðja yður að láta hann ‥‥ (hlæandi) í fángelsi í stadinn hans fødur síns.

Steinn. Þú átt ecki að hlæa að því, mér líkar það ecki! ‥‥ heyrdu! mér þækti gaman að sjá hann, og vita hvað hann hefir til síns máls drengurinn sá arna, því ef hann bidur eins fyrir hann fødur sinn, eins og stelpan hún systir hans, þá gét eg ecki sagt mér mislíki það. Þarna hefir þú tvo skildínga, seadu einhverjum að kaupa koku fyrir þá, og gefá honum; hann verdur að hafa eitthvað fyrir það, að hann elskar svo mikið hann fødur sinn, og láttú hann svo koma híngað á eptir.

Hermann. Og það vænti eg hann vilji borda, Fadir minn gódur! hann er allt of sorgbitinn til þess, því hann hefir ecki gjört annað sídan hann kom, enn vera að gráta. Hann segir: að tár og grátur muni héreptir verða maturinn sinn og hennar systur sinnar. Eg vil ráda ydur, að láta hann ecki koma, því eg veit af því hann naudar á ydur.

Steinn. Farðu! og gjørdu, sem eg segi þér ! ‥‥ eg hefi stadid af mér bædi systurina og fødurinn, og þá vænti eg géti líka stadid af mér drenginn þann arna‥‥

(hann Hermann fér burt.)

## 5. Atridi.

Steinn. (einsamall)

Mèr dettur núna í hug, ad ea gèti ka ms ké brúkad hann fyrir búdar-dreng, piltinn þann arna. Þeir hafa allir verid bófar, sem eg hinaad til hefi haft, en med þennann gæti eg farid eins og eg vil, því þad má vera gódur drengur, sem elskar svo slíkann födur, sem þannig hefir svívirdilega sóad sínu.

## 6. Atridi.

Steinn. Anna.

Anna. (kemur hlaupandi) Hæ! Fadir minn gódur! gaman! gaman!

Steinn. Gaman? gaman? eg er ecki svo kátur; ad eg vilji hafa gaman núna. Eda kannské þad sé annad eins gaman, og hann bródir þinn hafdi.

Anna. Eg kém til ad borga skuldina hans Herra Kristjáns.

Steinn. Skuldina hans Kristjáns? ertú ad ganta hann födur þinn, ellegar hafa hann ad spotti?

Anna. Nei! nei! ... en Fadir minn! eg borga eckert, fyrr enn eg fæ í kaupid annad hvort eyrna-gull eda festi, eda hríng med demant, ellegar rètt fallegar perlur.

Steinn. Er ecki betra þú fáir þad allt saman? allt eda eckert! og þad seinna skaltú fá ... eg átti von á því ad þetta mundi verda fúrr.

átúr. Ertú mig ecki ſtelpa! með ſvoddan ſpaugi hittir þú ecki á réttann ſtad hjá mér.

Anna. Gott og vel! eg fer þá með minn betalíng til baka aptur ⸗⸗⸗ en ſjá ſkulud þér hann ſamt! (hún tekur dýrgripina innanúr klút).

Steinn. Hvad er ad tarna? hvad er það? ⸗⸗⸗ ſýndu mér! (hann ætlar ad grípa það.)

Anna. Nei! nei! eg ſkal ſýna ydur það, (hún lýkur því upp.)

Steinn. (ſkodar þeſſi gerſemi, ſem er feſti, eyrna-gull, hríngir og perlur, hann glennir upp augun, og verdur mikid hýrlegur) hvada óſkop! ⸗⸗⸗ (hann tekur upp eitt eptir annad og ſkodar) er ad tarna frá honum Kriſtjáni? á eg ad fá það í betaling? ⸗⸗⸗ það er meir enn ſjögra þúſund ríkisdala virdi! ⸗⸗⸗ þar hefuni vid ſkelmirinn ⸗⸗⸗ því gat hann ecki ſparad ſér ſvívirdínguna og mér mæduna? ⸗⸗⸗ nú! hann er laus, ſtrax ſkal hann verda laus; ſjái hinir ſkuldaheimt-arar hvar þeir fá nockud, en ⸗⸗⸗

Anna. En þér verdid ad gefa mér eitt hvad af því arna: annars ⸗⸗⸗ annars ydraſt eg þeſs, ad hafa tekid vid því af veſælings barninu.

Steinn. Veſælings barninu? hvada veſælings barni?

Anna. Henni dóttur hans Kriſtjáns.

Steinn. Hefir hún dóttir hans Kriſtjáns fengid þér ad tarna? hún, ſem hérna var nýlega hjá mér?

Anna

Anna. Já! segi eg, já! hún segist ega það, hún hafi erst það, eda henni hafi verid gesid það, eda ... hvad veit eg það. Í stuttu máli ad segja, hún segist med gledi vilja láta það burt, ef hún geti frelsad med því hann fød-ur sinn.

Steinn. Segir hún svo það góda barn?

Anna. Og jæja! já! en, Fadir minn gód-ur! þer verdið endilega, ad gefa mer eitthvad af því! nei! skodid þer hvad vel mer ser hríng-urinn sá arna, ellegar perlurnar!

Steinn. Þá fengi eg ecki minn betaling, ef eg gæfi þer það aptur?

Anna. A! Fadir minn! þá væri mer qvøl...

Steinn. Hvad?... hvad væri þer qvøl? ... ad hann fadir þinn fengi skuld sína?

Anna. Nei! nei! ... ecki svo það ... en ... en ... ef eg fengi ecki ad brúka það sjálf...

Steinn. þú? þú skyldir brúka svoddan skart fyrir sjøgur eda sex þúsund ríkisdali? hvad mætti fólk þenkja um ríkidæmi mitt?... nei! nei! slett og rett er nóg handa svoddan stúlku.

Anna. En, hefdi eg vitad það ... hún sagdi vesælings stúlka, ad þetta væri það ein-asta, sem hún og hann bródir sinn ættu ad lifa af, en hún sagdist heldur vilja deyja útaf vesold fyrir sinn góda fødur, enn vita, ad hann væri ólucku legur ... hefdi eg ecki hugsad, ad nockud mundi drjúpa af steikinni handa mer...

Steinn. A! já! já! dáfallega dóttur-kind! ... eg sje, ef að þú hefðir sVoddan skart, þá mætti hann faðir þinn krókna útaf í fángelsi, hlekkjum og fjötrum eins og verða vildi, því að skartið væri þér eins og kræsíngarnar honum bróður þínum, kjærara enn faðir og móðir! ... handa hvörjum er eg að draga saman? handa hvörjum hefi eg svo mikla og sífelda mæðu?

Anna. Ojá! peníngarnir eru ekki til neins gagns á kistu-botninum, ef eigandinn kaupir ekki nockuð uppá sig fyrir þá.

Steinn. Ellegar etur og dreckur þá upp eins og hann skarpvitri bróðir þinn vill. Eru þá ekki peníngarnir til neins annars? spurðu stúlkuna, sem fékk þér gérsemarnar þær arna, hvað það mundi hjálpa honum föður hennar ef hann hefði núna peninga! er ekki svo? gæti hún þá ekki haldið skartinu sínu?

Anna. En ef hún hefði ekkert skart, til hvörs væru þá peníngarnir?

Steinn. Aldrei fær maður þacklæti hjá slæmum börnum, hvörsu mikið, sem hann dregur saman handa þeim! ... farðu! láttu stúlkuna koma sjálfa híngað ... eg verð að heyra hvörninn stendur á þessum gimsteinum, hvað dýrt hún vill selja þá, og hvað af þeim hún ætlar mér; því eg vil ecki hafa prjóns-virði frammyfir það, sem hann faðir hennar er mér skyldugur. Það væri blóðugt að hafa það af svo góðu barni.

Anna

Anna. Ad minnsta kosti verd eg ad fá sinn hríng af því.

(Lún fer burt).

## 7. Atridi.

Steinn. (einsamall.)

(Eptir ad hann hefir hugsad sig um nockra stund)

Nei! mér sjálfst ecki þetta úr fotum! ::: svodd-an born! ::: sonurinn vill fara í fángelsi fyrir fodurinn ::: dóttirin kémur hi-gad, kastar sér fyrir fætur mér ::: -er ad bjóda þad litid, sem hún á af gvennskarti, og ::: og fyrir hvada fodur þá? þann, sem steyptir þeim í eymd og volædi, hleypir sér í skuldir og géngur í bera-un fyrir svikara. En bornin mín! ::: hvort sem þau líta, sjá þau ecki annad enn alls-nægtir og audæfi ::: og aldrei eru þau rétt þack-lát ::: sonurinn sækist eptir eintómis ydjuleysi, en dóttirin ad slíngra ollu utaná sig.

(Einhvørr lykur upp dyrunum og Margret kémur inn.)

## 8. Atridi.

Steinn. Margrét.

Margrét. Fyrirgéfid þér hæstvirdandi Herra Steinn! :::

Steinn. Hvad? fyrirgéfa? úr því þú ætl-ar ad borga mér. Því sagdir þú mér þad ecki strax ádan, svo hefdir þú verid mér vel-komin, og þá hefdi hann fadir þinn núna verid ordinn laus.

Margrét. Æ! hann fadir minn verid laus! æ hvada lucka! ... en þér vildud þá ecki heyra hvad eg sagdi...

Steinn. Hefdir þú strax í fyrstunni talad um gimsteina og borgun, þá hefdi allt farid ødruvísi, en eg man ecki eg heyrdi annad enn qvein og vol.

Margrét. Satt er þad, í fyrstunni ætl-adi eg ad bera mig ad koma ydur til ad aumk-ast yfir eymd og neyd hans fodur míns, og ockar ólucku, en bera mig ad halda því einasta, sem eg, bródir minn og fátæk fodur-systir, áttum ad hafa ockur til viduruværis.

Steinn. En hann fadir yckar getur aldrei forsvarad þad, ellegar hann er ecki med øllum Kaupmanns mjalla, ad vera svo bláfátækur, og setja peninga í óþarfann þann arna, til ad bera þad skart á børnin sín. Peníngarnir ega alltíd ad vinna hjá Kaupmønnum og ecki vera eitt augnablik kyrrir í handradanum, því einn peníngur á annann ad vinna.

Margrét. Þér hugsid rángt í þessu, minn Herra! Ømmu systir mín testamenteradi henni módur minni sælu, og hún aptur mér þessar gersemar. Eg hefi aldrei vitad neitt af þeim; og enn sídur brúkad þær.

Steinn. Hvorninn þá?

Margrét. Í fyrsta sinn í dag þegar hann fadir minn var svo óluckulegur ... æ! þér vitid hvorninn á því stendur! feck hann mér þær, þegar hann qvaddi ockur ... (hún grætur) eg beiddi

beiddi hann borga þarmed þad, sem þér ætt-
ud hjá honum ...

Steinn. Já! ad vera svo bréttvís.

Margrét. En hann sagdi, þad væru stærstu rángindi, ef hann borgadi skuldir sínar med því, sem væri mín eginleg eign; eg skyldi bera mig ad selja þad (og sagdi hann mér hvørninn eg skyldi fara ad því) og brúka þad mér og bródur mínum og fátækri sødur-systur minni til uppheldis, svo vid þyrftum ecki ad lída mjøg stóra naud.

Steinn. Og nú kémur þú, stúlka mín! med þessar gérsemar, til ad kaupa hann fødur þinn út fyrir þær.

Margrét. Já, Herra Steinn! og eg grátbæni ydur, ad láta ecki bída eitt augnablik, ad veita mér þá gledi.

Steinn. Hvøraf ætlar þú þá ad lifa á eptir, Fadir þinn og bródir?

Margrét. Eg þarf ecki mikid; minn gódi fadir hefir látid kénna mér adskiljanlegar qvenna-hand-ydnir. Eg ætla ad vera ad bædi nótt og dag, og bera mig ad vinna mér nockud inn med því.

Steinn. Sannarlega, eg fell í stafi og allt ad tarna fødur þínum til vilja?

Margrét. Æ! minn Herra Steinn! ætlid þér ad gjøra mér þad til kinnroda, ellegar ad reyna mig ad þér spyrjid svona? gétur nockurt gjørt minna fyrir hann fødur sinn og fyrir svo elskuríkann fødur?

Steinn. Já! en hann fadir yckar gjørir yckur ólucku leg?

Margrét. Erum vid óluckuleg þegar vid sáum hann aptur? hann hefir kénnt ockur, ad vid skulum vera skynsöm, gudhrædd og dyggdug, vera ánægd med litid, vilja heldur hafa fróma fátækt enn ráungfengin audæfi; heldur audmykt og hóffsemi, enn stollt og prjál, og hann hefir géngid undan ockur med sinu eptirdæmi í því øllu.

Steinn. Ei borgadi mér ecki.

Margrét. Æ! elskulegasti Herra Steinn! hann hefdi gjarnan viljad borga hefdi hann gétad. Hafi honum yfirsjest, svo kémur þad af gódmennsku hans, ad hann hefir treyst vel skúum eda hyrdulausum vin.

Steinn. Þú gétur vel mælt fyrir sök þinni::: (hann gengur dálitid frá, og talar vid sjálfan sig) þad veit Gud! aldrei hefir mér boglast svo fyrir brjósti, mér er svo þúngt eins og eg ætli ad gráta::: þad er rétt eins og innvortis sé eitthvad ad hafa á móti mér, ad eg gét ecki med gódri samvitsku tekid gérsemar þær arna.

Margrét. Nú! minn gódi Herra Steinn! kannské ydur þyki þad ecki nóg ad tarna, eg vil gjarnan láta ydur fá allt þad litid, sem eg á í vidbót:::

Steinn. (hann klöcknar og fer út) Hættú barnid mitt!::: eg kém strax aptur.

9. Al-

## 9. Atridi.

Margrét. (einſömul.)

Mér ſÿndiſt hann vikna við og yrði klöck-
ur ꞉꞉꞉ hann taladi við ſjálfann ſig ꞉꞉꞉ og kalladi
mig barnið ſitt ꞉꞉꞉ það er allt einſkisvirði, ef
við einaſta gætum fengið ockar elſkuríka föður
aptur.

## 10. Atridi.

Margrét. Steinn. Hinrik.

Hinrik. (heldur í höndina á honum, og þegar
hann kemur inn, fellur á kne fyrir honum) já! miſk-
unið þér yður yfir ockur, og látið þér ockur
fá hann föður ockar góða aptur! ꞉꞉꞉ (í því hann
ſier ſÿſtur ſína, ſtöckur hann upp) ertú hérna Mar-
grét mín góð! æ! komdu og biddú hann Herra
Stein með mér, að hann láti mig í fángelſi,
í ſtaðinn fyrir hann föður ockar. Hann ſað-
ir, ockar gétur unnið ſér inn nockra peninga
til að borga honum með, en eg eckert.

Margrét. (tekur í hægri höndina á honum
Steini, og grætur ſvo tárin renna niður á höndina)
Ójá bróðir minn! eg vona hann láti hann lauſ-
ann ꞉꞉꞉ er ecki ſvo Herra Steinn? hafið þér
ecki fengið betaling? ꞉꞉꞉ (Steinn lítur á hönd-
ina á ſer; og Margret tekur eptir því) fyrirgéfið
þér Herra Steinn! ꞉꞉꞉ gleði-tár ꞉꞉꞉ vonar-tár,
að þér munið heyra ockar bæn ꞉꞉꞉ eg gat ecki
bundiſt þeirra.

Steinn. Stúlka! ſtúlka! eg vildi þú værir
dóttir mín!

Mar-

Margrét. Oh! ef eg væri það, þá hefði hann faðir minn aldrei komið í fángelsi. Eg skyldi svo lengi hafa verið að grátbæna yður ...

Steinn. Líka fyrir mig, ef eg hefði verið honum foður þínum skyldu ur; og hann hefði viljað kasta mér í fángelsi?

Margrét. Já! líka fyrir yður! fyrir yður skyldum við hafa beðið; hann foður ockar. Yðar góðu born hefðu ecki heldur getað verið án síns elskulega foðurs, heldurenn við án ockar, og aldeilis viss munu þau hafa beðið fyrir ockur.

Steinn. Ecki veit eg til þess; en þau eru ecki heldur nærri svo góð.

Margrét. Það kémur til af því þeirra lucka er svo stór, að mega hálda sínum elskulega foður; að þau géta ecki gétið nærri hvað stór ólucka það væri að missa hann.

Steinn. Hm! ... (hristir hofudið) en, litli piltur! er það rétt alvara þín, að láta setja þig í fángelsi í staðinn fyrir hann foður þinn? ... að vera í fángelsi, og sá ecki neitt annað enn vatn og brauð?

Hinrik. Guð veit það, minn kjærasti Herra Steinn! eg bið um eckert annað.

Margrét. Þess þarf nú ecki lengur, Hinrik minn góður! hann Herra Steinn lætur sér nægja það, sem eg er búin að borga. Er ecki svo? ... (í því kemur Hetmann, og hvíslar einhvorju að honum foður sínum. Herra Steinn ætlar að fara burtu) Æ! farið þér ecki frá ock-ur,

ur fyrr enn þér hafid lofad ockur, ad vid, sem fyrst sáum ad sjá hann fodur vockar aptur.

Hinrik. Já, eg sleppi ydur ecki fyrri! takid þér mig, og látid þér mig fara í fángelsid.

Steinn. Hana slepptú mér! eg skal strax koma aptur (hann fer burt).

## 11. Atridi.

Margrét. Hinrik. Hermann.

Hermann. Nú! hvorninn þykir þér fara, Hinrik minn! vondi madurinn er kominn ad sækja þig, og flytja þig í fángelsid.

Hinrik. Med gledi, ef hann fadir minn er þá laus.

Hermann. Viljid þér ecki fylgjast lika med? jómfrú! annars kynni eg ad bidja hann fodur minn fyrir ydur.

Margrét. Eg hugsa ecki þurfi á því ad halda. Þad er búid ad borga honum fodur ydar.

Hermann. Svo! og þér hafid svo mikla penínga? sá fadir má vera rétt gódur, sem ecki hefir þad hann gæti borgad med fyrir sjálfann sig, en aefur bornunum svo mikid, ad þau géta borgad fyrir hann! þá undrast eg ecki yfir því!

## 12. Atridi.

Þau fyrri. Anna.

Anna. Nú! jómfrú! erud þid fadir minn ordin kaupsátt?

Margrét. Eginlega að tala, held eg eckí hafi þurft mikla framsködu til þess. Hann lét setja hann fødur minn í fángelsi vegna skulda, nú fær hann peníngana sína, og þá sé eg eckí ...

Hermann. A! eg heyri að jómfrúin er búin að borga.

Anna. En það erú þó eckí peníngar samt, og eg varð að hafa mig alla við að tala fyrir því.

Margrét. Ur því þið eruð Kaupmanns børn, svo held eg þið vitið, að peninga virdi er eins gott og peníngar.

## 13. Atriði.

### Þau fyrri. Steinn. Kristján.

(Margret og Hinrik hlaupa bæði í fángið á honum fødur sínum).

Margrét. Faðir minn góður!

Hinrik. Æ! Faðir minn!

Kristján. Børnin mín góð (hann umfaðmar þau.)

Margrét. (hleypur og tekur stockinn með gersemunum, sem stendur þar á borði, og fær honum Steini) Þarna, Herra Steinn! takið þér við! takið þér við! og þúsund, þúsund þackir.

Hinrik. Eg þacka yður auðmjúklega, að þér gefið ockur hann aptur!

Kristján. (við hana Margretu) Hvað er þetta? hvað hefir þú gjort barn?

Margrét. Það ſem ſkylda mín ... það, ſem mín hjartanleg elſka heimtuðu af mér! æ! átti eg að eiga nockurn hlut, ſem eg hefði gétað útvegað með frelſi handa yður, og laumaſt í burt með það, en láta yður ſitja í fángelſi? ... nei! nei! beſti Faðir! minn ſeinaſti blóðdropi ...

Kriſtján. Æ! elſkulegaſta barn! eg þecki þitt áſtríka ypparlega hjartalag, en núna var þetta ecki, að breyta forſjállega og ſkynſamlega.

Margrét. En réttvíslega! fyrirgéfið þér mér, Faðir minn góður! þér hafið géfið mér eptirdæmið. Þér gættuð ecki ſjálfir að yðar velgengni til þeſs að börnin yðar gætu, átt þetta. Gátum við þá minna gjört.

Kriſtján. En, það er þín egin eign! ... Herra Steinn! eg vona þér hafið ſvo mikla tilfinníng, þareð þér egið ſjálfir born, að þér ... lofið þér mér að ſegja yður frá! ...

Steinn. Eg veit það allt, alltſaman veit eg það.

Kriſtján. Hana, hafið þér þá ſvo mikla meðlíðun, og látið þér mig aptur í fángelſið, þángað til eg gét ...

Hinrik. Nei! nei! Faðir minn! hann Herra Steinn ætlar að taka mig fyrir borgunar-mann. Eg ætla að fara í fángelſið fyrir yður; þeſs vegna er eg híngað kominn ...

Kriſtján. Veſælíngur, góði Hinrik! eg tek viljann fyrir verkið. En farðu núna og lærðu nockuð, ſvo gétur þú með tíðinni veitt mér nóga hjálp og huggun.

Steinn. Þegið þið! þegið þið! ··· eg vikna svo við það ··· í sannleika að segja ··· augun fljóta í vatni á mér ··· vissulega Herra Kristján! ··· Þarna! Þarna! elsku stúlkan mín! Þarna eru gersemarnar þínar aptur! þú ert perla, gimsteinn ··· ··· já, meira verð enn allar perlur og gimsteinar í veroldinni.

Margrét. (vill ecki taka á móti) En hann faðir minn ··· ecki fyrr Herra Steinn.

Steinn. Taktú við! taktú við barn! þú gjörir mér á móti ef þú tekur ecki við því ··· ecki skal hann í vegi standa! taktú við segi eg, ef þú vilt ecki eg verði reiður! (hún Anna hnippir í hann föður sinn, og bendir honum með augunum, en hann lítur reiðuglega til hennar.)

Margrét. Eg tek á móti því, og þacka yður; en ecki utan með skilmála···

Kristján. Eg er í yðar valdi, og er fángi.

Steinn. Herra Kristján! vegna yðar góðu barna gef eg yður enn nú frest uppá skuldina yðar í heilt ár.

(Margret og Hinrik hlaupa til hans taka sitt hvorja hønd og kyssa þær)

Margrét. Æ! hærstvirðandi Hra. Steinn! þér gáfuð ockur lifið···

Hinrik. Ockar huggun, ockar vernd, allt ockar aptur! hvorninn egum við nógsamlega að þacka yður!

Kristján. (tekur í høndina á honum Steini innvirðuglega og eginlega) Eg skal finnast þacklátur við yður! eg skal borga yður strax, sem Guð hjálpar mér.

(Steinn.

(Steinn tekur upp klút og þurkar ser um augun, en á medan hlaupa Hermann og Anna til hennar Margretar.)

Anna. Æ! lofid þér mér enn einusinni ad sjá þessa dæileau gimsteina!

(Margret sýnir henni, og á medan hún er stýrulega ad furdast yfir þeim, tekur Margret einn hríng upp úr.)

Margrét. Þarna! Jómfrú! þyggid þér þennann hríng eins og litla endurminníng uppá mitt þacklæti fyrir gædsku hans fodur ydar.

Steinn. Nei! aldeilis ecki! eg ætla ecki ad láta borga mér fyrir þad, sem eg hefi gjört gott.

Anna. Nú! Jómfrúin gaf mér hrínginn, er ecki satt?

Margrét. Já af öllu hjarta.

Anna. Og eg hefi fullann rétt til ad halda því, sem mér hefir verid gefid.

Steinn. A! og líka þegar hann fadir þinn bannar þér þad? nei! aldeilis ecki! skiladu aptur!

Anna. Ecki verdur af því! eg hef hann og ætla ad halda honum.

(Hún hleypur útúr dyrunum, og fadir hennar á eptir.)

Hermann. (talar á medan vid sjálfann sig) Eg hugsadi eg skyldi líka bera mig ad ná nockru; en þad vard ecki úr því, eg skil ecki hvad ad honum fodur mínum er komid núna, hann er ecki vanur ad vera svo orlátur (hann fer burt.)

Steinn. (mætir honum í dyrunum og kemur varla út ordi fyrir mædi) Segdu henni systur þinni

::: hún skuli skila aptur ::: ellegar ::: ellegar það skuli ecki verða gott úr því. Æ! eg varð svo reiður! ::: en segið þér mér Hra. Kristján, hvorninn þér hafið gétað fengið svo góð börn, en eg á svoddann ótætis kracka? eg veit, eg veit úrtoku vel, hvorninn eg skal hefna mín á þeim (hann ser að skrif-borðinu sínu, og er að leita í skjölunum).

Kristján. Má eg tala eins og mér býr í brjósti.

Steinn. Býr í brjósti? já, um hreinlyndi þyki mér vænt.

Kristján. Svo er eg hræddur um þér séuð sjálfir skuld :::

Steinn. (fyrtist og kemur hlaupandi að honum) Hvað? eg skuld í því að bornin mín eru óhlýðin og ofsækanleg? læt eg þau bresta nockuð? er eg ecki að sorga fyrir því bæði nú og eptir dauða minn, að þau aldrei, aldrei þurfi að óttast fyrir fátækt, eins og bornin ydar? hefi eg ró nótt eda dag? og allt gjöri eg það þeirra vegna.

Kristján. Þér megið ecki láta ydur þykja fyrir, Herra Steinn! það er ecki ydar eins ysirsjón, það er morgum ríkum monnum, sem sjest yfir í því; þeir innprenta bornunum strax á únga aldri ofmikla virdíngu fyrir audæfunum, og að meta þau alltof mikils, en adramakt-árídandi hluti oflítils.

Steinn. Hvað þá? gét eg þá ecki útvegað mér allt með ríkidæminu.

Krist-

Kristján. Ecki allt. Ecki eina af öllum þeim dygdum, sem gjöra oss elskuverda í Guds og manna augum, nema audæfin séu brúkud til þess, sem er gott og sómasamlegt. En ef barnanna tilhneigíngum, ástundun og girndum er einasta stýrt til ad safna audæfum, þá uppfyllir sá þánki alla þeirra sálu, ad allt fáist fyrir þau; en hvar á þá elskan til Guds, foreldranna, skylduhnar, dygdanna og alls þess, sem er rétt og sómasamlegt, ad fá rúm?

Steinn. Eg held í sannleika, ad þér hafid rétt fyrir ydur.

Kristján. Þegar börnin eru svo vanin, þá vilja þau ecki lengur hlýda, verda tilfinníngarlaus, hvört ödrum géngur vel edur illa, leita ecki ad dygd og speki nema í peníngakistunni, og þared ágirndin vex sífeldlega, þola þau naumast ad bída þángad til foreldrarnir deyja, vegna þess þau hugsa, ad þá fái þau allt, sem þau eptir óska.

Steinn. Gud minn gódur! þad er dagsanna! börnin mín hafa enga elsku til mín. Stelpan hugsar ecki um annad enn skart, en drengurinn er sólginn í peninga til ad svalla þeim út.

Kristján. Þaraf kémur, ad þared úngfíngum þykir aldrei vænt um peninga sjálfra peninganna vegna, en hafa alltid adrar girndir medfram ágirndinni, þá, þegar þeir fá medölin í hendurnar, eyda þeir þeim öllum til ad sedja þær girndir, verda dublarar, dryckju-

jurútarar, berast heimskulega á, eta upp, svalla og sóa því, sem þeir erfa eptir foreldra sína, og dregið hefir verið saman með mædu og ángist.

Steinn. Það er aldeilis satt, Herra Kristján! eg sje fyrifram hvorninn børnin mín verda að róta í peninga-kistunni minni! stelpan að kaupa allrahanda viðhafnar glíngur, en drengurinn að halda veitslur! þér opnið á mér augun: ea ætla ... já vissulega ætla eg ... æ! eg veit ecki sjálfur eginlega hvað eg ætla, eda hvorninn eg á að því fara, ad eiga ønnur eins born og þér! æ! segið þér mér hvað eg á að gjora, eda hvorninn þér hafið að farið?

Margrét. Kjæri Herra Steinn! þér hafið ofgóða þánka um ockur!

Hinrik. Við hofum lika ockar bresti!

Steinn. Aldrei játa børn mín það!

Kristján. Eg hefi stöðuglega innprentað børnum mínum elsku og virdingu fyrir Guði og yfirvøldunum, kennt þeim að þetta einúngis géti gjort þau farsæl bædi þessa heims og annars; saat þeim, að tían og ríkidæmi sé að svo mikilu leiti gott, sem það sé brúkað til góðs; strax í tíma haldið þeim frá yðjuleysi; vanið þau til hlýðnis; látið kénna þeim allt, sem eg hefi verið umkominn, þeim gat verið til gagns og ánægju, og er eptir þeirra standi; og loksins kappkostað að vera þeim til góðs eptirdæmis í øllu, sem eg eptir breisklejka mínum hefi gétað. Við hvort eitt tækifæri hefi eg sýnt þeim

þeim merki til, að eg elski þau, og þau hafa borgað mér það aptur með því að elska mig.

Steinn. Og eg hefi gjört mikið lítið eða ekkert af öllu þessu. Eg hefi ecki látið þau bresta neitt, og svo hefi eg ecki skipt mér mikið meira af þeim.... En, en, Herra Kristján! það eptirdæmi, sem þér gáfuð þeim með því að gánga í borgun, var það líka skynsamlegt?

Kristján. Kannské það hafi ecki verið nógu varkárnislegt. En samt ydrast eg þess ecki, enn nú þetta augnablik

Steinn. Ydrist þér þess ecki? nú géngur yfir mig! ef eg hefði nú verið fastur á mínum ásetníngi? ellegar börnin ydar ... o! blessuð góðu börnin þau! ...

Kristján. Þegar eg gèck í borgun fyrir vin minn, þá gjörði eg eins og vináttu skyldan í það sinn af mér heimtaði. Hafi vinur minn, eða sá, sem eg í það skipti áleit fyrir vin, ecki haldið sitt loford, eða gétað fullnægt því, þá er öll skuldin og andsvarið hjá honum. ...

Steinn. En straffið og óluckan kémur yfir ydur!

Kristján. Innan skamms álít eg það ecki fyrir neina óluckn. Börnin mín hafa lært þaraf, að þau mega ecki reiða sig á manneskjurnar, ellegar á peninga, því hvört eitt lítið atvik gétur gjört alla vora von og luckn að engu. Þau hafa nú lært að þeckja, hvörsu gott það er, að eiga þann fjársjóð innvortis

hjá sjálfum sér, sem þau geta seinna brúkað sér til nota. Þau hafa verið svo luckuleg, af því þau vóru hjartagóð og elskudu mig, að uppvekja ydar hofdíngs-geð, sem þér hafið audsýnt mér, og ávinna sér ydar hylli. Og frestyrinn, sem þér nú hafið gefið mér, skal eptir því, eg vona, sannfæra ydur um það, að eg er ærlegur.

Steinn. (fer að þurka á sér augun, gengur einn einusinni að skrifborðinu sínu, sækir skjal, og rífur það í sundur, en fær Kristjáni rifrildin) Ó! það eruð þér! ... þarna! ... eg gef ydur upp alla kröfuna! fyrirgefið mér alla þá mæðu, sem eg hefi gjört ydur og ydar góðu börnum (hann grætur)

Kristján. (umfaðmar hann) Nei! nei! eg er ydur allteins skyldugur ... þó þér hafið hastarlega klocknað af þessu, þá kannské þér kynnuð að sjá ydur seinna um hond, en mitt orð er allteins gyldt eins og skjal með undirskrifuðu nafni og signeti. (Kaupmanns þénari kemur inn með bréf.)

Þénarinn. Hérna er bréf til ydar, sem var innaní ødru til hans húsbónda míns, og eg á líka að skila frá honum að þér megið láta sækja peníngana þegar þér viljið.

Steinn. Hvaða peninga? ... en það er vel! (þénarinn fer burt, og Steinn lítur utan á bréfið) Guð minn góður! það er hondin hans Lodvíks! ... það skal eg fljótt lesa! (hann brýtur það upp).

Kristján. Hondin hans Lodvíks?

Steinn. (les.)

„Minn

„Minn Herra!

„Eg hefi farid lángt frá mínu fødurlandi, „og sérlegt ólucku tilfelli, um hvørt eg ætla „med nærsta bréfbera ad skrifa honum Hra. „Kristjáni, skilmerkilega, er orsøk til, ad eg „ecki hefi gétad sendt ydur skuld mína, og ecki „svo mikid, sem ad géta skrifad. Hér fylgir „þá Assignatión (Skuldskeiting) uppá Kaup„mann Didrik med Rentu og Rentu-rentum" og svo framvegis.

(Steinn bljnir á hann Kristján)

Herra Kristján!

Kristján. Þetta var mér mikil gledi, ad hann vinur minn er líka ærlegur madur.

(Margret og Hinrik grípa af føgnudi hønd hans Herra Steins).

Margrét. Oh! mikil gledi er mér þad, ad Gud hefir launad ydur gædsku ydar vid ockur!

Hinrik. Já! mér líka ... og ad þér, Fadir minn gódur! þurfid ecki lengur ad hafa mædu af því arna.

Steinn. (eptir ad hann kiemur til sjálfs sins, og hefir verid svo sem fyrir utan sig) Børn! ...... børn! ... þarna! (hann fær þeim Assignatiónina) hún er yckar! hún skal vera yckar! ... í fyrsta sinni á minni lífstíd finn eg til þess hvada ánægja þad er ... ad gjøra gott gódum manneskjum, og þad hafid þid kennt mér. ... Oh!

 oh!

oh! eg gét ecki komid til sjálfs míns aptur ... (børnin vilja ecki taka á móti, og líta uppá hann födur sinn) straffid þid mig ecki fyrir þad, ad eg var hardur, og neitid mér ecki um ... þessa litlu hugnun! ... æ! hvörsu miklu ríkari erud þér, Herra Kristján! vegna barna ydar enn eg! nú sje eg, ad þad er satt, sem stendur í Frædunum, ad góð børn eru partur af daglegu braudi! verid þér minn vinur!

**Kristján.** Aldrei skal eg gleyma ydar stórmannlega ørlæti!

**Margrét.** Og vid aldrei ockar velgjørdamanni.

## *LVIII.* Opt er flagd undir føgru skinni.

Núshirvan Persa Kóngur, er í søgunum nafnfrægur fyrir réttvísi og gédgædsku. Hann géck einusinni í dular-klædum, kom í dryckjustofu, og sá úngann stridsmanna Yfirbodara er sat afsídis og sýndist sorgbitinn. Kóngurinn gaf sig á tal vid hann, fann ad hann var skir og greindur, og spurdi loksins af hvørju hann væri svo stúrinn. Hinn úngi madur þagdi um hríd, hugsadi sig um, og loksins svaradi: vid høfum ecki sjest fyrr enn nú, en svipur þinn og gódmennska opna á mér munn og hjarta, eg skal því segja þér allt hvørninn ástadt er fyrir mér. Eg vildi eiga eina stúlku, sem var frídleikurinn sjálfur, annar úngur madur bidladi líka til hennar med mér, hann var frídari enn eg, en þó mér sé skyldt málid,

gét

gét eg samt med sanni sagt; ad mitt hjartalag var betra enn hans. Hún var sér sjálf rádandi, hugsadi sig lengi um, leksins játadist hún mér; brúdkaups-dagurinn var tilsettur, og eg áleit mig fyrir þann luckulegasta, rétt í því ad eg og adrir vóru kalladir til stríds. Eg og medbidill minn vórum hvorr hjá ödrum í bardaganum, þar sem hardast var, hann fúdi fyrstur manna, og nockrir af nágrönnum hans, sídan fleiri og fleiri, og þá vóru nærri hundrad manns hraktir til baka, þegar eg og fjórir adrir brutustum fram í skardid, hughreystum þá, sem farnir vóru ad hroklast undan, og bædi med upporfunum og ockar egin dæmi komum öllu í lag, svo sídan féckst fullkominn sigur. Í þessum sviftum féck eg stórt sár á höfudid, eins og þér sjáid af orinu því arna í enninu á mér, eg datt tilfinníngarlaus til jardar, en lagsmenn minir hjálpúdu mér, svo eg héldt lífinu.

Vid komum heim aptur. Mikils umþegnugir vinir hans med-bidils míns gátu hindrad, ad hann féck ei sitt forþénta straff; fullur af gledi flýtti eg mér til ad umfadma unnustu mína; en orid gjördi mig ljótann í hennar augum, mig foraktadi hún, en móti hinum nídíngnum tók hún med ást og gledi. Þad svídur mér mest, ad hún skyldi svo med mig fara, fyrir hvörja eg hefdi viljad gefa mitt líf þúsundsinnum, og hún skyldi þá velja svoddan nídíng fram yfir mig.

Þess skal he'nt verda, sagdi Núshirvan, stód hastarlega upp, og enn úngi madur rak uppá hann augun segjandi: hvorninn? hvad? hvorr er ⸗⸗⸗ eg er Nushirvan! hvad heitir þú? ⸗⸗⸗ Ali.

Hafir þú sagt satt, þá kom þú til mín innan eyktar, og sjáum hvad þá verdur.

Þessi úngi madur var viss um málstad sinn, mætti á tilsettum tíma, og sá nídínginn og svika-tóuna bædi knékrjúpandi fyrir Núshirvans hásæti; en Kóngurinn lét eins og hann tæki ecki eptir honum.

Eg lét kalla á þig, stúlka mín! sagdi Kóngurinn. Hann fadir þinn þjónadi mér med trú og dygd medan hann lifdi, og mér var vel vid hann. Eg hefi komist ad því, ad hugir yckar, mannsins, sem þarna liggur á knjám hjá þér, og þinn, standi saman. Ef þú elskar hann sannarlega, svo segdu mér það hátt, og réttu ad honum höndina, ad þú viljir verda hans ekta-kona, því eg ætla ad halda veitslu í dag hvort heldur er.

Besti Kóngur! ⸗⸗⸗

Sleppum öllu hrósi! þú veitst ecki enn, hvorju þú þarft ad hrósa! svaradu mér einlæglega! elskar þú þennann mann?

Já!

Elskar þú engann nema hann?

Nei! aldeilis engann.

Hefir þá enginn betri eda verdugri bedid þín?

Marg⸗

Margir hafa bedid mín, og margir rétt-vænir ‥‥ en enginn betri og verdugri enn þessi.

Hana þá! farid þid og giptist þid strax. Einn af Hird-prestum mínum skal gefa yckur saman, og þegar þad er búid, þá leidid þid þau hingad aptur.

Þau vóru leidd burt.

Núshirvan var rjódur í andlitinu, yfir hvorju allir undrudust, er þecktu hann ‥‥ Hann litadist um med alvarlegu tilliti, þeckti Alí í mannfjöldanum kríngum hásætid, og bendti honum ad hann skyldi koma nær.

Undrastu yfir þessu, sem þú hefir heyrt og sjed?

Onei! þó ecki geti eg skilid hvad Þér ætlid fyrir Ydur med því, Herra! en eg veit þad muni verda skynsamlegt og réttvíst, þared þad kémur frá Ydur.

Heldur þú þad? ‥‥ kannské! stattu þarna kyrr!

Skömmu eptir komu ný-giptu hjónin. Brúdurinnar andlit var hýrt og glansandi af gledi, og þau köstudu sér á kné fyrir hásætinu, til ad útausa þeirra þacklæti.

Sparid yckar þacklæti, sagdi Kónungurinn (og leyndi þá ecki lengur reidi sinni.) Líttu upp, kona! og taladu! þeckir þú manninn þann arna?

Hún bliknadi upp eins og nár og svaradi: já! Herra! þad er hann Alí sonur nábúa míns.

Beiddi

Beiddi hann þín ecki einusinni? varstú ecki búin ad játa honum þinni hond og trygd?

Jú! eg gjørdi þad ‥‥ en ‥‥

Því héldst þú þá ecki þitt loford?

Vegna þess ‥‥ vegna þess ‥‥

A! ókindin þín! af því hann var betri madur, trúrri þegn, hugadri strídsmadur, heldurenn dádlausi qvenn-væflulegi stroku- og meinsæris-madurinn sá arna! vegna þess ad skrámuan, sem strídshetjum er sú stærsta æra, var til lýta á enninu á honum ‥‥ gott og vel! þú ert búin ad velja hinn, þú skalt líka ega hann! yckar band sé óuppleysanlegt! eg gaf þér tíd og tækifæri ad sjá þig um hond; gjordu þad þá nú! ‥‥ þér þókti æru-skráman ljót á enni mannsefnis þíns, þad er þá best ad reyna hvort smánar-erid fer bónda þínum betur! ‥‥ farid þid strax burt med nídinginn, sem strauk burt úr bardaganum, rugladi fylkingunni, og af bleyduskap var nærri búinn ad steypa fødurlandinu í fordjorfun! ‥‥ hann skal brennimerkjast á ennid med drottins-svikamarki, sídan skal færa þau bædi til hjóna-rúmsins, og á morgun skal leida þessi heidurs-hjón gégnum oll stadarins stræti, og láta úthrópa med hárri roddu fyrir þeim: svona á hvør sú stúlka ad straffast, sem forsmáir æru-manninn, er vantar þad, sem útvortis med honum mæli, en giptist nídingnum af því hann er frídur, eda útvortis álitlegur.

Grát-

Grátandi og hálf-daudur kastadi veslíngs-urinn sér nidur fyrir Köngsins fætur, titrandi bad hann um vægd. Alí bad um nád fyrir bædi hjónin, en Núshirvan bendti sínum Þén-urum, og dóminum var fullnægja gjörd.

Þessi strángi Dómari sneri sér sídan nád-uglega til Alí. Þú átt, sagdi hann, skilid ad fá betri konu enn þá, sem þú mistir. Vel þér hvörja, sem þú vilt af mínum Hirdmey-jum! og þú skalt fá þad fyrsta Léns-herra dæmi, sem losnar, til launa fyrir hreysti þína og trúmennsku.

## LIX. Gátur.

41.) Sópur. 42.) Vax. 43.) Süd. 44.) Sól-in. 45.) Ljósa-fox edur Kola.

46.) Eg verd aldrei eldri enn 12 mánada, þó sýni eg tímann í öllum hans ásýndum, bædi barn, úngling, fullordinn og gamal-menni.

47.) Bóndinn fáir því, jördin ber þad, því er dreckt, þad er steikt, þad er brotid, vef-arinn fær þád, allir brúka þad, mylnu-madurinn tekur þad, allir fá þád aptur, þá er þád vid lýdi, ellegar eydist, enginn veit hvar? eda hvörninn?

48.) Eg er ekki annad enn munnur og eyra, og gjöri þér kunna ótal hluti, sem skéd hafa, og enn nú vid bera, þó hefir þú aldrei séd mig.

49.) Eg er ecki aññad enn magur hryggur, sem hvorki hefi hold né bein, og þó verd eg ad bera hold og bein, og pressa hold og bein.

50.) Jordin gaf mér líf, eg óx upp ár frá ári, járnid vard mér ad bana, vatnid ad líkbørum, en eldurinn grof.

## Sunnudaginn, 14 Decembr.

### *LX.* Blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, daudir upprísa og ángrudum bodast ad Kristur sé kominn. Matth. 11, 5.

Gud er vor gódur fadir, bædi ad því leiti, sem hann hefir veitt oss andlegá og líkamlega velgjorníngа í skopuninni, og líka þegar vér hofdum mist þá eptir syndafallid, vard hann ad nýju vor velgjorda fadir med ad senda oss sinn Son. Pad kenniteikn átti þessvegna vel vid, sem Esajas fyrirspádi, og Jesús med ádurtédum ordum í Gudspjallinu bendir Jóhanni Skírara til, hvaraf hann skuli vissulega þeckja ad Kristur sé í heiminn kominn, nefnilega: ad þessi Drottins Smurdi væri ad útbýta hér ad ofan nefndum Guds velgjorníngum. Ut af þessu efni spurdi eg í qvøld born mín, og sagdi: manstú, Magnús litli! til nockurrar ritníngar-greinar í hvorri Gud er kalladur réttur Fadir? Magn-

Magnús. Þad mun vera Ephes. 3, 15. „Sá sem réttur fadir er yfir allt hvad børn „kallast bædi á himni og jordu." *)

Prestur. Já! lætur Gud þá áfannast ad hann sé allra fadir?



*) Þessi grein finnst ýmislega útløgd í vorum íslendsku nýju Testamentum. Oddur Løgmadur Gottskálksson og Biskup Gudbrandur Þorláksson í Bibliunni hafa þad svo: „Sá „sem rettur fadir er yfir allt hvad fadir kallast „á himnum og á jørdu." Nýja Testamentid prentad 1609, útleggur þad: „Af hvørjum allt „faderni hefir nafn á himnum og á jørdu." Þorláks Biskups útleggíng er sú, sem her ad ofan stendur skrifud. Biskups Mag. Steins Jónssonar Biblía hefir: „Af hvørjum allt „faderni kallast á himnum og jørdu." Vorar nýju Presta handbækur: „Af hvørjum ad er allt „þad, sem børn kallast á himnum og jørdu." En þared gríska ordid patria þýdir kynqvísl, sem af einum stofni er í fyrstu komin, og nýja Testamentid allvída tekur þad eptir Hebreskum ad segja hluturinn nefnist, þad sem þó er meiníngin, ad hann í raun og rettri veru se; og himin og jørd nefnist opt í Bibliunni fyrir alla skapada hluti, edur og allann heiminn, þá mundi ei sú útlegging verda raung þó sagt væri: af hvørjum allar kynqvíslir í øllum heiminum eru. Ordid rettur finnst ecki í Høfudtextanum á þessum stad.

Magnús. Það finnum vér og reynum sífeldlega.

Prestur. En hefir Guð þá foðurlegt hjartalag til hinna vondu?

Magnús. Já! Lúc. 6, 35. „hann er „góðfús við óþakkláta og vonda."

Prestur. Lýður litli! við hvorja er Guð góður?

Lýður. Við alla, bæði góða og vonda.

Prestur. Er hann þá jafngóðfús við alla?

Lýður Þeir góðu, guðhræddu og þakklátu mega vænta meira góðs af honum enn hinir vondu.

Prestur. Guðmundur! er það þá ecki meira, enn að vér megum vænta góðs af Gudi?

Guðmundur. Hann gëfur ofs líka gott.

Prestur. Hvað opt?

Guðmundur. Alltíð og sífeldlega.

Prestur. Gëtur hann það líka alltíð? svara þú, Magnús!

Magnús. Þegar vér ecki siálfir hindrum hann, þá bæði gëtur hann og vill gjöra ofs gott.

Prestur. Veit hann líka uppá hvorn máta best fer að hjálpa ofs?

Magnús. Já! því hann veit og þeckir allt.

Prestur. Segðu mér nú, hvorr þér er betri faðir, eg eða Guð? ef þú ættir um annhvorn að velja, hvorn ætlar þú að þú mundir kjósa þér?

Magnús-

Magnús. Gud, því minn líkamlegi fadir gétur hvørki hjálpad mér í svo mørgu, eda svo mikid eda sífeldlega, eda svo lengi sem Gud.

Prestur. Seg þú mér, Kristrún mín! hvørninn Jesús hefir kennt oss ad þeckja Gud?

Kristrún. Eins og hann sé vor fadir.

Prestur. Er Gud þá í raun og sannleika vor fadir?

Kristrún. Já! því hann vill oss allt gott eins og fadir, hann géfur oss allt gott, sem vér medþurfum, og géfur oss þad sífeldlega.

Prestur. Hvad gott hefir Gud géfid þér?

Kristrún. Margt og mikid.

Prestur. Hvad er, Gudmundur litli! þad hellsta, sem Gud hefir géfid þér?

Gudmundur. Lífs uppheldi ‚‚‚ heilbrygdi ‚‚‚ sál.

Prestur. Já! já! mikilsverdt er þad. Hvad gott höfum vér af sálunni?

Gudmundur. Hún gjörir ad vér erum lifandi.

Prestur. Hvad er þá þad heldsta góda af því, sem þú nefndir?

Gudmundur. Lífid.

Prestur. Hefir Gud géfid oss lífid? Lýdur litli!

Lýdur. Já! enginn gat géfid oss þad nema hann.

Prestur. Hvørsvegna er lífid þad besta?

Lýdur. Því ef vér hefdum þad ecki, þá gætum vér eckert gjort.

Prestur. Gætum vér haft nockra gledi ef ecki væri lífid?

Lýdur. Nei! því þá gætum vér hvorki heyrt né síed, gengid eda talad.

Prestur. Hvorr er þá grundvollur til allrar tímanlegrar og eilífrar luckn?

Lýdur. Eg hugsa þad sé lífid.

Prestur. Er þad þá sú besta giøf?

Lýdur. Já! og í gudspjallinu telst med Kristís velgjörníngum: daudir upprísa.

Prestur. En er þad þá sú einasta giøf? Magnús!

Magnús. Nei! heilbrygdin.

Prestur. Er hún þá svo mikilsverd?

Magnús. Já! næst lífinu er heilbrygdin mest verd af tímanlegum hlutum.

Prestur. Hvad mikils mundi mega virda einnrar-einustu manneskju heilbrygdi? hundrad hundrada? . . . eda þúsundsinnum hundrad hundrada?

Magnús. Þad er ecki møgulegt ad virda hana. Hún gétur ecki borgast med neinum peníngum.

Prestur. En ef einhvørr hefdi nóg af øllu, og meir enn nóg, en væri heilsulaus?

Magnús. Hann hefdi samt eckert gott af því.

Prestur. Gudmundur litli! hvorjum eg' um vér heilbrygdina ad þacka?

Gudmundur. Gudi. Og hér var líka þess minnst í gudspjallinu: líkþráir hreinsast.

Prest-

Prestur. En alla líkamans og sálar krapta?

Gudmundur. Gudi líka.

Prestur. Eru þeir þá mikils verdir? t. d. ad géta fundid til og skynjad?

Gudmundur. Já!

Prestur. Hvad er þad þá ad skynja?

Gudmundur. Ad þeckja og reyna med skilníngarvitunum.

Prestur. Hvad kallast þad, sem kémur því til leidar?

Gudmundr. Tilfinníngar-kraptur.

Prestur. Hvorjum egum vér hann ad þacka?

Gudmundur. Gudi.

Prestur. Er sá kraptur svo gódur? t. d. sjónin? svara þú, Kristrún!

Kristrún. Já! og hennar er gétid líka í gudspjallinu: blindir fá sýn.

Prestur. Hvad mikils ætlar þú hún sé verd? eins og þúsund ríkisdalir?

Kristrún. Miklu, miklu meira, því þeir peníngar gætu ecki hjálpad mér ef eg væri sjónlaus.

Prestur. Gétur sá, sem er blindur, verid sér og ødrum eins til gagns, og haft eins mikla ánægju, eins og sá, sem hefir sjónina?

Kristrún. Nei! sjónin er betri enn allir peníngar.

Prestur. Hvad mikla peninga heldur þú, Lýdur minn! þú vildir hafa, ef einhvorr vildi kaupa af þér heyrnina?

Lýdur. Eg vildi heldur heyrnina enn alla peninga. Í gudspjallinu er líka til þess tekid, svo sem stórs velgjörníngs, ad daufir fengu af Jesú heyrnina.

Prestur. En hvad marga fyrir luktan, smeck og tilfinníngu?

Lýdur. Eg held eg gæti helst verid án luktarinnar; en heldur vildi eg hafa öll mín 5 skilníngarvit, enn alla peninga, sem til eru, þó eg ætti ádur eckert af þeim.

Prestur. Hvörjum egum vér allt þetta ad þacka?

Lýdur. Gudi.

Prestur. Þad er þá bædi margt og mikid, sem vér egum Gudi ad þacka?

Lýdur. Já! margt og mikid!

Prestur. En seg þú mér, Magnús minn! þetta var einasti einn sálar-kraptur; höfum vid ecki fleiri? manstú ecki líka þad, sem þú hefir lesid, séd, heyrt, gjört, o. s. fr.?

Magnús. Jú! vér höfum **minni**.

Prestur. Þad mun vera mikils verdt?

Magnús. Já.

Prestur. Ímindadu þér þá manneskju, sem væri minnis-laus!

Magnús. Þad væri sú aumasta manneskja.

Prestur. Gæti hún verid skynsöm?

Magnús. Nei! því hún myndi eckert.

Prestur. Gæti hún lært nockud?

Magnús. Nei! hún væri sáraum manneskja. Þegar einhvörr beiddi hana ad gjöra

eitt-

eitthvað, ætla sér eitthvað, senda hana frá sér til einhvers, þá gleymdi hún því strax. Hún vissi ecki svo mikið, sem hvörnum ætt að komast útúr túninu eða húsinu. Hún þeckti ecki aptur kúna frá kéttinum.

Prestur. Hvað mikið heldur þú, Guðmundur litli! að þú vildir selja minnið fyrir, ef þú ættir að vera skaðlaus?

Guðmundur. Sú Guðs gáfa er meira verð enn allir peningar.

Prestur. Er það þá satt, sem margur segir um fátæka: Guð hefir lítið ljent honum?

Guðmundur. Onei! þeir hafa þegið af Guði það, sem er miklu betra enn auðæfi, sem er líf og heilbrygði og margt a n n a ð g o t t.

Prestur. Finnst það líka í Biblíunni að allt gott, sem vér hofum, sé frá Guði?

Guðmundur Já „Jac. 1, 17. öll góð „og öll fullkomin gjöf kémur að ofan frá „ljósanna foður, hjá hvorjum hvörki er um„breyting né skuggi af umskiptum."

Prestur. Hvað lærum vér af þeirri ritningar grein? Kristrún?

Kristrún. Að vér egum Guði allt gott að þacka.

Prestur. Er það góða þá litið?

Kristrún. Nei! það er mikið, það mun reynast mikið, þegar vér hugsum úti það

Prestur. Hofum vér þá, Thóur litli! rétt í því, að kalla Guð v o r n f ø ð u r?

Lýdur. Já.

Prestur. Lætur sá, sem er gódur fadir sér nægja med ad gefa börnunum?

Lýdur. Nei! hann gjörir þeim fleira gott.

Prestur. Hvad gjörir hann þá meir? kannske hann kenni þeim lika?

Lýdur. Já! hann segir þeim hvad þeim sé gott eda skadlegt.

Prestur. Hann gjörir þá meira enn ad gefa þeim mat og dryck?

Lýdur. Já!

Prestur. Getur þú, Magnús minn! sagt mér ritníngargrein uppá, ad Gud gefi oss lika mat og dryck?

Magnús. Já! „1 Pét. 5, 7. kastid allri „ydar áhyggju uppá hann, hann ber um- „hyggju fyrir ydur."

Prestur. Hvor er meiníngin í því?

Magnús. Þegar vér berum oss eptir eins og hann hefir skipad, þá megum vér treysta því, ad vér fáum nóg til vors naudsynlegs lifs uppheldis.

Prestur. Hefir hvöreinn gódur fadir lika umhyggju fyrir uppfrædíngu barna sinna?

Magnús. Já! eins og gódur fadir sjer hann fyrir því, ad þau læri þad, sem er gott og nytsamlegt, svo þau verdi vel sidud og skynsöm.

Prestur. Finnur þú þad í ritníngunni?

Magnús. „Esa. 48, 17. svo segir Drott- „inn þinn Lausnari, sá heilagi í Israel: eg „er

„er Drottinn þinn Gud, sem kénni þér þad „sem þér er nytsamlegt, og leidi þig á þá „gotu, sem þú átt ad gánga. Æ! ad þú „vildir hlyda því, sem eg segi þér, þá mundir þú farsæll verda!"

Prestur. Seg þú mér, Gudmundur minn! hvad vér lærum af þessari ritníngar-grein?

Gudmundur. Ad Gud kénni oss allt þad, sem oss er nytsamlegt.

Prestur. Til hvors gjörir hann þad?

Gudmundur. Svo ad manneskjurnar verdi farsælar.

Prestur. Gétur þú sagt mér þad med ødrum ordum?

Gudmundur. Svo þeim lídi sífeldlega vel.

Prestur. Seg þú mér, Kristrún mín! hvorn hefir Gud sérílagi sendt, sem fremur ødrum hefir kénnt oss.

Kristrún. Jesúm Krist, og þad nefnist hér í gudspjallinu: ángrudum bodast ad Kristur sé kominn.

Prestur. Já! børnin mín! hann hefir best kénnt oss ad þeckja Gud. Hann hefir kénnt oss hvad Gud vill vér skulum gjøra, og hvad Gud ætli sér med oss. Hann hefir kénnt oss, hvörninn vér egum Gudi ad þócknast, svo hann aptur á mót elski oss. En--- sorgar gódur likamlegur fadir ecki þar ad auk fyrir því, ad børnin hafi not af uppfrædíngunni?

Kristrún. Já!

Prestur. Gjørir þá Gud eins vid oss?

Kristrún. Já! hann ber í allann máta umhygaju fyrir vorri velferd.

Prestur. Lætur gódur líkamlegur fadir sér nægja med ad kénna börnunum hvorninn þau ega ad breyta, hefir hann ecki líka gætur á hvørninn þeim ferst ad?

Kristrún. Já! hann gætir ad því, og passar uppá þad.

Prestur. Gjörir þá Gud eins vid oss?

Kristrún. Já.

Prestur. Getur þú, Magnús litli! sagt mér nockra ritningar-grein, sem hljódi uppá þad?

Magnús. Já! „Psálm. 139, 1. Drott„inn þú rannsakar og þeckir mig!" og aptur seinna v. 23. 14. "rannsaka þú mig, Gud! og „reyn mitt hjarta hvørninn eg er sinnadur, sjá „þú hvort eg er á vondum vegi, og leid mig „á þann eilífa veg. (*)"

Prestur. Hvad merkir þad ad rannsaka nockurn?

Magnús. Ad komast eptir hvørninn hann hegdi sér.

Prestur. Getur manneskjan gjört edur hugsad nockud, sem Gud veit ecki?

Magnús. Nei! því í sama Psálms 2 versi stendur: „hvort, sem eg sit eda stend „þá

(*) Meiníngin í seinustu ordunum er: sjá þú hvørt eg er á raungum vegi, og leid mig á þann veg, sem liggur til eilífrar (sælu).

„þá veitstú þad; þú þeckir mínar hugrenníngs-„ar álengdar.“

Prestur. Enn hvad þýdir þad, sem kémur strax á eptir í 3ia versinu: „hvort, sem eg „geng edur ligg, þá ertú í kríngum mig (*) og sier alla mína vegu?“

Magnús. Þú ert ætíd mitt vitni, þú sierd allt þad, sem eg hefst ad.

Prestur. Seig þú mér, Lýdur litli! getur nockurr líkamlegur fadir verid eins vitni til þess hvad öll börn hans hafast ad, eins og Gud?

Lýdur. Nei; enginn líkamlegur fadir getur sifelldlega verid hjá börnum sínum, og allrasíst vitad þeirra þánka.

Prestur. Þá skilst mér, ad Gud hafi enn meiri tilsjón med börnum sínum enn nockur manneskja?

Lýdur. Já! hann veit líka allt, sem þau vilja gjöra, þó ecki verdi af því.

Prestur. Hvad gjörir gódur líkamlegur fadir, þegar barnid dettur og meidir sig, eda því verdur eitthvad á? svara þú, Gudmundur!

Gudmundur. Hann lætur græda þad, eda fær því í hendur medöl til ad koma því í stand, sem úr lagi hefir farid.

Prestur. Gjörir Gud eins vid oss?



(*) Lærdir menn hafa fært sönnur á, ad ordid: „vera í kríngum einhvörn“ má vel útleggiast fyrir ad þeckja hann grant.

Guðmundur. Já! hann hefir gefið oss Endurlausnarann Jesúm Krist, sem hefir forlikað oss við Guð, og þann gledi-boðskap nefnir lika guðspjallið: ángrudum boðast, að Kristur sé kominn.

Prestur. Getur þú sagt mér ritningar-grein uppá það?

Guðmundur. Já! „Róm. 5, 8-11. Guð „hefir auðsýnt sína elsku til vor í því, að „Kristur hefir í vorn stað dáið, þegar vér enn „þá vórum syndugir ... en ecki einasta erum „vér frelsaðir, heldur megum gledjast af Guði, „vegna Drottins vors Jesú Krists, hvor oss „hefir forlikað við hann"

Prestur. Segðu mér, Kristrún! er líkamlegum föður sama hvorninn börnin hans hegða sér?

Kristrún. Nei!

Prestur. Hvað heimtar hann þá af þeim?

Kristrún. Að þau hegði sér vel.

Prestur. Hvað gjörir hann, ef þau hegða sér vel?

Kristrún. Hann elskar þau.

Prestur. Hvorninn er honum til geðs af því?

Kristrún. Hann gleðst yfir þeim, og þykir vænt um þau.

Prestur. En, Lóður litli! gleðst hann þegar hann sier að engin tilsögn tjáknar?

Lóður. Nei! það getur ecki verið honum til gledi; honum mislikar það.

Prestur.

Prestur. Er þessu eins varid hiá Gudi?
Lýdur. Já! honum getur ecki verid ó-hlýdnin til gledi, edur velþócknunar.
Prestur. Er Gudi þá ecki sama hvornin sem ver hegdum oss?
Lýdur. Nei! því Gudi er engin gledi af oss, eda honum er ecki þócknanlegt nema þegar ver erum gudhrædder.
Prestur. Getur þú sagt mer ritningar-grein uppá þetta? Magnús minn!
Magnús. Já! „ 1. Mós. 4, 7. Gud sagdi „vid Cain: er ecki svo? ef þú ert frómur, þá „ertu þacknæmur. En sert þú ecki frómur, „þá hvílíst syndin fyrir dyrum (*) hún situr „um þig, en þú átt ad hafa yfir-ráð yfir henni."
Prestur. Nær erum vid þá Gudi þóckn-anlegir?
Magnús. Þegar ver erum gudhrædder.
Prestur. Hvad er þá ad vera gudhræddur?
Magnús. Ad vera fús á ad gjöra þad, sem Gud vill.
Prestur. Gott og vel! en er þad ei meira?
Magnús. Ad bera sig hvorn dag ad verda skynsamari og betri.
Prestur. Þar vid má líka bæta, ad þad á ad framkoma af elskunni til Guds. En hvorn-inn er sá af Gudi álitinn, sem er gudhræddur?

Magn-

(*) Þessi vanda grein hefir verid af ýmsum ýmislega útlögd. Þar sem ecki finnst annad berssýnilega betra, er riettast ad halda þeirri gömlu og stó-vanalegu útleggingu.

Magnús. Þægur. Gud hefir þóknun á honum.

Prestur. En þegar einhvorr er ecki gudhræddur, edur er óhlýdinn, getur Gud haft velþócknun á slikum?

Magnús. Nei! „Psálm. 5, 5. þú ert ecki „sá Gud, sem hefir þócknun á ógudlegu at„hæfi. Sá vondskufulli fær ei ad stadnæm„ast hjá þér."

Prestur. Svo gætir þá Gud ad oss, og álltur oss med velþócknun, ef vér erum gudhræddir, en med misþócknun ef vér erum ógudlegir, vondir og lasta-fullir; en gjöra þá slikamlegir sedut ei meir enn gæta ad?

Magnús. Þeir rannsaka hvort börnin hafi verid hlýdin.

Prestur. Finnst þad um Gud í ritningunni?

Magnús. Já! „1 Pét. 1, 17. og med því „þér ákallid þann Födurinn, sem án mann„greinar álits dæmir hvorn eptir sinum verkn„adi, þá hagid ydar daagfari med óttablendni, „svo lengi, sem þér dveliid hér eins og géstir."

Prestur. Hvad lærum vér héraf? Gudmundur!

Gudmundur. Ad Gud dæmir án manngreinar álits.

Prestur. Þad er ad skilja, ad vér egum ad standa reikning af vorri hegdun. Eptir hvorju mun Gud dæma?

Gud-

Gudmundur. Eptir hvors eins verkum, hvort sem madurinn er í hárri eda lágri stétt.

Prestur. Þegar þid nú, börnin mín! alltíd gjörid þad, sem er gott, erud alltíd skickanleg, hvors hafid þid þá ad vænta af yckar fødur?

Öll Börnin. Alls góds.

Prestur. En þegar þid erud óskickanleg, og gjörid þad, sem er ljótt, hvors megid þid þá vænta?

Öll börnin. Straffs.

Prestur. Hvors megum vér vænta af Gudi, ef vér gjörum ætíd gott? svara þú, Kristrún!

Kristrún. Ad oss gángi ætíd vel.

Prestur. Hvorninn var ad ordi qvedid um þad í ritníngar-greininni, sem hann Magnús las fram seinast?

Kristrún. Vér egum ad haga voru dagfari med ótta-blendni.

Prestur. Hvad þýdir þad?

Kristrún. Vér egum ad lifa forsjállega og med varkárni, svo vér gjörum ekkert íllt.

Prestur. Hvorsu lengi?

Kristrún. Svo lengi, sem vér erum hér til húsa, þad er, á medan vér lifum.

Prestur. Má sá sem gjörir þetta, vænta sér góds af Gudi?

Kristrún. Já!

Prestur. Getur hann gladt sig af því, ad Gud er hans fadir.

Kristrún. Ojá!

Prestur. Hvorsu lengi? Lydur!

Lydur. Eiliflega.

Prestur. Deyr Gud nockurntíma?

Lydur. Nei!

Prestur. Er þad stundum, sem hann er ei vidlátinn?

Lydur. Nei! hann gétur alltíd hjálpad.

Prestur. Vill hann alltíd hjálpa?

Lydur. Já! Gud kann ei ad svíkja; hann heldur eins og gódur fadir, allt þad, sem hann hefir lofad.

Prestur. Høfum vér orsøk til ad gledja oss af því, ad Jesús Kristur hefir kénnt oss ad þeckja Gud svo sem vorn fødur?

Lydur. Já!

Prestur. Hvor er þá vor skylda aptur á mót?

Lydur. Ad hegda oss svo, ad Gud hafi velþócknun á oss.

Prestur. Mun oss þá vegna vel, børnin mín! ef vid gjørum þad?

Øll børnin. Já! þá vegnar oss vel.

Prestur. Viljid þid þá breyta og lifa svo, ad Gudi sé þad til gledi, og hann álíti yckur med velþócknun?

Øll børnin. Já! vid viljum lifa og breyta svo.

Prestur. Og opt verdur mis-brestur á því fyrir yckur ... opt hafid þid gleymt því, sem þid nú lofudud! æ! gleymid því aldrei héd-

Hèðan í frá! ef þið viljið að Guð, eins og góður faðir, gleðji yckur, þá egið þið líka eins og góð börn, að vera honum til gleði, og það gètið þið ef ecki vantar viljann hjá yckur, því kraptana gèfur hann sjálfur!

En nær sýndi Jesús Kristur mesta traust, sem hann hafði á Guði sínum föður? svara þú, Magnús!

Magnús. Þegar hann rètt undir andlátið fól honum sína sál í hendur.

Prestur. Við skulum þá öll að endíngu þessa samtals, sýngja 19da versið af Psálminum: Hrópaði Jesús hátt í stað ꝛc.

Vertu, Guð Faðir! Faðir minn, o. s. fr.

## Mánudaginn, 15 Decembr.

## LXI. Um Skrýmslið góða.

Einusinni var Kaupmaður nockurr flugríkur; hann átti 6 börn: 3 syni og 3 dætur; en þareð hann var skynsamur maður, svo sparaði hann eckert uppá uppeldi barna sinna, heldur hèldt þeim til allsslags menta. Dætur hans vóru dáfríðar, þó sèrílagi sú ýngsta, og var hún í barnæsku sinni alltíð kolluð fríða barnið, svo það nafn hèldst við hana ætíð síðan, að hún hèt Fríða, hvaðeð uppvakti stóra öfund hjá systrum hennar. Svo sem þessi ýngsta systirin var sú fríðasta, svo var hún einnig betri enn báðar hinar, því þær vóru stolltar af

ríkidæmi sínu; létu eins og þær væru Stórs-herra-dætur, og vildu ecki tala við önnur Kaups-manna-börn, eða umgángast nema Aðals-fólk. Þær vóru dag hvern við dans-leika, gleði og veitslur, en spottuðu ýngstu systur sína, sem brúkaði mestann tímann til að lesa í góðum bókum, eða vinna eitthvað þarst. Vegna þess allir vissu þær vóru ríkar, svo biðluðu margir mestu-háttar Kaupmenn til þeirra, en þær tvær eldri svöruðu: að þær aldrei vildu giptast, nema ef það væri Hertuga, eður í það allraminnsta einhvörjum Jarli.

En hún Friður þackaði hæversklega þeim, sem báðu hennar, sagði samt undir eins: að hún væri of-úng, og hún vildi enn nú vera nockur ár hjá föður sínum. Allt í einu misti Kaupmaðurinn eigur sínar, svo hann átti ecki eptir nema eitt litið kot lángt frá kaupstaðnum. Hann sagði börnum sínum grátandi, að nú lægi ei annað fyrir, ef þau vildu lífinu halda, enn flytjast þángað, og fara að vinna eins og aðrir bændur. Báðar eldri dæturnar svöruðu: að þær vildu ecki skiljast við kaupstaðinn, þær hefðu svo marga biðla, sem teldu sér það fyrir lucku, að ega þær, hvörsu fátækar, sem þær væru, en þeim góðu stúlkum skjátlaðist í því, þareð biðlarnir vildu ecki líta til þeirra, þegar þær vóru orðnar fátækar: Enginn elsk-aði þær, af því þær vóru svo stolltar, og allir sögðu, að það væri mátulegt fyrir þær, þó drambið læckaði nockuð í þeim, þær skyldu nú

nú látast vera Stórherra-dætur, á meðan þær væru að mjólka í qvíunum. En undir eins sögðu allir: hvað hana Fríðu snertir, þá fer það illa, að henni skuli gánga á móti; hún er góð stúlka; hún talaði við alla með góðsemi, og var þýðlynd og skickanleg. Þar vóru og nockrir mikilsháttar menn, sem vildu eiga hana, þó ecki ætti hún eitt fiskvirði, en hún sagði þeim, að nú gæti hún allrasíst fengið af sér að skilja við föður sinn í þessari hans bar-áttu, og hún ætlaði að fara með honum útá lands-bygðina honum til hugfróa, og til að vinna fyrir honum. Í fyrstunni fell henni þúngt að missa sitt ríkidæmi, en hún sagði með sjálfri sér: „hvörsu mikið, sem eg græt, svo „fæ eg aldrei þarmeð aptur eigur; eg verð að „bera mig að verða luckuleg, án þess að vera „rík." Þegar þau vóru komin til kots síns útá lands-bygðina, fór Kaupmaðurinn og synir hans að vinna alla lands-vinnu. Hún Fríða fór á fætur hálfri eykt fyrir midjann-morgun, fór að sópa húsið, búverka og búa til mat-ar handa öllu fólkinu. Í fyrstunni fell henni það þúngt, því hún var ecki von að gánga í öllu eins og vinnu-kona; en að tveggja mán-aða fresti var hún orðin sterkari, og erfiðið hafði gefið henni fullkomna heilbrygði. Þegar hún var búin að ljúka sínu verki, fór hún að lesa í bók eða spila á hljóðfæri, eða saung og spann svo undir eins. Þar á móti gátu ei hinar tvær systur hennar á sér tekið fyrir leið-

indum; þær fóru á fætur jafn=nærri báðum hádegi og dagmálum, vóru á ráfi allann daginn, og hofðu af fyrir ſér með því, að telja rauna=tolur ſínar, um fallegu fotin, ſem þær hofðu átt, og veitſlurnar ſem þær hofðu verið í. „Skoðaðu hana yngſtu ſyſtur okkar," ſogðu „þær ſín á milli, það er engin ſóma tilfinning „í henni, því hún er ſvoddan hjáræna, að hún „er ánægð með veſældina, ſem hún nú er í."

En ſá góði Kaupmaður, áleit þetta oðruvíſi enn dætur hans. Hann viſſi að hún Fríða var betur fær um að vera ſér til ſóma í ſtórveitſlum, heldurenn ſyſtur hennar, hann dáðiſt að hennar dygða=gêði, en ſérílagi hennar þolinmæði, því ſyſtrum hennar var ecki nóg, að láta hana vinna allt hvað gjora þurfti á heimilinu, heldur ſnuprudu hana ſifeldlega þará ofan.

Þannin leið eitt ár, ſem fólk þetta var í einſetu útá lands=bygðinni, þegar Kaupmaðurinn ſéck bréf um að eitt ſkip með vorur hans væri luckulega til hafnar komið. Af þeſſum fréttum gátu þær eldri dæturnar ecki ráðið ſér fyrir gleði, því nú hugſuðu þær, að lokſins væri ſá tími kominn að þær gætu komiſt frá lands=bygðinni, hvar þeim leiddiſt mjog. En þegar þær ſáu að faðir þeirra var ferðbúinn, beiddu þær hann að kaupa handa ſér føt og ſilki, qvennſylſur og alls=ſlags óþarfa. Hún Fríða beiddi um eckert, því hún hugſaði með ſjálfri ſér, að allir peníngarnir fyrir vorurnar

mundu

mundu ecki hrockva til að kaupa allt það, sem systur hennar báðu um. „Bidur þú mig ecki „um að kaupa neitt?" sagði fadir hennar til hennar. „Þar þér erud svo gódir að húgsa „til mín, svaradi hún, svo vil eg bidja ydur „að færa mér eina rós, því þær vaxa hér „ecki." Það var ecki af því, að henni Fridu væri svo mikid umgéfid að sá rós, en hún vildi ecki med sinu dæmi lasta breytni systra sinna, sem hefdu sagt, að hún vildi vera ødruvísi enn adrir, ef hún hefdi ecki bedid um neitt. Sá gódi madur ferdadist burtu, og þá hann kom þángað, sem hann ætladi, féck hann ei sínar vorur; sú sok kom til dóms og laga, og eptir mikla mædu og kostnad sneri hann til baka aptur, eins fátækur og hann hafdi nockurntíma verid. Hann átti ecki eptir meir enn tvær þíngmannaleidir að komast heim, og var farinn að gledja sig af því yndi, sem hann hefdi af að sjá born sín aptur, en vegna þess leid hans lá ígégnum þickvann og lángann skóg, villtist hann og fann hvorgi bæ. Mesta kafald var og svoddan stormvidri, að honum kastadi tvisvar af hestinum, nótt var komin, og hann hugsadi ecki annad enn hann mundi deyja, annadhvort af húnari eda kulda, ellegar hann mundi verda uppetinn af úlfum, sem hann heyrdi vóru að ylfra allt í kríngum hann. Rétt í einu sá hann á milli eikanna ljós mikid, sem honum sýndist vera lángt burtu. Hann reid í þá átt, og sá, að það kom frá stóru sloti,

sem

sem allt var ljósum prýdt. Kaupmadurinn þackadi Gudi fyrir þessa hjálp, og skundadi til slotsins. En hann undradist mjög, ad hann fann enga manneskju á gángi Hesturinn hans sá stórt hest-hús opid, fór þar inn, fann þar gott fódur, og þar hann var húngradur, át hann rosklega þar af Eptir ad Kaupmadurinn var búinn ad binda hann, fór hann til hallarinnar, en fann þar enga manneskju. En þá hann kom í einn stórann sal, fann hann þar yl og bord vistum búid, en ecki lagt á þad nema handa einum manni. Vegna þess hann af snjó og regni var ordinn holdvotur, fór hann til eldsins ad þurka sig, og sagdi vid sjálfann sig: „húsbóndinn eda ráðsmadur hans munu „forláta mér, þó eg gjori mig heima-kominn, „því þad mun ecki vara lengi þángad til þeir „koma." Hann beid þareptir lángann tíma, en þegar komid var undir midnætti, hríngdi hann med litilli klucku, og þó kom enginn. Hann gat þá ei lengur stadid á móti húngrinu, tók einn hænsna-únga, og bordadi hann í tveimur bitum, þó skjálfandi. Hann drack líka gódann sopa af víni, vard sídan djarfari, fór útúr salnum, og géck ígégnum nockur herbergi, sem öll vóru praktuglega útbúin. Loksins fann hann eitt svefn-kamers, med gódri reckju, og þared þá var yfir midnætti, en hann þreyttur, rédi hann af, ad loka ad sér dyrunum og gánga til hvílu.

Morg-

Morguninn eptir var vel liðið af dag-málum, þá hann fór á fætur, og undraðist yfir að finna hjá sér góðann klæðnað í staðinn fyrir fötin sín, sem öll vóru skémd eptir óveðrið daginn fyrir. „Án alls efa" sagði hann með sjálfum sér, „má þetta slot ega einhvorr góður „loptandi, sem hefir miskunað sig yfir mig." Hann leit út um gluggann, og sá eckert til snjóar, en þar á móti blómstur-búska, sem vóru dæilegir áshundar. Hann kom aptur í stóra salinn, hvar hann hafði haft qvöldverð áður, og sann þar lítið borð með frókosti. „Eg „þacka þér Herra lopt-andi, sagði hann hátt, „að þú hefir hugsað fyrir árbita mínum." Eptir að þessi góði maður hafði hreïst sig og mettað, fór hann að leggja á hest sinn, og þared hann géck þá fram hjá rósa-runna nockr-um, kom honum í hug hvað hún Fríða hafði beðið hann um, og tók einn qvist af þeim moran, sem þar vóru. Undir eins heyrði hann hark mikið, og sá að til sín æddi skrýmsli svo bganarlegt, að nærri leið yfir hann. „Mikið „óþacklátur ertú," sagði skrýmslið við hann, með skélfilegri rödd. „Eg frelsaði þitt líf, og „hýsti þig á mínu sloti, en til launa fyrir það „stelur þú rósunum mínum, sem mér þykir „vænna um enn nockurn annann hlut í ver-„öldinni. Fyrir þetta þitt tiltæki skaltú deyja, „og eg géf þér ecki nema fjórða part úr klucku-„tíma til að biðja Guð fyrir þér." Kaup-maðurinn kastaði sér á kné, spennti greipar

fórnaði hondum, og sagði við skrymslið; „nád„ugi Herra! fyrirgéfið Þér mér! eg ætlaði ecki „að styggja Yður, þó eg tæki eina rós handa „einni af dætrum mínum, sem hafði beðið „mig um hana." „Eg heiti ecki náðugur „Herra" svaraði ófreskjan, „en eg heiti skrymsl; „eg er ecki fyrir fagurgala, en eg vil hvørr „segi eins og hann þenkir, og þú þarft ecki „að hugsa að vinna neitt hjá mér með hræsn„inni þinni. En, þú sagðist eiga dætur? eg „skal þá fyrirgéfa þér með því móti, að ein „þeirra komi frívilljuglega híngað að deyja í „þinn stað; eg vil ecki heyra eitt orð meira, „farðu af stað, og sver mér eið, að þú skulir „koma aptur innan hálfs missiris, ef engin af „dætrum þínum vill deyja í þinn stað." Þessi góði maður ætlaði sér aldrei, að géfa neina af dætrum sínum úti dauðann handa þessari ófreskju, en hann áleit, að frestur væri á illu beztur, „því eg hefi þó í hið minnsta" hugsaði hann, „það yndi að sjá börn mín enn „nú einusinni, og qveðja þau," hann fór þá, að hann skyldi koma aptur, og skrymslið sagði honum, að hann mætti fara burt, nær sem hann vildi, en „þó vil eg ecki, sagði það, að „þú farir tómhendur. Farðu til baka inní „herbergið þar sem þú svafst í nótt, þar er „stór kista tóm, láttú í hana hvað þú vilt, „eg skal koma því heim til þín." Undir eins fór skrymslið í burtu, og sá góði maður sagði við sjálfann sig: „úr því eg verð að deyja, svo „er

„er mér það þó huggun, að eg gét eptirlátið „veſælings bornunum mínum, nockuð til lífs„uppheldis."

Síðann fór hann aptur í herbergið, ſem hann hafði ſofið í, og fann þar mikla hrúgu af gull-peníngum, fyllti af þeim kiſtuna, ſem ſkrýmſlið hafði talað um, læſti henni, tók ſíðan heſtinn ſinn, og reið út úr þeſſu ſloti eins ſorgbitinn, eins og hann hafði verið glaður að komaſt þángað. Heſturinn hans fór af ſjálfum ſér eina gotu út úr ſkóginum, og innanſkamms kom hann heim til koſa ſinna. Öll bornin flycktuſt að honum, en í ſtaðinn fyrir að taka þeirra blíðlátum, fór Kaupmaðurinn að gráta, þegar hann ſá þau. Hann héldt á róſa-qviſtinum í hendinni, féck henni Fríðu hann og ſagði: „Fríða! taktú við róſunum „þeim arna! þær hafa koſtað mig veſæling „nógu mikið," og ſíðan ſagði hann bornum ſínum frá allri þeirri ólucku, ſem hann hefði í ratað. Þegar báðar eldri ſyſturnar heyrðu það, ſkræktu þær uppyfir ſig og áloſuðu henni Fríðu, að hún grét ecki. „Skoðið þið hvorju „ſtolltið qvikindiſins þeſs arna kémur af ſtað, „ſögðu þær, því beiddi hún ecki um ſkart eins „og við? en Jómfrúin vildi vera odruvíſi enn „aðrar, og hún er nú orſok í dauða hans „foður ockar, en grætur ſamt ecki!" „Það væri „til litils gagns" ſvaraði hún Fríður: „hvar „fyrir ſkyldi eg gráta dauða hans foður míns? „hann ſkal ecki miſſa lífið! þareð óſreſkjan vill

„láta sér nægja með eina af dætrum hans, „svo ætla eg að gëfa mig henni á vald, og „eg kalla mig sæla, að eg gët með dauða mín„um hafst þá gleði, að frelsa hann föður minn, „og sýna honum hvörsu eg elska hann.“ „Nei, „systir mín!“ sögðu þeir þrír bræður, „þá „skalt ecki deyja, við skulum fara og reyna „ockur við skrýmslið, og drepa það eða sjálfir „falla.“ „Hugsið ecki til þess, börnin mín!“ sagði Kaupmaðurinn, „því skrýmslisins makt er svo „stór, að það er engin von eða vegur til að drepa „það. Mér þykir vænt um hjarta-gæðsku henn„ar Fríðu, en eg vil ecki hleypa henni út í „dauðann. Eg er gamall, eg á ecki lángt eptir „ólifað, svo eg gët ecki misst utan fáein ár af „lífi mínu, í hvörjum mér er litil eptirsjón, „nema yckar vegna, mín kjæru born!“ „Eg „segi yður sannleikann, Faðir minn góður!“ sagði hún Fríður til hans, „að þér skuluð ecki „svo fara til slotsins, að eg sé ecki með; þér „skuluð ecki gëta hindrað mig frá að fylgja „yður; þó eg sé úng, þá elska eg samt ei lífið, „og eg vil heldur að skrýmslið rífi mig í sund„ur, heldurenn að deyja af hugar-ángri að „missa yður.“ Hvað, sem hvörr sagði, þá vildi hún Fríða endilega ferðast til slotsins, og systrum hennar þótti vænt um það, vegna þess þeim var farið að leika öfund á dygðum hennar.

---

## Þriðjudaginn, 16 December.

Kaupmaðurinn var svo þánkafullur yfir því að missa dóttur sína, að hann hugsaði ekkert til kistunnar, sem hann hafði fyllt upp með gull-penínga; en undir eins og hann var búinn að loka aptur sinu svefn-kamersi, gèck yfir hann, þegar hann fann hana við hofda-lagið á rúminu sínu. Hann einsetti sér, að láta ekkert á þessu bera við börnin sín, að hann var orðinn ríkur, því dæturnar hefðu þá viljað fara aptur til kaupstaðarins, en hann vár búinn að einsetja sér að enda sína daga á lands-bygdinni, en henni Fríðu trúdi hann fyrir því, og hún sagdi honum, að meðan hann hefdi verið burtu, hefdu nockrir hofdíngs-menn komið, og meðal þeirra tveir, sem hefdu hugt til systra hennar. Hún beiddi fødur sinn að gipta þær, því hún var svo góðhjortuð að hún elskaði þær, hvorsu mikið, sem þær hofdu gjort henni illt.

Þessar tvær vondu stúlkur neru á sér augun með lauk til að gráta, þegar hún Fríða fór burt með fødur þeirra; en bræður hennar og faðirinn grètu af alúð. Enginn var grátlaus, nema hún Fríður, vegna þess að hún vildi ecki þarmeð auka hinna hrygð. Hestarnir héldu leiðina til slotsins, og um qvøldið var þar allt ljósum prýdt, eins og í fyrra sinni. Hestarnir fóru í hest-húsið, og så góði maður

fór með dóttur sinni í þann stóra sal, þar fundu þau borð og alls-nægtir á, en lagt á borðið fyrir tvo. Kaupmaðurinn gat ei af sér fengið að borða, en hún Fríður bar sig að sýnast róleg, settist til borðs, og lagði uppá fyrir hann. Síðan sagði hún með sjálfri sér: „skrýmslið ætlar að ala mig, áður enn það „vill eta mig, úr því það setur svoddan stór-„veitslu upp handa mér." Þegar þau höfðu borðað heyrðu þau mikinn skruðníng, og Kaupmaðurinn gvaddi dóttur sína grátandi, því hann hugsaði að skrýmslið væri það, sem kæmi. Fríða fékk hrylling í sig alla þegar hún sá þessa ógnarlegu mind; en hún herti sig upp svo sem hún gat, og þá þessi ófreskja spurði hana að: „hvort það væri með góðu geði, að „hún væri híngað komin?" svaraði hún skjálfandi: já! „mikið góð ertú," sagði skrýmslið, „og eg þakka þér fyrir það. Farðu á stað „aptur á morgun, góður maður! og kom þú „híngað aldrei optar. Vertú sæl Fríður!" "vertú sæll skrýmsli" svaraði hún, og í því fór skrýmslið burt. „Æ! dóttir mín sæl" sagði Kaupmaðurinn, og umfaðmaði hana Fríðu: „eg er hálfdauður af hræðslu. Láttú mig ráða, „og skildu mig hérna eptir." „Nei! faðir minn „góður," sagði hún Fríða og var einbeitt; „farið þér til baka á morgun, og látið Guð „sjá fyrir mér; hann mun miskuna mér." Þau fóru að hátta, en hugsuðu, að dúr mundi ekki koma á auga sitt alla þá nótt; en varla

vörn

vóru þau gengin í reckjur sínar fyrr enn þau sofnuðu sætt og rótt. Í svefninum dreymdi Fríðu að kona nockur kom til hennar, sem sagði: „eg læt mér vel lynda þína góð-gæðsku, „Fríða! það góðverk, sem þú gjörir í því, að „gefa út líf þitt til að frelsa foður þinn frá „dauða, skal ecki vera ólaunað." Þegar Fríða vaknaði sagði hún foður sínum þenna draum, og þó honum væri hann nockur hugfró, æpti hann samt hástofum, þegar hann varð að skilja við þessa sína elsku-dóttur.

Eptir að hann var burtu farinn, settist hún Fríða niður í stóra salnum og fór líka að gráta. En þar hún hafði mikla hugprýði til að bera, fól hún sig Guði á vald, og einsetti sér að slá burt öllu hugar-vÿli þann stutta tíma, sem hún ætti eptir ólifaðann, því hún taldi það víst að skrÿmslið mundi eta hana upp sama qvöldið. Á meðan tók hún sér fyrir að sjá sig um kríng, og skoða þetta fallega slot. Hún dáðist að hvörsu fallegt það var, en mest undraðist hún yfir, að hún sá skrifað yfir einum dyrum: húsið hennar Fríðu. Hún lauk dyrunum upp, og fann þar sváddan viðhöfn, sem hún aldrei fyrr hafði séð. En það, sem henni þótti sérlegast, var stór, bóka-skápur, harpa og nótna-bækur. „Mér „á ecki að leiðast" sagði hún í hljóði; síðan hugsaði hún: „ef eg ætti ecki að vera hér ut- „an einn dag, þá hefði ecki allur þessi tilbúníngur verið hafður."

Þessi

Þessi þánki hughreysti hana aptur; hún lauk upp bóka-skápnum, og sá eina bók hvará skrifað var með gull-letri: óskaðu! skipaðu! hér ertú Drottníng og húsfreyja!. „æ! sagði „hún" og stundi við, „eg óska einskis nema „að sjá hann vesælíngs föður minn, og vita „hvornin honum líður." Hún hafði naumast sagt þetta í huga sínum. En hvað stór var ecki hennar forundran, þá henni var litið í stórann spegil, að hún sá þar bæinn sinn, og hann faðir hennar kom þá heim mjög dapur í bragði. Systur hennar komu á móti honum, og hvornin, sem þær skælðu sig til að sýnast sorgbitnar, var þó auðséð á andlitinu á þeim fögnuðurinn yfir að hafa mist hana systur sína. Strax þar eptir hvarf allt þetta, og Fríða þenkti með sjálfri sér, að góðgjarnt væri skrýmslið, hún mundi þess vegna einkis ills von þurfa af því að ega.

Um middegi fann hún að búið var að leggja á borðið, og meðan á máltíðinni stóð, heyrði hún yndislegann hljóðfæra-slátt, en sá engva manneskju. Um qvöldið þegar hún var sest til borðs, heyrði hún skruðníng, sem skrýmslið gjörði, og þá varð hún mjög hrædd. „Fríða!" sagði skrýmslið við hana, „villtu „lofa mér að vera hér meðan þú ert að borða?" „hér stendur allt í yðar valdi" svaraði Fríða, en þó skjálfandi. „Nei!" svaraði skrýmslið, „hér er engin húsráðandi nema þú. Þú „þarft ecki annað að segja mér enn gánga í „burtu,

„burtu, ef eg er þér til leiðinda, eg skal þá „strax fara minn veg. En seg mér, sýnist þér „eg ecki hrædilegá ljótur?" „já! já!" sagdi hún Fríða, „því eg kann ecki að skrøkva, „en eg held þér séuð góðgjarn." „Það er „líka satt," svaraði skrymslið; „en fyrir utan „það eg er svo ljótur, þá hefi eg ecki minnsta „korn af skarpleika, og eg veit að eg er ecki „annað enn skynlaus skèpna." „Enginn er „skynlaus," svaraði hún Fríða, „sem þeckir „skynsemdar-leysi sitt, því heimskingjarnir þeckja „sig aldrei." „Borðaðu þá, Fríða!" sagði skrymslið við hana, „og berðu þig að láta „þér ecki leiðast í þessu þínu húsi, því allt „hvað hér er, er þitt; og mér væri það áng- „ur ef þú ecki yrðir ánægð." „Mikið góður „eruð þér," sagði hún Fríða; „eg er vel á- „nægð með yðar hjartalag, þegar eg hugsa um „það, svo sýnist mér þér ecki mjög ljótur." „Æ! stúlka," já! svaraði skrymslið, „góð- „gjarn er eg, en eg er ófreskja." „Til eru „margar manneskjur, sem eru meiri ófreskjur „heldur enn þér," svaraði hún Fríður, „og eg „held meira uppá yður með yðar útliti, held- „ur enn þá, sem undir fríðri manns ásýnd „dylja hreckjafullt, svívirdilegt og óþacklátt hjarta- „þel." „Ef eg hefði nockurn skarpleika," svaraði skrymslið, „þá skyldi eg haga nett „orðum mínum til að þacka þér, en eg er heimsk- „ingi, og allt hvað eg get sagt þér er að eg „er þér skuldbundinn."

Fríða borðaði með góðri matar-lyst. Lítið vantaði á, að hún væri orðin óttalaus fyrir skrímslinu; en hún var nærri liðin niður af hræðslu, þegar það sagði til hennar: „Fríða! „viltú verða konan mín?" hún gat ekki nokkra stund svarað, hún var hrædd um að reita skrímslið til reiði, ef hún neitaði, samt sagði hún titrandi: „nei! skrímsli!" í því sama augna-bragði ætlaði vesælings skrímslið að stynja, en það varð svo ógnarlegt gaul, að undirtók í öllu slotinu. Hún Fríða hughreystist samt fljótt aptur; því eptir að það hafði mjög sorglega sagt: „vertú þá sæl, Fríða!" fór það út úr salnum og leit endrum og sinnum til baka á meðan það var á ferðinni út. Þegar Fríða sá að hún var alein, fann hún hjá sér mikla meðaumkun til skrímslisins. „Æ! sagði hún, „það fer illa að það er svo ljótt, „því það er þó góðhjartað." Fríða var hálft missiri í þessu sloti sæmilega róleg. Á hvörju qvöldi kom skrímslið til hennar, og talaði við hana meðan hún var að borða, aldrei greindar-laust, en aldrei heldur með því, sem kalladur er skarpleiki í heiminum; á hvörjum degi sá hún Fríða ný merki til góðgirndar hjá því, hún var orðin svo von að sjá það, að hún tók ekki eptir hvörsu ljótt það var, og svo lángt var frá hún qvíði fyrir það kjæmi, að hún gjætti opt að því hvað framorðið væri til að vita hvort ekki væri liðið að náttmálum, því þá var víst að vænta að ófreskjan

kjæmi.

kjæmi. Það var ecki utan einn hlutur, sem gjordi henni Friðu ángur, sem var áðurenn skrýmslið fór burt á hverju qvøldi, spurði það hana að, „hvort hún vildi vera konan sín?" og sýndist að verða mjøg sorgbitið, þegar hún sagði: „nei."

Einusinni sagði hún: „þér ángrið mig með „þessu, skrýmsli! eg vildi eg gjæti átt yður, „en eg er of einlæg til að segja annað enn eg „meina; eg held það verði aldrei. Eg skal „alltíð vera yður vinveitt, og herið yður að „láta yður það nægja." „Það verður þá „svo að vera," svaraði skrýmslið, „ea þecki „mig sjálfur. Eg veit að eg er mikið hrylli-„legur; en eg elska þig yfir máta, og þess-„vegna tel eg það lucku mína, að þú vilt vera „hjá mér. Lofaðu mér því að þú skulir aldrei „skilja við mig." Þá Fríða heyrði þetta, roðnaði hún. Hún hafði sjeð í speglinum sínum, að faðir hennar var sjúkur af hugar-ángri að hafa misst hana, hún óskaði sér því að mega finna hann. „Eg gjæti lofað yður því" sagði hún Fríða við skrýmslið, „að skilja aldrei „til fulls við yður, en mig lángar svo til að „tala við hann føður minn, að eg held eg deyi af sorg, ef þér neitið mér um þá ánægju." „Eg vil heldur deyja sjálfur" sagði ófreskjan, „enn gjøra yður á móti. Þó eg láti yður „fara til hans føður yðar, þá verðið þér þar „kyrr, og yðar vesælings skrýmsli deyr þá af „sorg." „Nei" sagði hún Fríða, grátandi:

„mér þykir vænna um ydur ènn svo, ad eg „vilji vera orsök í ydar dauda. Eg lofa ydur ad koma aptur ad átta daga fresti. Þér „hafid sýnt mér, ad systur mínar eru giptar, „og brædur mínir farnir í leidángur; fadir minn „er þess vegna einsamall heima, lofid þér mér „þá ad vera hjá honum eina viku!“ „Þú „skalt koma til hans á morgun í bítid“ svaradi skrýmslid, „en mundu til þess, sem þú „hefir lofad mér. Þú þarft ecki annad enn „láta hrínginn þinn á bordid, þegar þú gengur til reckju, ef þú vilt koma til baka. Vertú sæl, Fridur!“ og skrýmslid stundi eins og þad var vant, þegar þad sagdi þessi ord, en hún Frida fór ad hátta, var samt mjøg hnuggin af því, ad hún sá illa lá á skrýmslinu. Þegar hún vaknadi um morguninn, var hún í húsi fødur síns, og kalladi, þángad kom ein vinnu-stúlka, er hljódadi, þegar hún sá hana. Þegar sá gódi madur heyrdi þetta hljód, hljóp hann til, og ætladi nærri ad deyja af gledi, er hann sá aptur sína kjæru dóttur, héldust þau lengi í fadm-løgum ad heilsa hvort ødru. Eptir þann fyrsta gledi-fund hugsadi hún Frida, ad hún hefdi engin føt ad fara í, en vinnu-stúlkan sagdi henni, ad hún hefdi rétt núna fundid í næsta kamersi stóra kistu fulla med qvenn-klædnad, settann med gulli og gimsteinum. Frida þackadi sínu góda skrýmsli fyrir þessa umhugasemi: hún tók þann fatnad, sem minnst var hast vid, og sagdi vinnu-stúlkunni, ad

láta

láta hina nidur aptur, því hún ætladi ad gésa þá systrum sínum, en varla var hún búin ad út-tala þessi ord, fyrrenn kistan hvarf. Fadir hennar sagdi henni, ad skrýmslid vildi, ad hún héldi ollum þessum klædnadi sjálf, og strax vóru klædnadur og kista komin aptur á sama stad. Fríða fór þá ad klæda sig, en medan á því stód vóru send bod til systra hennar, hvorjar ecki létu lengi eptir sér bída. Þær vóru bádar mikid ólukkulegar: sú eldri hafdi eignast dáfrídann mann, en honum þótti svo vænt um sína egin mind, ad hann frá morgni til qvølds tók sér ei annad fyrir ad gjora, enn hugsa um hana, foraktadi aptur á mót frídleika konu sinnar. Hin onnur átti flugskarpann mann, sem ecki brúkadi skarpleikann til annars, enn hæda alla og erta upp, en þó einna mest og helst konu sína. Bádar systur hennar Fridu vóru nærri daudar af sorg, þegar þær sáu ad hún var klædd eins og Kóngsdóttir, en fríd og árleg ásýndar. Hvørsu blídar, sem þær sýndu sig vid hana, var ofundin samt stæk hjá þeim, bættist þó mikid á hana þegar hún Frída var búin ad segja þeim frá hvørsu vel sér hefdi lidid. Þær tvær ofundsjúku systur fóru þá úti gard til ad gráta, svo enginn sæi, og sogdu hvør vid adra: „því er „qvikindid ad tarna luckulegra enn vid? erum „vid ecki elskuverdari enn hún?“ systir mín!“ sagdi sú eldri, „mér kémur nockud í hug: vid „skulum bera ockur ad láta hana vera hér „lengur

„lengur enn átta daga, því þá sýkur í heimsku „skrýmslið hennar, svo það etur hana upp, „þegar hún heldur ecki sitt loford." „Það „er satt, sem þú segir, systir mín!" svaradi hin onnur; „við skulum vera ártoku blídar „við hana," og þá þær hofdu bundið þetta fastmælum, fóru þær inn aptur og vóru svo vinalegar við hana systur sina, að hún Fríður grét gledi-tárum yfir því. Þegar átta dagarnir vóru á enda, rifu báðar systurnar í hárið á sér, og létust vera svo sorg-bitnar yfir hennar burt-reisu, að hún lofadi að vera enn þá átta daga hjá þeim.

## Miðvikudaginn, 17 December.

Eptir þetta nagadi Fríða sig mikið í handarbökin fyrir þá sorg, sem hún gjordi sínu vesælings skrýmsli, hvort hún elskadi heil-huga, og henni leiddist að hún sá það ecki. Tíundu nóttina, sem hún var hjá honum fodur sínum, dreymdi hana, að hún væri í urtagardinum hjá slotinu, og sá þar skrýmslið liggjandi í grasinu, komið að dauda, og var að brýgsla henni um hennar óþacklæti. Fríður hrockk upp í svefninum, og tárfelldi mjog, „Er eg, „ecki ysrid vond" sagdi hún" að gjora skrýmslinu svoddan mædu, sem hefir verið mér svo „gott og eptirlátsamt? þad er ecki því að „kenna þó það sé ljótt og skarpleika-laust? það

„er

„er góðhjartað, hvaðeð er betra enn allt ann-„að. Því hefi eg ecki viljað ega það? eg „hefði verið luckulegri hjá því enn systur min-„ar eru með þeirra monnum. Hvorki er það „ſkarpleiki né fríðleiki mannſins, ſem gjorir „hvorja eina konu ánægða, heldur er það góð-„ſemd, dygðir, eptirlátſemi, en ſkrymſlið hefir „allt þetta gott til að bera. Eg hefi ecki elſku „til þeſs, en ſamt hefi eg fyrir því virðingu, „vinſkap og þacklæti. Eg á ecki að vera oll-„andi þeſs ólucku, því ſvoddan óþacklæti yrði „mér ſifeldlega fyrir hugſkots-ſjónum alla mína „lífstíð." Þegar Fríða hafði ſagt þetta, reis hún upp, lét hringinn ſinn á borðið og lagði ſig aptur til ſvefns. Naumaſt var hún lögſt útaf fyrr enn hún ſoſnaði, og þegar hún vakn-aði um morguninn, ſá hún með gleði, að hún var í höll ſkrymſliſins. Hún bjó ſig þann dag, ſem beſt hún gat til þeſs að þócknaſt því, og leiddiſt mikið allann daginn að bíða eptir því að náttmálum, en þá ſvo var framorðið, kom ſkrymſlið ecki. Fríða var þá orðin hrædd um, að hún hefði verið orſøk í þeſs dauða. Hún hljóp um allt ſlotið kallandi og æpandi, en fann það hvergi. Eptir að hún hafði all-ſtaðar leitað, kom henni í hug draumurinn, og hljóp í urta-garðinn til lækjar-backans, þar ſem hún hafði ſjeð ſkrymſlið í drauminum. Þar fann hún það liggjandi tilfinningar-lauſt, og hugſaði það mundi vera dautt.

Hún

Hún kastaði sér ofanyfir kroppinn, og hafði þá engann viðbjóð á þess mind, en þareð hún fann að hjartað blaktaði en þá í því, tók hún vatn úr læknum, og skvetti framaní það. Skrymslið lauk þá augunum upp, og sagði við hana Friðu: „þú hefir gleymt þínu „loforði, og af hugar-vyli að missa þig, var „eg búinn að taka fyrir mig að svelta mig í „hel, en nú dey eg ánægður, þar eg hefi þá „gleði að sjá þig enn nú einusinni.“ „Nei! „mitt elsku skrymsli! þú skalt ecki deyja,“ sagði hún Frida, „þú skalt lifa til að verða „maðurinn minn; nú gef eg þér mína hönd „uppá það, og sver að eg aldrei skal eiga „neinn annann. Æ! eg hugsaði eg mundi ecki „hafa utan vináttu til þín, en nú synir mér „þessi sorg, sem eg þinna vegna ber, að eg „get ecki án þín lifað.“ Varla var hún Frida búin að út-tala þessi orð, fyrrenn hún sá að allt slotið var ljósum prýdt, og álls-slags hljóðfæri léku, eins og búist væri við stór-veitslu. Samt festi hún ecki huga sinn við neitt þess-háttar, heldur leit strax til síns elskulega skrymsl-is, hugsjúk um þann háska, sem það var í. En hlessa varð hún, að það var horfið burt, og hún sá hjá sér standandi Kóngs-son fríðann og fallegann, sem þackaði henni fyrir, að hún hefði nú látið álögur þær, sem á honum vóru, enda taka. Jafnvel þó henni þækti mikið til þessa Kóngs-sonar koma, spurði hún samt hvað orðið væri af skrymslinu. „Eg er sá hinn „sami“

„sami,“ sagdi Kóngs-sonurinn. „Illkufull „norn hafdi lagt á mig, ad hafa þessa mind „þángad til einhvor frid stúlka sjálfviljuglega „hefdi viljad ega mig, en hún bannadi mér „ad sýna, ad eg hefdi nockurn skarpleika, „þess vegna var engin nema þér, sem hofdud „svo mikla gédgædsku ad gángast einúngis fyr- „ir mínu gódu geds-lagi, og til þacklætis fyr- „ir þad tilbýd eg ydur ad setjast ad ríkjum „med mér.“ „Frídu þókti vænt um þetta; Kóngs-sonurinn og hún fylgdust ad heim til hallarinnar, og þar jókst mikid gledi hennar, ad hún fann þar fodur sinn, og alla sína ætt, sem sú frída Frú er henni hafdi birtst í draumi, hafdi flutt þángad. „Frída!“ sagdi þessi Frú, sem var ein mikils-háttar Lopt-gydja; „tak „hér á móti launum fyrir þad þú valdir svo „vel þinn ektamaka! þú mattir meira dygd „og gódgirni, heldurenn frídleika og skarpleika. „Þú forþénar þessvegna ad finna allt þetta „sameinad hjá einni og sömu manneskju. Þú „verdur nú mektug Drottníng, og eg vona „ad þad háa stand ecki skémmi þinar dygdir. „Hvad yckur vidvíkur, konu-kindur!“ sagdi Lopt-gydjan vid bádar eldri systurnar, „þá þecki „eg yckar hjarta-lag og alla þá vondsku, sem „þarí býr. Verdid þid ad tveimur stein-stöd- „um, en þid skulud halda allri yckar skyn- „semi innaní steininum, þid skulud standa þar „sín vid hvörn dyra-staf á slotinu hennar „Frídu, og eg legg eckert á yckur, nema ad

„horsa þar uppá hennar lucku, og þid skulud
„ecki komast aptur í yckar fyrra stand, fyrri
„enn þid þeckid yckar bresti. Þad hefir sked,
„ad menn hafa ordid leidréttir frá stollti, brædi,
„óhóffsemi og leti, en krapta-verk er þad, þegar
„sá, sem er íllgjarn og ofundsjúkur, umpendist."

Lopt-gydjan sló sprotanum sínum á gólfid, og flutti alla þá, sem í salnum vóru í ríki eins únga Kóngs, þegnum hans var mikill fognudur ad sjá hann aptur. Hann giptist Frídu sinni, lifdu þau bædi lengi og vel í fullkominni farsæld, af því hún var grund-vollud á dygdinni.

## *LXII.* Sundur-lausir þánkar.

### *XVIII.*

Hvorsu vel sem nockurr hlutur kann ad vera undirlagdur, stendur þó opt í einhvors heimsk-íngja valdi, hvort hann tekst edur ei.

### *XIX.*

Margur klagar sá yfir bláni sínu, sem ætti ad kénna um þad hyrduleysinu.

### *XX.*

Qvennfólkid er eins og almúginn; þær þurfa ad vera hræddar, ef madur á ei ad vera hræddur vid þær.

### *XXI.*

Sá er hvorki sæll né ríkur, sem á morg ódol, nema hann sé jasn-ánægdur einúngis med eitt.

XXII.

Sá sem sífeldlega er að gæta að annara högum og framferdi, er eins og þeir, sem aldrei eru heima, en fara á adra bæi til að hagræda þar öllu, medan allt gengur í trassa-skap hjá þeim sjálfum.

XXIII.

Elskurikur vinur á stundum bágara med að finna að vid vin sinn, enn þessi að játa ávirdingu sína.

XXIV.

Sá, sem gjörir lítid úr sjálfum sér, mundi kannské ecki þacka ödrum, sem samsinnti honum í því.

XXV.

Eckert er líkara litlu viti, en mikid vit med hrædslu.

XXVI.

Þad fer illa, að sama er orsökin til þess, að hann Sigmundur trúir öllu því skrítna, og undrunarverda, sem hann segir mér, og eg trúi engu af því. Hún er: það er allt um hann sjálfann.

XXVII.

Vorar heftugu sinnis-hræríngar eru eins og hita-köst og flog í landsfarsótt. Þó þær gjöri oss sterkari medan á þeim stendur, verdum vér samt þess veikari, og meir eptir ockur þegar frá lídur.

XXVIII.

Tveir menn géta verid jafnfrkir fyrir stollti, en hafa mjög mis-jafnt gott til ad bera; annar kannské sé vaxinn uppúr því, en hinn ecki upp í þad.

XXIX.

Eins og sumir segja: eg dreck ecki brennuvín; eg brúka ecki tóbak, svo finnast þeir líka, sem óhikad segja: eg er ecki fyrir ad lesa. Því segja þeir þá ecki eins: eg er ecki fyrir ad þenkja?

XXX.

Þad er bágt ad hafa svo sjálfs elsku ad ödrir verdi ecki vid hana varir; en mikid hægt ad hafa hana svo vér sjálfir ecki tökum eptir henni.

XXXI.

Þegar stúlka verdur vid bón elskhuga síns, þá slockur hún eld med vatni; en sá, sem verdur vid bón vinar síns æsir upp bál med feiti. Stundum líkist vináttan í þessu qvenna ást, því sídan hann Kári vinur minn feck hjá mér bón sína, hefi eg eckert til hans spurt, nema ad mér er hann sagdur lífs.

XXXII.

Smáhuga, eptirtölusamar manneskjur eru eins og litlar háls-mjóar flöskur. Þegar því litla, sem í þeim er, á út ad hella, þá skvettist þad út med vind-ropum.

XXXIII.

Eins og það er óhæverska að tala hlióð-skraf og hvísla í annara viðurvist, eins er það ósvinna að tala skarplegt við heimskann; hann skilur ecki meira af slíku, enn þó því væri hvísl-að í eyru á einhvörjum oðrum.

XXXIV.

Enginn foraktar fullkomlega siálfann sig, nema hann undir eins forakti allar manneskjur.

XXXV.

Sá, sem lygur, gjætir ecki að hvaða ó-mak hann tekur uppá sig. Til að styrkja með fyrstu ósannindin, þarf hann að finna upp hundrað onnur.

XXXVI.

Í því er heilt kóngs-ríki og hvort eitt bú lík, að sami er mátinn, sonu eru orsakir-nar, sem giora hvort-tveggja ríkt og blómstr-andi, ellegar koma þeim í niðurdrep og orbyrgð. Hyrðuleysi, óstjórn, sóunarsemi, óhóf og sæl-lífi er vís fordjorfun í hvorutveggjum. Þeg-ar búið er að eyða ollum peníngunum til ó-þarfa, og stundum ílls, þá verður að fara að stela, ræna, leggja á skatta, eða draga af hjú-unum, hvaðeð gjorir þá undirgéfnu lastafulla og auma, en deydir elsku þeirra til stjórnand-ans, verða þá mogl og ánægjuleysi almenn, hvor útvortis eður innvortis fjandmenn síðan nýta sér. Stjórnandinn sæi þetta, hefði hann ein-

hvørn sér velviljadann, sem segdi honum þad, og hann væri ei blindadur af maktinni, eda druckinn af sællifinu. Caligula, Neró og fleiri ómanneskjur í Róma-veldi létu drepa sek-ada og saklausa einasta til ad ná eignum þeirra ad sóa út. Sóunarsemi, (eda ef einhvørr vildi kalla þad svo, orlæti) Hinriks þridja Engla Kóngs kom honum til ad selja laust og fast, setja í pant lønd sín og kórónuna med, þángad til hofdíngs-skapurinn vard svo stór, edur réttara ad tala, datt svo fyrir of-urbord, ad hann átti ecki mat til nærsta máls, en vard med konu sinni og børnum ad fara betlandi klaustur af klaustri. Eptir ad hann hafdi margsvikid þegna sína, verid grimmur og rángsleitinn vid þá, og var kominn í stærsta forakt, rak hann sig loksins á, ad sú rétta Rikis-stjórn er, ad vera orlátur med hófi, giora rétt, og vera gódur vid þegna sína. Af óhófs orlæti og heimsku prakt er Frackland enn ad bíta úr nálinni, og Lúdvík Kóngur sextándi kom af því fyrir fáum árum und-ir bodulsøxina.

XXXVII.

Hatri gleyma margir, en fáir forakti.

XXXVIII.

Enginn ætti ad skammast sín fyrir ad játa, ad sér hefdi yfirsjest, því med ad med-kénna þad, segir hann sér hafi sídan farid fram í vitskunni.

LXIII.

## LXIII. Gátur.

46.) Arid. 47.) Pappír(*). 48.) Rykti. 49.) Hnackur. 50.) Trjá-floti.

51.) Enginn litur er mér í blídri prakt líkari enn morgunrodinn. Fúsust er eg til ad klæda meinleysid, þó straffar illmennskan sig líka opt móti vilja sínum med mér.

52.) A mínum stóra líkama hefi eg hid kaldasta sæt, og þó er eckert svo heitt þegar kaldast er.

53.) Hofudid á mér er ættad úr innstu fylsnum jardarinnar, þunnt framan, en þyckt ad aptanverdu. Búkurinn ór ofaná henni. Bædi til ad eydileggja, minda og festa eitt eda annad ljær þú mér þinn krapt, og eg ljæ þér minn.

54.) Eg er ólipur skepna, þúng og óbrádleg, skrid fótalaus á maganum, en hleyp samt stundum svo fljótt eins og vindur.

55.) Eg hefi engann blífanlegann samastad, því vindurinn feykir mér burt. Hvorsu þyckur

(*) Er gjørdur úr lerepts-rífum, en lereptid aptur úr hør. Þessi hør er gras, til hvørs sád er, þad vex á jørdunni, er sídan bleytt í vatni, þurkad vid eld eda sólar-hita, þareptir brotid svo skelin fari utanaf, og þá er þetta lín. Línid er spunnid og ofid, allir brúka lereptid, en þegar þad er útslitid, kaupa þad pappírs mylnu menn, og gjora úr því pappír, sem skrifad er á eda prentad, og þannig kemur lereptid aptur manna á milli.

þyckur, sem eg er, tjáir ei ad grípa mig. Látrú aptur augad, annars gjöri eg þér skada.

## Fimtudaginn, 18 Decembr.

## LXIV. Músar Sagan.

(Pær diktanir og dæmisøgur, sem eg hefi eudrum og sinnum lesid á qvøldin, eru skýladar undir nafni ýmsra dýra edur annara hluta, til þess þeir lærdómar, sem þaraf kunna ad dragast verdi því á heyrilegri og rótfastari, hjá hværjum, sem eptir vilja taka. Eitt af slíku er Músar nockurrar eptirfylgjandi æfisaga, hvørja eg hefi hitt í blødum mínum, og þar eg ei hafdi annad hendi lengra, las hana fyrir fólki minu í þetta sinn.)

Mús nockur, sem ordin var háøldrud og komin ad fótum fram, sá ad sínir lífdagar mundu snart enda taka, kalladi þessvegna til sín alla sína afkomendur, sem margir vóru ordnir, og taladi til þeirra þessum ordum:

Mín kjæru børn! ef nockur hlutur ætti ad uppvekja hjá mér eptirsjón á lífinu, þá væri þad sá háski, sem eg sje þid erud í stødd nú þá eg skil vid yckur; en eg vona svo gódsó til yckar, ad þid látid mín sídustu ord yckur í eyrum loda, og hlýdid mínum rádum. Ef þid fylgid þeim þá getid þid komist til hárrar og gódrar elli eins og eg. Til ad upphefja yckur til hlýdni, vil eg segja yckur mína æfisøgu: Eg

Eg er borin og í heiminn fædd í því sama húsi, sem við enn nú búum í, en eg hefi síed í því margar umbreytingar. Þegar eg kom til, bjó hér úng norsk Frú, sem ekki vissi aura sinna tal. Æ, börnin mín góð! þessarar Frúar hús, var sæluftaður og vellystínganna hýbýli-fyrir ockur vesælings mýslur! hún héldt 20 manns í heimili, setti upp bord fyrir hvörn, sem þyggja vildi. Þið megið nærri géta, að þar hún héldt svo margt fólk einúngis til að þjóna sér, þá hafi hún ecki tekið uppá sig það ómak, að hafa umsjón í sínu húsi. Ráðsmaðurinn, ráðskonan og feitur kockur áttu að kaupa inn matvæli og hagtæra þeim, en hamíngjan má vita hvörninn þau fóru að því. Öll þessi þrjú tóku peninga af þeim Kaupmönnum, sem seldu allt hvað þurfti til hússins, og þessvegna var það þeirra ábati, að sem mest gengi upp. Mikið var bordað, en meira géck til ónýtis, og þá áttum við mýslurnar gott, nóg að eta, og óttalausar að öllu. Þá vildum við ecki hraknýta leifar eda molana, því við gátum fyllt ockur, og gengið í því, sem best var, og vórum látnar draga burt hvad sem við vildum. Tveir feitir kettir áttu að hafa vardhald í kockhúsinu, en þeir skiptu sér eckert af ockur, og sváfu sætt og rótt á milli þess þeir steyttu út vömbina með kræsilegum máltíðum. Eg gjæti sagt yckur, börnin mín! margar skrýtilegar sögur um það, sem skédi í úngdæmi mínu. Eg kom til í kam-

kamersi ráðs-konunnar, og þar var það, sem allir henni undirgéfnir komu að láta henni, en hún gegndi þeim optast með óþolandi stollti. Stundum virdtist hún að líta náðugu auga til þeirra, þegar þeir svo gott, sem tilbáðu hana, en hún galdt þeim síðan fullum gjöldum aud-mýktina; hún var sá besta konu-kind, sem verða kunni að fráteknu stolltinu. Hún vildi að það skyldi sjá á útliti hjúanna, að húsmóðirin, væri rík, og var ætíð gjörn á að gjora bón þeirra, sem litils þurftu við. Kocka-píkurnar áttu að láta sér nægja með grautar-slembru á morgn-ana, en áttu ecki að fá thee. Ráðs-konan hafði þá svo sterkt hjá sér, og bætti svo opt í theekonnuna aptur, að stúlku-sképnurnar fengu sæmilega sterkt thee af því, sem hún leifði. Lykillinn stóð optast í skápnum, sem hún geymdi sykrið í, svo hægt var að því að komast, og þegar hún sá, að af því hafði verið stolið, sagði hún hlæandi: óh! allir verða að lifa! hún var svo góðsom, að hún gaf öllum rjóma til að drecka með theeinu. Satt er það, að ecki þordi hún að setja svo mikinn rjóma í reikninginn, ef það hefði einhvörntíma kunnað að koma að húsmóðurinni að líta í hann, en hún reiknaði átta potta mjólkur, í staðinn fyrir tvo, og svo komst allt heim. Eg mætti lengi að vera, ef eg ætti að segja yckur frá öllum þeim ógnarlegu skémdum og eydslu, sem þessi kona og hennar áhángendur gjördu, en hvörsu, sem við gömlu konurnar erum smál-ugar,

ugar, þegar við forum framt fornu aldirnar, þá skal eg þó hér við hætta.

Það var þá undir þessarar konu makt-ar veldi, sem eg eyddi mínum fyrstu úngdóms árum, en til allrar ólucku hvarf þessi sæla eins og draumur, hvaraf eckert verdur eptir, nema madur man til hans. Húsmódirin hafdi ecki passad útgiftirnar eptir inntektunum, vissi því ecki til fyrr enn hún var ordin orsnaud. Hún neyddist þá til að flytja sig útá lands-bygdina, en adrir komu til ad búa í húsinu, er hún hafdi í verid. Vegna þess eg hafdi þá eckert reynt, brá mér litid vid þessa umbreyting, svo sem hún kjæmi eckert vid mig, en eg var eigi lengi ad sjá í hvorja ógjæfu eg var komin. Mín nýja húsmódir héldt eins margt fólk og sú fyrri, og þó var svoddan regla á ollu í húsinu, eins og þar hefdu ei verid fleiri enn tvær manneskjur. Þessi kona umturnadi svo allri gódri reglu, en passadi sjálf uppá það, sem hún átti, og trúdi engum nema sjálfri sér fyrir búskapar sokunum; sykur, speserí og annad þvílíkt læsti hún inní litlu kamersi, sem hún hafdi sjálf hjá sér lykilinn ad. Hún vissi uppá eitt hár hvad til hvors hlutar géck, svo þad var ómogulegt ad leika á hana, í hvorsu litlum hlut, sem var. Hún vildi, ad nóg skyldi vera af ollu og allt praktugt, en vildi ecki lída ad hid allraminnsta færi ad forgordum. Fljótt hafdi eg ecki til vidurværis nema smá agnir sem duttu af bordum hjúanna, ecki svo mikid,

sem einn ost-mola eda staup af kértis-skari; allt var hirdt og nýtt. „Bannsett kérling-„ar-skruckan!" sagdi eg í brædi minni: „hvert „skyldi trúa því, sem sjer ógnar veitslurnar, „sem hér eru uppsettar, ad þú skulir láta svodd-„an sképnu-mor svelta hjá þér, sem ecki þarf „meira enn eg!" stundum hughreysti eg mig med því, ad þetta mundi ecki lengi standa, en mér vard ecki ad því. Þeir tveir fridsömu kéttir, sem eg ádan nefndi hofdu ecki skilid vid húsid, en vóru ordnir sár dauflegir á svipinn. Mér var forvitni á ad vita hvad þeir þenktu um allt þetta, og eitt qvøld þegar þeir vóru mikid makrádir á eintali, fór eg útí holudyrn-ar mínar ad hlusta til hvad þeir væru ad tala.

„Þad er þá stadrádid fyrir þér ad fara „burt úr þessu húsi, sem þú ert borinn og „barnfæddur í," sagdi sá yngri kotturinn til þess eldra? „hvørninn gét eg haldist hér vid „lengur," svaradi hinn med mesta ólundar-tón. „Sjerdu ecki, ad eg er eigi ordinn nema „skinin beinin, af þeirri sulltar-kostu, sem hér „er løgd á mig?" en, svaradi sá yngri: „er „þá enginn hjálpar-vegur ad vera hér lengur? „hvørninn sem kockurinn vill passa uppá treysti „eg mér samt bædi med lymsku og árædi til, „ad géta krytjad mér nockud; þar ad auki er „húsmódirinn ordin fjørgomul, þad bídur ecki „lengi þángad til hún stockur af, og þá batn-„ar fyrir ockur." „Þess er engin von," svar-adi gamli køtturinn, „því þú skalt vita ad „ockar

„ockar ólucka hefir hingad sendt svenska konu, „og þess vegna er einkis góds ad vænta; „Frúrnar í hennar landi hugsa, ad þær egi „ad hafa umsjón med þeirra húsi, þær útvelja „svo vel, og hafa svo nágvæma adgjætni á „þeirra þjónustu-fólki, ad þær verda sjaldan „sviknar. Þær venja þad á hentisemi og rètta „reglu, og kockurinn þessi hefir nú verid hjá „henni í 10 ár, svo hann er ordinn fullvaninn „eptir henni, og mun stránglega hefna, ef frá „honum væri stolid. Eg er viss um, ad þad „mundi kosta þann æruverdasta kott lífid, ef „hann sýndi sig í, ad krækja til sín einn mat-„ar-mola. Þar fyrir utan batar þad ekkert „fyrir ockur þó húsmódirin sè komin til ára „sinna. Þessar bannsettu svensku konur eru „svo sèrlundadar ad uppala dætur sínar til „búskapar forstands, eins og þær sjálfar hafa „verid vidvandar í þeirra barnæsku. Svensk-„ar höfdíngja dætur þykjast ecki gjöra sèr neina „vanvirdu med því ad taka hendi til hvors „sem þarf í búskapnum; þad er sífeldlega ver-„id ad prèdika þeim þad, ad til þess, ad „halda vid þeirri prakt, sem þeirra standi „sómir, verdi þær ad halda sèr frá óþarfa „útgiftum, ef þær egi ecki ad hleypa sèr í „skuldir, ad hjúin egi eckert ad bresta, enda „egi þau heldur engu ad spilla, og margar „adrar forneskju reglur, sem eru þeim inn-„prentadar frá barnæsku, svo þær sjaldan breyta „á móti þeim."

Þénari einhvørr kom í þessu inní kock-húsid, svo kéttirnir hættu samtalinu, en hvurfu burt daginn eptir. Eg var þá úng, svo eg tók lángtum minna eptir því, sem sá eldri sagdi, og þar eg gat ecki lengur lagt á mig ad svellta eins og eg hafdi þángad til ordid ad gjora, einsetti eg mér ad fara ad lifa á hand-abla mínum, hvad sem þad kostadi. Lengi var eg ad bera mig ad komast inní kamersid, sem Frúin geymdi í sitt speserii, en þegar eg komst þángad, launadi eg sjálfri mér lánga föstu med þeirri bestu veitslu, sem upphugsast kunni. Medan eg var ad giora mér til góda, rann mér stundum í hug, ad mikid vogunarspil væri þetta, og þá skalf eg og titradi, ad þjófnad-urinn kynni komast upp um mig; en eg sló því strax aptur úr þánka mínum, því eg hugs-adi, ad allt mundi gánga eins og ádur var vant, eg hafdi nockrum hundradsinnum stolid frá rádskonunni, sem eg fyrr umtaladi, og hafdi hún ecki virdt sig þess, ad vilja í minnsta máta koma í veg fyrir þad. En heimsk var eg! eg vissi ecki hvørsu stór munur er á auga húsmódurinnar sjálfrar og matselju hennar, en eg féck ad læra þad eptir á med mínum egin skada! eg var ordin djørf, af því mér luckadist svo vel í fyrsta sinn, og kom daginn eptir í þetta ólucku kamers, en þad fyrsta, sem eg sá þar, var lítill stockur opinn á bád-um endum, í hvørjum midjum var bita-korn af steiktu flesi; eg rann á lyktina, fór inní stock-

stockinn og beit í fleskid; en, o! þá ólucku! sem eins er núna fyrir hugskots sjónum mér, eins og þad hefdi skéd í gjær, og eru þó morg ár sídan! rétt í því eg kom vid bitann, féll hurdin fyrir dyrnar á þessum bolvada stocki, og lokadi mig inni, en hrædilegur smellur vard, og þá vard eg vonlaus um ad komast nockurn tíma lífs þadan. Þá margbolvadi eg grædginni úr mér, þá lofadi eg af hjartá bót og betrun, ef eg kjæmist úr þeim naudum, en eg hafdi ecki lángann tíma ad þenkja um mína hagi. Smellurinn, sem vard af því, ad músafellan datt, kalladi á húsmódurina, eg heyrdi þann skélfilega dóm af hennar munni, ad eg skyldi dreckjast, og einni þjónustu stúlkunni var skipad, ad fullkomna á mér dauda-dóminn. Eg sje ad hárin standa á hofdinu á yckur, bornin mín! hér sýndist eins og enginn hlutur gjæti frelsad mig! samt slapp eg af ambogu-hætti og handa-skolum þeirrar, sem átti ad stytta lífdagá mína. Þá vard eg hyggin af reynslunni, og bar mig af ollum kroptum ad sporna vid þeim glæp, sem nærri var búinn ad olla dauda mínum. Eg fór eptir þad aldrei útúr minni holu, nema med mestu varkárni, og fór aldrei lengra enn í kockhúsid. Ecki gét eg neitad því, ad þetta bindindi, sem eg nú vard ad leggja á mig sýndist mér í fyrstu verra enn daudinn, hvorn eg hafdi haft fyrir augunum, en vaninn gjordi þad allt sætt, og jafnvel fann eg þad sídar á mér, ad eg vard heilsubetri

betri af sparneytninni, svo eg þackadi luckunni, sem hafdi neydt mig til ad hafa mína matarlyst og kræsni í hófi. Eg hefi sjed barna-barna børn mín og jafnaldra minna, en fáar mýs hafa náð þeim aldri, sem náttúran hafdi þeim ætlad. Sjúkdómar hafa hrófflad þeim burt, sem sloppid hafa frá klóm kattarins og veidibrellum manneskjanna. En — eg finn ad farid er ad draga af mér! lifid þid vel, mín kjæru børn! fordíst þid eins og heitann eldinn ólucku kamersid, hvar daudinn er falinn undir hvørjum kræsinga-bita. Eg dey glød og ánægd, ef þid hlýdid mínum fortolum!

Naumast var þessi hygginda-fulla mús búin ad gefa upp andann, fyrr enn úngfólkinu þókti vænt um, ad nú væri þad frí frá noldri kérlíngarinnar, sem sífeldlega hafdi verid ad aptra þeim. Þad spottadi hennar ráð, og kalladi hennar sparneytni nápínuskap, en hennar varúd dádleysi. Þad fann veginn til kamersins og múrvegginum af þrefoldum pappír, sem bundinn var til varnar ofan yfir kruckurnar, vard gegnum nagadur, hvor mús óskadi þá annari til lucku, og héldu sér bestu veitslu med mikilli kátínu, segjandi: ad ecki væri svo mikid ad óttast, sem kérlíngin hefdi rausad. En gledin vard stutt. Einn kottur og tveir fjala-kéttir vóru látnir í kamersid, svo ad ádur enn vikan var til enda, var ecki eptir ein mús af ollum þeim, sem høfdu forsómad ráð og reynslu lángommu sinnar.

Þessi

Þessi dæmisaga má endast med því, ad foreldranna yfirsjónir verdi børnunum sjaldan til varúdar.

## Føstudaginn 19 Decembr.

## LXV. Dæmisøgur.

### 26.) Sér grefur grøf þó grafi.

Tóa kom til Asnans, þar sem hann var ad bíta þystla í haganum, ávarpadi hann kompánlega, og sagdi: heill og sæll, vinur minn! ecki sjer annad á þér, enn þú sért enn þá úngur, þó grái kjöllinn þinn sé farinn ad eldast, og sjá vil eg þann úngann asna, sem hafi svo tígugleg eyru eins og þú, eda reisi þau lifleg-ar. Alltjend ertú si-lystugur! littú upp! þetta er mikid fagurt morgun vedur! hvad egum vid nú ad hafa ockur til skémtunar? hvad sýnist þér um þad, ad vid forum bædi ad sjá ockur um hérna í skóginum? hvad er þar ad sjá, svaradi vinurinn? þá allra fallegustu øsnu, sagdi Skolli, margur hestur hefir hvíad ad henni, sem hún hefir ecki viljad líta til, en þér tekur hún strax. Mikid fagurt rennur sólin upp í heidi núna, sagdi Tóa, héldt áfram med Asnanum, og lét dæluna gánga, eins og falsvina háttur er. Í því mættu þau dýra Kónginum sjálfum, Ljóninu, sem var húngrad og ólmt af brædi. Asninn misti allann dug og mál, titradi, ætladi ad hlaupa, en datt

um sjálfann sig; honum var þad ecki heldur láandi, því Ljónid var óttalegt. Tóa lét eckert á sér festa, en sagdi: sæl er eg þess, Herra! ad eg fann Ydur svo fljótt, því eg var nú á ferdinni til Ydar; ad færa Ydar Hátign í morgun-katt þann besta asna, sem er til, skodid Þér holdahnydjuna þarna! Ljónid snuggadi vid, og sagdi: eg ætla ad hafa hann i middags-mat, en þú sjálf skalt verda morgunkatturinn minn; og í því reif Tóu í sundur.

Svikarann hata allir, en flestir nýta sér svikin.

## 27.) Aldrei er gótt oflaunad, nema illt komi á móti.

Svala nockur sá, ad Hæna hafdi tekid höggorms-egg til ad liggja á. Æ! vesælinur, sagdi Svalan, bornin, sem þú ert ad klekja út munu innan þriggja daga verda þinn bani. Hænan trúdi ei þessari vidvørun en reyndi seinna med sínum og sinna skada, ad hún var alltof sønn.

## 28.) Flestir kjósa firdar líf.

Fátækur madur nockurr fjørgamall, heilsulaus og aumur, vard ad lifa á því, ad safna saman qvistum í skóginum, og selja. Einusinni þegar hann fór heim til kofa síns þreyttur og stynjandi, datt hann undir bagganum, og fór þá ad hugsa um sitt vesældar ástand, volandi og bidjandi daudann ad frelsa sig frá þessari

stóru, óbærilegu og sífeldu mædu. Daudinn kom, og spurdi hvad þessi madur vildi sér? ecki annad, svaradi hinn gamli, og ydradist þá óskar sinnar — ecki annad, enn eg vildi bidja ydur ad lypta bagganum uppá bakid á mér.

29.) Húsbóndans auga sier best.

Hjörtur nockurr komst á hlaupum undan veidimanna hundum inní fjós, og beiddi kýrnar ad lofa sér ad felast þar, en hét þeim aptur á mót ad vísa þeim á bestu grasbeit, þegar þær kjæmu til hans. Þær sögdu honum strax, ad best væri hann fengi sér annad óhultara fylsni, samt lofudu þær, ad leggja ecki til, þó hann væri þar. Hann leitadi sér sídan ad hentugasta stad til ad fela sig í, og þóttist nú vera búinn ad koma sér vel fyrir. Um qvöldid var ad vanda gésid á alla básá; heimilisfólkid géck til og frá um fjósid, og sinna erinda uppí suma básana; fjósamadurinn gégndi öllum sidvanalegum athöfnum, og sópadi upp fyrir hvorri kú; rádsmadurinn sjálfur kom til ad líta yfir hvörninn framfæri; mjaltirnar og eptirgjöfin lidu líka, svo eckert bar á Hyrtinum, þóktist hann því úr öllum háska sloppinn, og fór ad þacka kúnum hvörsu vel þær höfdu leynt honum. Þá svaradi ein þeirra hálf-jórtrandi: enn þá fer vel! en þegar madurinn med hundrad augun kémur, þá er eg hrædd um þig, og fyrr skaltú ecki hrósa happi

þinu, enn hann er burt aptur. J þvi sama kom húsbóndinn, og fór ad skoda umgánginn í fjósinu. Þarna er, sagdi hann vid fjósamanninn, illa sópad upp; þarna hefir þú ecki skarad skarninu framúr básnum; taktú þarna frá henni Reydur og gêfdu henni Hyrnu; hefi eg ecki einatt sagt þér ad láta ecki rekuna standa þarna? hún Húfa hefir stækt sig í nidurbandinu; passar þú ecki betur uppá enn svona? í því hann þannig var ad sjá eptir øllu, vard honum litid á horn í einum básnum, þreyfadi fyrir sér, fann hvørr gêstur var kominn, og lét strax kalla á fólkid, sem banadi Hyrtinum, af hvørjum húsbóndinn fêck marga góda máltid.

## 30.) Satt er svo gott, ad ecki megi neitt adfinna.

Þvi meira, sem eg gjæti ad því, því heldur rekur mig í ramma stans, ad manneskjan skuli vera svo ósannsýn ad forakta mig, sagdi Asninn. Eg gjøri honum mikid gagn, er vinnusamur, fæ aldrei hvíld, og ber stødlega bagga mína; ad gêdslagi til er eg þolinnmódur og gjæfur, svo hvad, sem útréttast á, og til allra addrátta er strax farid ad leggja á Asna. Vidurværi mitt kostar ecki mikid, því þegar eg kém úr ferdinni, er eg ánægdur med þistilblad, og skil eg ecki hvadan manneskjurnar taka þad, ad virda mig so lítils. Þó ecki sé eg brádskarpur, þá fer sumum hvørjum manneskjunum illa ad kasta á mig þúngum steini fyr-

fyrir þad, og allteins þó náttúran hafi ecki gefid mér þad nettasta vaxtarlag, ellegar þó einhvorr sumarfuglinn syngi betur enn eg. Æ! taladu ecki um ad tarna, laggsmadur! svaradi Svín, sem þar var nálægt: manneskjan er hrædilega ósanngjörn vid ockur! af því hún hefir einhvorntíma séd ad eg velti mér í for, þá hefir hún brúkad nafnid mitt, til ad brixla med um þann brest, sem þú veitst sjálfur, og samt etur hún mig á eptir óþacklætis kindin sú arna. En svona má lýsa vondskunni: hún gjætir ad fólki alltíd á þann kantinn, hvar einhvor ávirdíngin finnst.

31.) Betra er sjálfur ad hafa, enn barn sitt edr bródur ad bidja.

Fadir nockurr, sem var gódsamari enn hann var forsjáll til, skipti ollum sínum eignum milli barna sinna, því hann hugsadi þau mundu verda þess þacklátari, þar bædi væri þad náttúrleg skylda þeirra, og líka ætti hann þad skilid fyrir svo stóra velgjörd. En honum vard ad ödru! því þegar börnin áttu einkis meira von hjá fødurnum, skiptu þau sér eckert af honum, svo hann komst í neyd og vesæld. Í þessari armædu fann hann uppá rád, sem dugdi: hann kalladi til sín oll sín börn, sýndi þeim kistil, sem var vandlega innsigladur, og sagdi vid þau: hér á eg í þá dýrmætustu gimsteina og gripi, sem eg vil ad ætíd séu í ættinni, og sem eg ecki skipta á milli yckar um

árid, Því eg vissa ecki hvorninn Þid mundud med Þá fara, en eg ætla ad ánafna Þá Því af børnum mínum, sem gjørir mér mest gott. Børnin bættu vel ráð sitt, og gjørdu honum allt Þad gott, sem Þau gátu, allt til dauða-dags, Þared Þau hugsudu sér ábatavon í Því. Eptir ad búid var ad jardsetja fødurinn, var kistillinn med mikilli eptirlaungun opnadur, en í honum fannst ecki nema hamar og stór nagli, Þar hjá var sedill med Þessum ordum: „Þad „er minn vilji, og eg skipa, ad héreptir se „Þessi nagli rekinn igégnum høfudid á Þeim „sem er svo vitlaus, ad láta burt eignir sínar „í lifanda lífi til hvørs heldst, sem vera kynni.“

## 32.) Fátt er of vandlega hugad.

Skytta nockurr sá tóu á hlaupum, og gat komist eptir hvar grenid hennar var, gróf tál-grof skammt Þar frá, Þakti hana vel med smá-qvistum og laufum, lagdi Þar agn, faldi sig sídan skammt burtu, og beid Þar til tóa tæki Þad. Skømmu Þar eptir kom tóa úr greni sínu fann Þefinn af agninu, og hljóp ad skoda Þad, fór samt ecki lengra enn ad grøfinni, Því hún hugsadi Þar mundi svik búa undir, og gékk burt. Strax eptir kom húngradur ljón-pardus Þángad, rann á lyktina, og datt í grøfjuna, í Því hann ætladi ad gleipa agnid. Þegar skyttann heyrdi skrudnínginn af Þessu falli hljóp hann ofaní grøfina án Þess ad at-huga hvad í henni var, Því hann Þóktist viss

uppá þad væri tóa, en ljónparðusinn reif hann í hel, strax sem hann kom ofaní gryfiuna.

33.) Ecki tjáir ad deila vid Dómarann.

Ærin bar einusinni upp qveinstafi sína vid smalamanninn ad hann færi illa med hana, léti mjólka hana qvøld og morgna, rúdi af henni ullina, og ofaná þad slátradi lømbum hennar. Smaladurinn svaradi: þad stendur ecki einasta í mínu valdi, ad gjøra allt þetta, sem þú nú taldir upp, heldur skal eg þar ad auk drepa þig siálfa, ef þú vogar ad tala nockurt ord. Þegar Ærin heyrdi þad, þagnadi hún, og hætti ad qvarta yfir sínum kjørum.

34.) Þrá er þussa einkunn.

Um nóttina var Náttuglan ad virda fyrir sér túnglid og sagdi: „undarlegt er, ad nockrir „gèti verid svo heimskur ad segja sólin sé bjart„ari. „Ertú blind?“ sagdi Haninn, „gjættu „betur ad!“ en hvad, sem Haninn sagdi, stód Náttuglan fast á sama eins og sá þrákjálki, sem einusinni hefir mis-talad sig, en er svo stolltur og heimskur, vd hann vill ecki lagfæra þad aptur. Medan Haninn og Náttuglan vóru ad kýtast um þetta, kom morgunrodinn, sem gjørdi túnglid ná-bleikt, Uglan lét ecki undan ad heldur. Sólin kom upp, þá sást túnglid ei lengur fyrir hennar birtu: nú skyldu allir hafa hugsad ad Náttuglan mundi sleppa sínu þrái. Nei! lángt frá! hún flúdi í holu sína,

sína, og þángað til hún lagði saman augun, skrækti alltaf að tánglið væri bjartara.

35.) Lengi má ljúfur syndga.

Maður nockurr átti tvo kétti, hvítann og svartann. Húsbóndinn héldt mikið uppá þann hvíta er hét Mjaldur, hann stal ollu steini léttara, og fór aldrei frá ofn-stónni, eda úr rúminu, nema þegar hann var í búrinu að veiða ofanaf trognunum, og krytja sér eitthvað. Hinn svarti þorði aldrei að láta sjá sig, því hánn var rekinn burt með hrísla, og stundum lurk. Vesælings Kolur, (því það var nafn hans) qvaldist af að sjá hvað hann var aparundan, og hugsaði með sér: „ecki skil eg hvað „hann Mjaldur hefir framyfir mig, nema ef „það er liturinn? og er þá einátt flagð undir „fogru skinni. Alltjend er verið að strjúka „hann, og húsbóndinn líður honum allt, en „eg sæ ecki að koma inn yfir þverann þrep-„skjold, þó hefir hann Mjaldur aldrei veidt „mús, því síður volsku, því hann er mesti „ónytjúngur; eg tek þær, en honum er hrósað „fyrir það; aptur á mót þegar hann stelur „góðum bita, þá er mér alltjafnt kennt um. „Eg skal svo sannarlega, sem eg heiti Kolur, „hefna mín, eg veit lika hvorninn eg skal fara „að því. Eg skal ecki gjora neitt, en láta „mys og volskur fjolga svo sem þær vilja, þá „verður húsbóndinn reiður og ber ockur báda. „Olluvel! eg er ánægður með það að hann „Mjald-

„Mjaldur sái helmínginn af høggunum!“ Kolur gjørdi eins og hann hafdi áſett ſer. Mys og volſkür urdu eins og úi og grúi, riſu og tættu alltſaman ſtraſſlauſt. Húſsbóndinn vard reidur, eins og Kolur hafdi tilætlad. En yfir hvørn kottinn kom ſtraffid? einaſta yfir hann Kol.

Þetta kénnir, ad margur grefur ødrum gröf, ſem hann dettur í ſjálfur, og ad vér eigum ecki ad þreytaſt gott ad gjøra.

36.) Sínum augum litur hvørr á ſylfrid.

Tveir Fugla-fángarar vóru á ferd; ſáſtú, ſagdi annar, þann dæilega fugl, ſem ſat þarna á húſinu? gjættir þú ad ſidrinu á honum? ſvo fallegann lit hefi eg aldrei á æfi minni ſjed, og eg héld víſt þad hafi verid Fugla-kóngurinn, því audſjed var, ad hann hafdi kórónu á høfdinu. Nei, ſvaradi hinn, ecki ſá eg hann, enn eg ſá einhvørs ſlags valſkann Hana, ſem var mikid ønuglega vaxinn. Høfudid var ofur-pervíſalegt, og líklegt ad litid vit hafi í því verid. En hvad rauſtin var ljót, ſem fyllti upp loptid med ámátlegum ſkrækjum, ſvo mér er nærri illt í eyrunum eptir enn þá! eda gjættir þú ad, hvad vidbjódslegir fæturnir á honum vóru?

Þad var Páfuglinn, hvørjum bádir þeſſir vóru ad lýſa; annar færdi til allt hvad fallegt var á honum, en hinn øll lytin. Þannig eru mannanna dómar í veraldinni ýmislegir, þeir lita hvørr á ſinn kantinn.

Qvøldvøkum þessum til prýdis, læt eg hér fylgja tvær Dæmisøgur ens nafnfræga Gellerts, útlagdar af Prestinum Síra Jóni Þorlákssyni á Bægisá:

37.) Land enna Hølltu.

Lagid er: Hafur þurft' ecki' ad hugsa'um meir.

Fordum eitt lítid land til var, lísandi sást ei nockurt þar, óstamad talad ord sem feck, og ei halltradi þegar geck. Agjæti mat þad innlend drótt, adkomnum sýndist manni ljótt. Hann þenkti:, hjer mun øldinn øll undrast hvørnig eg spránga vøll.

2. Med stýfsum fótum stord hann trad, starsýnt vard hvørjum manni á þad, allir, sem komu anga á reck, ad honum hlóu nær hann geck, flissandi stódu, og Ferda-láng fallegri, søgdu, kjennid gáng! ámæli þad med øllu villt af ser ad reka mat hann skyldt.

3. Hann qvad: Þer halltrid, en eg ei, af skyldi lagt þad vana grey. Uxu þá skollin miklu meir, málfæri gjesis nær heyrdu þeir. Hann stamar ei, en stillir tal, ad stóru bríxli vard þad hal, fyrir rett ord og fótatak forsmán allt landid á hann rak.

* * *

4. Vaninn gjørir, ad vømm er fríd, vjer sem frá barndóms sjáum tíd, verk þad forgefins vogad er, vitsmuni þó sá meiri ber, heimsku vorrar oss segi sann. Sjálfir køllum vjer dára þann, einasta fyrir orsøk þá, ad honum vit er meira hjá.

38.)

## 38.) Sá gudhræddi Hershøfdíngi.

Lagid er: A mædda meyjar brún.

1. Hædandi helga trú
Høfdíngi, Thrón sem bar,
(Munu' ecki margir nú
Makar hans sitja þar?)
Eitt sinn há-aldradann,
Unnanda kristnum sid
Um hana hreystimann
Hraklegá ræddi vid

2. Hádfullum hætti mjøg,
Sem hlær einn stolltur af,
Sá enginn altar løg,
Utan þau sjálfur gaf.

Hershøfd. Þer, Stillir! sturlid, qvad
Strídshetjan, mína trú,
Og berid Ydur ad,
Ordinn fjør-gamlann nú.

3. Lífshuggun, líkn í deyd
Laungum ad svipta mig.
Illt hvad þess af mer leid
Ydar Tign konúnglig?

Kóngur. Alls eckert, Kóngur qvad,
Kappa þer berid megn
Og crud (eg veit þad)
Minn ágætasti þegn,

4. Einsøld en óuhgt trú
Ef þar er skilin frá.
Legg hana nidur nú!

Hershøfd. „Nei! aldrei læt eg þá"

Kóngur. En ef eg ydur þad
Alvøru býd af rót?
Hershøfd. „Ei heldur, Kappinn qvad,
„Kóngs skyldu slíkt er mót.
5. „Gud Drottinn yfir á
„Eignar-rád minni sál,
„En øllum foldar frá
„Furstum er dæmt þad mál."
Kóngur. En hvad? ef ættum vjer
A ydar lífi rád?
Hershøfd. Hinn qvad: „þau egid Þer.
„Því hef eg traustri dád.
6. „Margt Ydar vegna vid
„Vogad, minn Herra! slag.
„Og undir hvíss grid
„Væru Guds fyrir, í dag."
Kóngur. Ganti! (qvad Gilfi') en ef
Gud sá er enginn til?
En ef eg ydur gef
Um þetta frædslu skil?
Hershøfd. 7. „Þá æski eg, ecki seinn,
„Ad fara í skjelmirs ham
„Og se Gud ecki neinn,
„Ei heldur skeytti Gram.
„Morg þúsund mundu þá
„Mjer líkir verda í her.
„Afsprettur ardur sá
„O Prins! því kjennid Þer."

---

Laugardaginn, 20 Decembr.

## LXVI. Edlis þýngd manneſkju í vatni.

Börn mín eru ſvo vantrúud ordin um aptrgaungur, vofur, forynjur, áløg, galdra og hvada nøfn, ſem hindurvitnid hefir uppſundid at þau ſpottaſt ad ſlíku, og í qvøld, þegar eg kom inn i badſtofuna, heyrdi eg ad hann Magnús litli var ad hlæa ad þeirri rokſemd, ſem í fyrndinni var tídkud til ad ſannfæra med grunadar manneſkjur um galdra medferd, ad þeim var kaſtad í vatn. Ef ſá misgrunadi flaut ofaná, var hann kalladur ſannur ad ſøk, en ef hann ſøck, þá þurfti fleiri og meiri ſannfæringar til ad áfella hann. Þetta ſagdi Magnús minn hefdi mikid gétad komid uppá klædaſnidid, því ſitt ſé hvad, ef ber eda ſnøggklædd manneſkja ditti í vatn, ellegar madur í kápu, eda kona í morgum pillſum, ſem vindurinn ſtendur undir, og fyllir upp; en Lýdur litli héldt ad ſvo framarlega, ſem fotin hefdu ei verid ſérlega til þeſs búin, mundu þau ecki hafa gétad haldid uppi í vatninu heilum manns þúnga. Þegar eg kom þar ad, var þetta efni undir mig borid, og eg bedinn ad leggja á úrſkurdinn. Eg var á Magnúſa máli, og færdi því til ſtyrkíngar eptirfylgjandi rokſemdir:

Þýngd hvørs eins hlutar kann med tvennu móti ad álítaſt, bædi í tilliti til ſtærdarinnar og líka í ſamjøfnudi vid adra hluti. Hin

 fyrri

fyrri slags, er eg kalla stærdar þyngd, kémur af, ad þvi meira, sem er af sama slags hlut, þvi meiri er Þyngdin. Þannig eru átta rikisdalir þyngri enn einn, heill bjálki þyngri enn træspónn, og fjórdúngs-fata full med vatn þyngri enn merkur-ílát af vatni. Aptur á mót er jafnstórt stycki af ymislegum hlutum misjafnt ad þýngslum, og þad kalla eg edlis-þyngd (Gravitas specifica), t. d. merkur ílát af speśiu-peníngum, eda þó enn heldur af brœddu eda steyptu sylfri er þyngra enn jafnmikid af járni, steinum, moldu, vatni, mjólk, rjóma, smjöri, floti eda ædardún; þannig er jafnstór rymd af vatni, þvi nær 20 sinnum léttari enn gull, og þess edlis þyngri hvörr einn hlutur er, sem i vatn eda fljótandi log er látinn, þess minna rúm fyllir hann, og þvi fljótar sockur hann til botns; þaradauk missir svoddann hlutur i logunum af vigt sinni eins mikid og logurinn vegur, er frá honum rymist, t. d. ef steinn er fyrst á vog veginn, sidan látinn i vatn, og þar i aptur veginn, þá er hann svo miklu léttari i vatninu, sem þad vatn vegur, er fyllir jafnstórt rúm og steininn, eda hvörr annar hlutur, sem i vatninu sockur; þó er, eginlega ad tala, steininn ecki ordinn léttari i vatninu, heldur lyptir vatnid undir hann, og ber svo mikid af þúnga hans, sem ádur er sagt. Af þessari edlis þyngd fann Spekingurinn Archímedes svikin i gull-kórónunni, sem Hieró Kóngur lét smida. Kóngs-

urinn

urinn hafdi fengid smídnum 36 merkur af gulli, sem smídast átti úr jafnvægis gullkóróna, hann skiladi henni, svo hún stód vel viat sína, en Kóngur hafdi grun um, ad smídurinn hefdi blandad gullid med sylfri, beiddi því Archimedes mælingar Speking ad ransaka þad, raska samt ei smídis-gripnum eda bræda hann upp. Archimedes hugsadi sig vel um þetta nockra daga; og einusinni þá hann á medán fór í kérlaug, tók hann eptir, hvada hinn ran vatnid gjördi líkamanum í ad sockva fljótt, og líka hvad mikid úr kérinu rann vid þad, ad líkaminn smásock í vatnid, var þad jafnt því rúmi, er líkami hans uppfyllti, þaraf hitti hann á þad rád, ad fylla annad minna vatnskér á barma, lét í þad gullkórónuna, rann þá nockud vatn út úr kéraldinu, sem næri má géta, þad vatn vóg hann á næma vog. Þá Spekingurinn hafdi kórónuna uppúr tekid, fyllti hann kéraldid enn á barma, lét sídan nidur í þad eins mikla þyngd af klára gulli, eins og kórónan hafdi vegid, sock þad miklu fljótar til botns, og minna vatn rann út úr ílátinu, hvört vatn Archimedes líka vóg náqvæmlega. Seinast fór hann allteins med jafnvægi kórónunnar af sylfri, og þá rann mest af vatninu útúr kéraldinu, en sylfrid sock hægast nidur, hvar af hann sá, ad jafnþúngt stycki af gulli þarf minna rúm enn sylfur, og ad jafnvægt stycki af sylfri er stærra um sig enn annad eins þúngt af gulli, þad er: ad gull

er-

er edlis þyngra enn sylfur, hann sá líka, ad gullid var sylfurblandad í kórónunni, og smidurinn hafdi undir sig dregid 24 merkur af gullinu, en svikid hitt med sylfri. Allteins má reyna edlis þyngd járns móti tólg eda tré eda hvorju sem er, med ad smída eda skéra jafnstór stycki af hvorju, og vega, ellegar láta jafnvægi af bádum í vatn, og skoda hvort munur er á rúmi því, sem hvorttveggja þarf. Þegar tveimur fljótandi hlutum er hellt saman, og annar flýtur ofaná, en hinn er á botni, þá kémur þad af ymislegri edlis þyngd þeirra, eins og rjómi setst ofaná mjólkur-trog, eda flot verdur ofaná sodi, líka þegar járni og tré er kastad ofaní vatn, þá sjest þeirra hluta edlis þyngd af, ad járnid, sem sockur, er þyngst, vatnid er þar nærst, en tréd léttast, þared þad flýtur ofaná vatninu. Sé tré og járn fest saman, þá vill járnid í vatninu til botns, en tréd fljóta; sé þá meiri partur járns, dregur þad tréd til botns med sér, en sé minna af járninu, þá flýtur tréd upp med þad, eins og vid sjáum á broddstaf med járnhólk á, ad broddurinn og hólkurinn vilja til botns, en skafurinn upp, svo eins er og þeir haldist á um hvorr sterkari sé. Héraf sjest, ad gjöra má járn-flösku, sem flýtur, því eg hefi ádur sagt yckur, hvad miklu edlis-léttara loptid sé enn vatn, þegar ná flösku-rúmid er stærra enn þess vatns, sem er ad þyngd eins og flaskan med loptinu í, þá flýtur hún, og hvorttveggja til

samans járn og lopt í henni verda edlis-léttara enn vatnid. Þegar vid heimfærum allt þetta uppá manneskju, sem kastad er í vatn, þá sjest: ad hvad miklu leiti gêtur verid náttúrlegt ad manns líkami fljóti eda sökvi í vatni. Hann er af ýmsu efni samsettur, sem sumt er edlis-þýngra, sumt edlis-léttara enn vatnid. Beinin, sinar og kjöt, er þýngra, enn sita mergur og lopt léttara enn vatn, svo ad magrar manneskjur og skëpnur sökva meir í vatn enn feitar, því er þad ecki einúngis af kraptaleysi ad mögrum gripum er hætt á sundi á vordag, heldur sökva þeir ëdlislega meir enn hinir feitu, sjest þaraf líka orsökin hvorrar vegna svín synda dýra best. Hér ad auk hafa lærdir menn ritad, ad þær manneskjur, sem hafi sína edur svo kallada hýsteriska sjúkdóma, sökvi eigi í vatni, hvad Pliníusi Náttúruspekíngi ei hefir verid ókunnu,,t (Hist. Nat. 7, 2) þaraf er þá audsjed, ad sú manneskja kynni til vera, sem hefdi svo mikid af létta efninu, ad hún gjæti ei í vatni sockid, og ad misjafnt sé hvad ein manneskja er í vatni léttari eda þýngri enn önnur jafnstór, og loksins er mögulegt ad blanda vatn med þeim hlutum, ad manneskja gêti ei í því sockid.

Fætur, læri, handleggir og höfud á manneskjunni, þad er: allir útlimir, eru minnst holir, beinamestir og þess vegna edlis-þýngstir, sem sökva í vatni, búkurinn aptur á mót er holari, sem inniheldur mikid af lopti, (einkum í

lúngunum) og fitu, sem er edlis-léttari enn vatn, Þó er í búknum hrygggurinn edlis-þyngstur, vegna mikilla beina og sina í honum. Þaraf kemur 1.) Sá sem vedur í vatni, vill til botns sockva, medan einasta fætur og læri hans eru nidri í vatninu. 2.) Þegar vatnid er komid nærri uppundir hondur, þá er á nockud feitum monnum nedri partur líkamans ordinn svo edlis-léttari, ad hann heldur sér upp í vatni, eda Því nær, Þad er: ad manneskjan vill fljóta uppi, og Þess vegna verda Þeir, sem djúpt ætla ad vada í laxveidum eda yfir um vatnsfall, ad bera Þúngt, eda láta eitthvad í vasa sina. 3.) Þá menn fljóta uppi vill bakid, svo sem edlis-Þyngra vita nidur í vatnid, en búkurinn upp. 4.) En Þá Þeir fljóta uppi, og Þeim kastar á bakid, Þá bætast axla- og hofud-Þyngslin vid, svo líkaminn, sem ad nedanverdu allur uppyfir handkrika var edlis-léttari enn vatnid og flaut ofaná, verdur Þarvid edlis-Þyngri, og manneskjan sockur í Því. 5.) Þó verdur ei mikill mismunur á edlisÞyngd manneskjunnar í vatni og sjálfs vatnsins, einkum sjóvatns, lærdir menn segja Þad sé á almennilegum manneskjum átta edur tíu marka, en í sjó ecki meir enn tveggja eda hálfrár annarar merkur munur ad Þyngd, svo ef manneskjan hafi Þad ad halda sér vid eda fljóta á í sjó, sem uppihaldi vel svo tveggja marka Þyngd, Þá sockvi hún ecki. 6.) Héraf sjest líka ad manneskjan traudlega sockur medan hún heldur nidri í sér

and-

andanum, hún þarf ei í sjó nema medal-máta staf til ad fljóta á, sé hann fastur framanundir brjóstinu, undir hökunni, eda sem best er, í munninum, og þvi eru svo mørg dæmi, ad skipsbrots-menn hafa komist af á árar-stubba, jafnvel sjá menn opt, ad kallmenn í þurrum kápum og qvennfólk, þegar vindur kémur undir føt þeirra, flýtur ofaná vatni, þartil fotin fara ad verda gagndrepa, og svo lítill verdurmismunur á edlis-þyngd manneskju og sjóarvatns, ad þeim, sem þarf sockva, skýtur strax upp aptur, þegar þeir í fallinu koma vid botninn. Þeir, sem ecki kunna ad synda, og vilja fara yfirum vatnsfall, eru hræddir um ad verda skipreika, eda eru á slæmum bát, þurfa ei annad enn festa í hid mesta átta uppbláſnar nautsblødrur á sig, en á sjó miklu færri, og festa þær jafnmargar á hvørja hlid undir handkrikana eda hökuna, þá svoddan manneskja ecki getur sockid. 7.) Eg sagdi ádan, ad sá hlutur, sem þyrfti meira rúm enn annar jafn þúngur væri edlis-léttari, þvi eru feitir menn edlis-léttari enn magrir, og medfram kémur þaraf, ad þúngadar konur fljóta í vatni, sem þeim hefir á stundum ordid ad fjori, þegar allir adrir hafa af skipreiki druckunad. Og loksins 8.) sjest héraf hvad hvikul røksemd sú var, sem fornøldin brúkadi til ad sannfæra med galdramenn; hafi þeir verid í hnipri, haldid nidri í sér andanum, edur svolgrad í sig lopt af hrædslu, líkt því er vér køllum ad súpa hveljur, fotin

verid laus ad þeim, svo nockur vindur hafi undir þeim verid, undirstraumur gengid í vatninu, eda þeir hafi med handleggjum og höndum dálitid tilhjálpad ad sockva ei strax, þá gat slík manneskja litla stund verid án þess ad sockva, og þó ecki farid med meiri galdur enn hún litla Kristrún þarna. Eg vil nú ei tala um hafi henni verid kastad á ská til, svo litid fall hafi ordid á líkamanum, vidlíka og þegar þid pilltarnir leikid yckur med ad kasta hellu-bladi á vatn, sem heitir ad flytja kérlingar. Þannig er eckert uppá þessa galdra sannfær-ingu ad byggja, og undarlegt mætti þykja, ad fyrir hérum 10 eda 12 árum vóru tvær mann-eskjur brenndar fyrir galdra medferd í Pólina-landi, uppá hvorjar eckert vard vitnad eda sannad, nema þær sucku ecki, þegar þeim var á vatn kastad; og þó eru enn eptir tvö tilfelli, sem ad sönnu eru moguleg, en sem eg ecki gjöri rád fyrir, ad í galdra reynslunni hafi átt heima, sem er, ad annadhvört hafi manneskjan ei gét-ad í vatni sockid, eda vatnid hafi svo verid, ad allar manneskjur hafi ordid í því ad fljóta.

Uppá hvorttveggja þetta skal eg segja yckur dæmi í annad sinn.

## *LXVII.* Gátur.

51.) Blygdunar-Rodmi. 52.) Jordin snjó-lögd. 53.) Hamar. 54.) Skip. 55.) Reykur.

56. Eg þarf litid ad eta, er smávaxin og ó-styrk; þó ofsækir manneskjan mig med eitri, járni

járni og fángelsi, og heldur ofstopa skepnur til ad myrda mig, er þó kostar lángtum meira ad fæda enn mig.

57.) Þú hefir aldrei heyrt mig né sjed; þó vard, og er úr mér heimurinn, og allt hvad þú í honum sjer.

58.) Hofudid á mér er uppmjótt, en fóturinn breidur. Þegar eg hef vid, brúka eg bláann klædnad. Eg vex af strái, en hefi hvørki hold né bein, er ecki málmur, ecki dýr, ecki leyr, ecki steinn eda tré. Látir þú mig ofnærri vatni, þá hverf eg, svo þú sjer ecki hvad af mér verdur.

59.) Þó eg sé sífeldlega fólginn í blód, þá ríd-ur þó einkis líf á því, en hvørsu litid blód, sem eg tek, er mér aldrei fyrirgéfid, heldur er útgjørt um líf mitt, ef eg ecki gét frelsad mig med ad taka undir mig stock.

60.) Adur var eg gras, nú er eg dupt. Eg hvílist í gulli, sylfri, horni, pappír, tré, eptir hvørs eins vilja og efnum. Sumir géta ecki vid mér litid, en adrir géta ecki án mín verid.

## Sunnudaginn, 21 Decembr.

## LXVIII. Eigi em eg Elías. Jóh. 1, 21.

Þegar eg í qvøld var ad spyrja børn mín úr prédikuninni, og leggja nidur fyrir þeim hvad skíra, skøruglega, og undir eins audmjúka játn-

íngu Jón Skírari hefdi gjört fyrir þeim er til hans vóru sendir frá ædsta Rádinu í Jerúsalem, þókti Lýdi litla ad ánsvar hans til Gydínganna uppá spurnínguna: ertú Elías? væri nockud svo ískyggilegt, vegna þeirra mörgu ritníngargreina, sem jafna Elíasi og Jóni Skírara saman. Þaraf spannst eptirfylgjandi samtal:

Lýdur. Hvornınn á þá ad skiljast þad sem sjálfur Jesús sagdi Matth. 11, 14: „Ef „þér viljid þad medtaka, þá er Jón Skírari „sá Elías er koma skal?"

Prestur. Þad má svo útleggjast: „trúid „þid mér til þess, ad Jón Skírari er sá „Elías, sem von er á ad koma muni."

Lýdur. Þá synist mér, Fadir minn gódur! ad Jesús segi fortakslaust þad satt ad vera, sem Jóhannes neitadi.

Prestur. Opt getur þad skéd, Lýdur minn! ad sama meina bádir, þó mikid beri milli orda þeirra, og svo var hér ástatt. Jesús vissi ad Gud hafdi lofad sá madur skyldi koma, sem eins og gamli Spámadurinn Elías, ætti ad prédika sanna Guds dýrkun, og þad loford ætti ad endast ádur enn Messías eda Krístur fullkomnadi sitt embætti, hann frædi þá Gydíngana og undir eins huggadi med ádurtédum ordum, og eins líka sína Lærisveina nockud seinna Matth. 17, 10-13 ad ecki þyrftu þeir annars Elías's ad vænta, enn þess, sem kominn væri, og sá væri enginn annar enn Jón Skírari. Þessi aptur á mót taladi rétt, þeg-

ar hann neitadi ad hann Elías væri, þad er sá sami Elías, sem í fyrndinni hafdi lifad, því sú var meiníng Pharisæanna, en þá er hverri einni spurníngu rétt svarad, þegar enn ansandi brúkar ordin í sömu merkíngu, sem hinn er spurdi.

Lhdur. Hvad gátu þá Gydíngar haft fyrir sér til ad vænta ad Elías hinn sami, sem burt var numinn, skyldi aptur koma?

Prestur. Malachías Spámadur hafdi í Guds orda stad sagt: „eg mun senda til ydar „Elías Spámann, ádur enn sá mikli og hrædi-„legi dagur Drottins kemur.“ Mal. 4, 5. (3, 23.). Gydíngum var tamt ad hánga í bókstafnum, þeir vóru svo nærsýnir í útleggíngum sínum, ad þó tilgángur þess, sem taladi eda skrifadi væri af atvikum og ástandi tilheyrendanna augljós, slepptu þeir samt opt meiníngunni, en diktudu eitthvad inní, til ad geta haldid fyrstu og eginlegri merkíngu hvørs ords, heldur enn ad víkja frá bókstafnum. Eins fóru þeir med þessa ritníngar-grein. Þau ord, sem næst koma eptir, gátu sýnt þeim, ad Gud ætladi ad senda þeim Spámann, sem, eins og Elías hafdi gjört, skyldi leida Gydíngana aptur til hinna gømlu sönnu trúarbragda, en í stadinn fyrir ad skilia fyrirheitid svo, diktudu þeir ad Elías enn gamli mundi skømmu fyrir Krists fædíngu koma aptur af himni ofaná jördina, í sama stad hvar hann fordum var uppnuminn, og ætti þá í sinni sídari til-

tilkomu ad smyrja Kríst og innvígja til embættisins. Þessu trúdu þeir eins og þad hefdi í Biblíunni stadid, og í þeirri trú styrktust þeir enn meir af því, ad í hinni algengu grísku útleggíngu, sem kallast gjörd vera af 70 túlkum, er vidbætt ord hinn Thesbíske, hvört ecki finnst í hófud-textanum, þad sat jafnvel lengi fram eptir öldunnum svo ríkt í kristnum mönnum, ad Elías ætti undir dóma-dag aptur ad koma, ad einn hinn lærdasti og skynsamasti medal Lærifedranna, Theophylactus, hefir skrifad: „nockrir segja ad Jón Gud-„spjallamadur sé enn á lífi, enn egi ad verda „líflátinn af Antikristinum þegar hann ásamt „med Elíasi fer ad prédika um Kríst." m. m.

Lýdur. Stendur þá í hebresku Biblíunni ad þessi Spámadur skyldi vera eins og Elías?

Prestur. Nei. En þad ord eins og undirskilst stundum í ritníngunni, og á þá í útleggíngunni ad tilsetjast, þar sem atvik og rædu-efnid útheimtir þad. Eg vil af morgum dæmum uppá þad segja þér þessi fáu 1 Mós. b. 16, 12. heitir þad um Ísmael: „hann mun verda „blíni asninn manneskja," þad er: hann mun ólmur madur verda eins og ótaminn asni edur villudýr. 2 Mós. b. 19, 4. „eg hefi borid ydur „ur á arnar-vængjum," þad er: eg hefi borid ydur eins og verid hefdi á arnar-vængjum. Opinb. b. 4, 6. „fyrir stólnum var glersjór;" þad er: fyrir framan hásætid var eins og glersjór. Jerem. 26, 18. „Zíon skal plægjast akur;"

þad

þad er: Zíons fjall mun plægt verda eins og þad væri akur. 1 Pét. 2, 4. „til lifanda steins;" þad er: þess, sem er eins og væri hann lifandi steinn; hefir líka vor Biblíu útlegging í bádum þessum seinast nefndu ritníngar-greinum med réttu bætt inni ordinu: svosem. Þessi dæmi eru þá nóg til ad sanna sögu mína, þó vil eg bæta einu vid, sem er um þenna sama Elías og Jón Skírara Lúc. 1, 17. þá Engillinn sagdi vid Zacharías, ad Jóhannes mundi koma á undann Drottni Gudi sínum (edur Messía) med eins kroptugri anda-gift eins og Elías.

Magnús. Þýdir þá ad framgánga í anda og krapti, sama og ad hafa mikla andar-gift?

Prestur. Ordid framgánga, sem hér brúkast, þýdir ýmist ad koma á undan, þéna undir einhvörn, vera honum til víka, eda og ad framqvæma sitt embætti, ega allar þær merkíngar vel vid efnid og Jóhannis ásigkomulag. En ordin andi og kraptur eru vandskildari vegna þeirra yfrid mörgu merkínga í hvörjum ordid andi tekst í ritníngunni. Hér sýnist mér sú þýdíng ega heima, hvar andi þýdir sinnis-gáfur, skilníng, helst þó ad því leiti, sem til embættis-verka þarf, og vér almennt köllum andar-gift, hvörjár gáfur ritníngin allvída tileinkar heilags Anda verkunum. Um sjálfann Jón Skírara heitir þad: Lúc. 1, 80. „hann „styrktist í anda"; þad er: honum fór fram í

námi og skilníngi. 2 Mós. b. 35, 31. Matth. 12, 18. Jób. 3, 34. Post. g. b. 6, 3. 5. 11, 24. og allteins skil eg ordid h. Anda fyrir andargift skommu ádur Lúc. 1, 15. „þegar í frá „módurqvidi mun hann uppfylltur verda af „h. Anda;" þad er: strax frá barnæsku mun heilagur Andi gefa honum yfirgnæfanlegar sinnis-gáfur.

Magnús. En hvad skilst þá undir ordinu kraptur, og hvors vegna á í þessum stad ad taka ordid andi heldur fyrir andar-gift enn adrar merkíngar, sem sama ord andi hefir í ritníngunni, einkum hugarfar edur hjartaþel, eins og þér ádur hafid sagt ockur ad ordid andi stundum merki?

Prestur. Satt er, ad ordid andi á stundum þýdir hugarfar, svo sem t. d. Róm. 8, 15, 1 Corinth. 4, 21. Ezech. 11, 19. o. v., en hér vel eg heldur hina meiníngina vegna ordanna, sem strax á eptir fylgja Lúc. 1, 17, og tekin eru úr Malachías's Spádómsbók, á sama stad, sem fyrr greinir, þessi andi edur andar-gift átti nefnilega ad brúkast til ad láta únga og gamla verda samhuga í ad fallast á sannann lærdóm, og þarmed undirbúa lýdinn til ad verda ad upplýstum mönnum. Þessi andar-gift edur mikla andríki, er þar ad auki þad, sem ritníngin einkum og sérlega, og þad þó nær med sama orda tiltæki, hrósar bádum þessum Drottins mönnum fyrir, þó um Elías segir Sírach 48, 1. „Elías Spámadur birtist „eins

„eins og eldur, og hans orð vóru brennandi „svo sem blys.“ Og vidlíkt vitni bar sjálfur Jesús Jóni Skírara Jóh. 3, 45. segjandi: „Jóhannes var bædi skínandi og brennandi „ljós.“ Ordin anda og krapti útlegg eg aptur eins og sé þar Hendiadys er eg ádur hefi vid yckur nefnt, og meina eg þau þýdi øbluga andar-gipt. Dæmi uppá slíka útleggíngu má finna 1 Mós. b. 4, 4. 19, 24. „Gud lét rigna eldi og brennisteini,“ þad er: logandi brennisteini. Jer. 29, 11. „til ad géfa „ydur endíngu og eptirvæntan,“ þad er: eins og rétt finnst í ockar Biblíu útlagt, „endíng „(eda þó enn betur þau endalok,) sem þér „væntid eptir.“ Post. g. b. 14, 13. 2 Pét. 1, 3. „dírd og dygd,“ þad er: vegsamlega makt, og miklu fleiri.

Lýdur. En vóru þá ei þessir Spámenn einníg líkir í hugarfari, því sem bádir máttu þola, og embættis-verka adferd?

Prestur. Ad nockru leiti, en ei øllu; bádir dvøldu mest á eydi-mørkum, eda strjál-bygdum plátsum; bádir høfdu þann óvandadasta klædnad og adbúnad, sem naumast nægdi til lífsins vidurværis; bádir urdu íllt ad lída af vondum konum og Kóngum; því Elías átti málstad vid íllmennid Achab Kóng, hvørr samt ecki aldeilis sleppti allri blygdun fyrr enn qvennskassid Jessabel var búin ad stappa í hann stálinu, og mana hann til verstu klækja; Jóhannes lifdi undir ríkis-stjórnum Heródis Kóngs,

hvorjum ad manndygdunum til ecki fór ad lá. Achab, en sem samt var nógu lymskur til ad dylja hjarta-þel sitt, þángad til önnur Jessabel, eda, sú þadan af verri, hóran Heródías, var búin ad siga honum svo lengi upp, ad hann sjeldi höfud og líf heilags manns, fyrir ad horfa um part úr matmáls-tíma á nettann fóta-burd únglings stelpu; bádir vóru í kénningum sínum bersöglir, og hvorr fyrir sig lifdi á svo gagnspilltri öld, ad Elías meinti ad sjálfur hann einn væri í heila landinu, sem ei væri brugdinn vid afgudadýrkun, og gudspjallasögurnar lýsa svo berlega hugar-þeli bædi höfdíngjanna og alþýdunnar á Skírarans tíd, ad sárstar aldir munu verri enn sú í þær mundir var. Dygdirnar, sem í beggja tíd gengu fjöllunum hærra, útheimtu þess vegna þau skrekyrdi, sem annars væru á hvörjum einum kénnanda og á ödrum tídum lastverdur. En þá var vondt háttalag svo algengt, ad ecki hefdi neitt áorkast, ef þeir hefdu ei verid svo skorinnordir. Þegar flestir eru opinberlega vondir og allir í heilu landi, nema einn einasti madur, þegja, þá tjáir ecki ad tala einasta utanad því, ad betur mætti tilgánga; þá eru nettyrdi og hæverska ofveik, þegar hvort íllmennid er ordid ödru samdauna, og stælir hvort annad upp, þá klockna skálkarnir ecki mikid, eda komast vid af Nathans dæmisögu, sem nóg var til ad vekja upp Davíds vidqvæmu samvitsku; þá verdur lítill árángur af, ad segja þeim med Páli Postula:

ula: „Þér erud mín vegsemd, kóróna og fögn„údur" 1 Theſſ. 2, 20. Philipp. 4, 1. eda med Jóhanni Poſtula ad tiltala þeim eins og blídum barna-kindum; héldur verdur ſá ſem á ſlíkann málſtad, ad hegda ſér eptir ſinni tíd, og brúka þau medöl, ſem beſt ega vid hans tilheyrenda kránkdæmi, kann og áſigkomulag. Þar ná Elías átti ad ſtrída vid opinbera afgudadyrkun, og Jón Skírari vid hræſni og þrjótſku þeirra, ſem enau meir heidrudu þann Gud, ſem þeir þóktuſt þeckja, enn þó þeir hefdu tilbedid Baal, þá er náttúrlegt ad nockud líkt hafi verid í beggja adferd, ſamt ſýniſt mér ad Jóhannis kénningar hafi ecki ſvo ſtórkoſtlegar verid, ſem Elías's, og ad Skírarinn hafi mannúdlegar breytt enn hinn Thesbiſki, því Jóhannes lifdi bædi undir þeim fyrri og ſídari ſidum, hafdi þeſs vegna nockurn keim af bádum.

Magnús. Ydar meiníng mun þó ecki vera, ad Elías hafi ordid of-frekur í vandlætingunni, því þad gétur ecki hafa verid, þared hann var Guds madur, Gud gjördi fyrir hann ſvo mörg og ſtór krapta-verk, og tók hann ſeinaſt til himna.

Preſtur. Meira er um allt þetta ad tala enn þid gétid ſkilid, eda ſkírlega verdi greint á einu ſtundar-korni. Guds madur er hvorr ſá, ſem Guds erindi rekur, og gétur ſá ſamt í einn og annann máta ófullkominn verid. Kraptaverk hafa af þeim gjörd verid, ſem ecki

hafa verid alls kostar gódir Matth. 7, 22. og 12, 27. líka kallar Frelsarinn meira gledi=efni ad hafa óflekkada samvitsku, enn ad hafa gjørt krapta=verk Lúc. 10, 20. svo mundu og fáir í eilífa sælu komast, ef þar frá ættu allir þeir ad útilokast, sem eitthvad hefir áordid. Þínar rokfemdir, sem þú tilfærdir, Magnús minn! sannfæra mig þá ecki um, ad Elíasi hafi eckert gérad yfirsjest. Gud lídur og fyrirgéfur þad margt, sem hann leyfir ecki, hann brúkar mannanna ófullkomin verk, sem medal í hendi sinni, ad koma til leidar því, sem fullkomnara er, og audsýnir gædsku og speki sína í því, ad láta jafnvel yfirsjónir þeirra draga gott eptir sig. Þó eg nú segi þetta bædi um Elías og fleiri, þá er samt lángt frá mér ad ásaka þad mikla Guds verkfæri. Ad hann í einu drap 450, (eda 850) Baals presta, og fyrirfór tvisvar 50 strídsmønnum, gétur med álitlegum røkum afsakast, í hid minnsta áttu eptir Mósis lögmáli þeir Spámenn vægdarlaust ad líflátast, sem rédu til Skúrgoda=dýrkunar. 5 Mós. b. 13, 5. 18, 20 eptir hvørju lögmáli Baals=prestar vóru réttdræpir, en samt sýnist eins og Guds madurinn hafi helst til brádur ordid, því ecki þókti Jesú Kristi hans dæmi verdt eptir ad breyta, heldur heimtadi hann af sínum Lærisveinum, ad hafa annann anda, þad er: annad hugarfar enn Elías hafdi audsýnt Lúc. 9, 55. og þar til er ecki ólíkt því ad sjálfur Gud hafi viljad beygja Elías's sinni til meiri

vork=

vorkunsemis og blídlyndis med. Þeirri vitrun, sem Gud gaf honum rett eptir ad Elías hafdi slátrad Baals-prestunum, Þvi Gud var hvorki í stormínum, né jardskjálftanum, né eldinum, heldur í hægum og Þægileaum vind-blæ. 1 Kóng. b. 19, 9-14. Fleiri ófullkomlegleika hans Þarf ei ad telja, svo sem: hvorsu módlaus hann vard tvisvar, bædi Þá hann huosadi enginn dýrkadi sannann Gud nema hann, Þar hann Þó skommu ádur var kominn ad raun um, ad Obadías hafdi skotid skjóls-húsi yfir 100 Guds Spámenn 1 Kóng. b. 18, 14-18. 19, 10. og annad sinn Þegar hann var leidur af ad lifa, og svo gott, sem taldi eptir Gudi Þad, sem hann hefdi vandlætt hans vegna kap. 19, 4. svo Postulinn Jacob med rétti sagdi ad „Elías var „manneskja eins og vér" Jac. 5, 17. hvad eg ei segi til Þess, ad draga neitt af Þeim heidri, sem Elías á skilinn, heldur einasta færi Þad dæmi til, ad Þad er ei allt fullkomid og eptirbreytíngar verdt, sem í Ritníngunni finnst uppteiknad, jafnvel um Þá mestu og bestu menn. Jón Skírari var ypparlegri, enn allir, sem fyrir hann höfdu fædst, Þó segir Jesús Kristur, ad sá af sínum Lærisveinum, sem minnst vissi um sig, Messíam, væri fródari enn hann Matth. 11, 11.

Med Þessu vil eg Þá hafa kennt yckur, börnin gód! ad eckert dæmi nema einasta ockar Endurlausnara er svo fullkomid, ad ecki Þurfi varkárni og athugasemi vid ad hafa, (Þó er líka

líka um þad athugandi hvort hann hafi verkid gjort, sem manneskja, edur sem Gud og medelgángari). En ef svo er um þessa miklu Guds menn, hvad þá um adra miklu breiskari, þar únglíngum er annars tamt án eptirþánka ad taka sér snid af því, sem þeir sjá mikilsvirda menn gjöra? Vér hofum í Guds ordi skírar reglur, eptir hverjum oss ber ad breyta, eptir þeim eigum vér ad hegda oss, en ecki því hvad adrir hafast ad, nema þad sé Guds skipunum samqvæmt. Sá eini, sem var án syndar, má vera oss fyrir reglu, „veri hvorr einn eins sinnis, adur og Jesús Kristur var, því hann hefir „gefid oss þad dæmi, hvorju oss ber ad fylgja" Philipp. 2, 2. 1 Pét. 2, 21. Vid skulum þá enda samtal þetta (med seinasta versi úr Psálminum: Frelsarans er framferdi.) syngjandi:

Gjør þú oss þydi Herra, ꝛc.

Mánudaginn, 22 Decembr.

## LXIX. Eckert líkerni er Gudi þægt, nema þad sé mønnunum nytsamlegt.

Þegar Eysteinn Kóngur Magnússon sat ad ríkinu í Norvegi, var kendur madur ad nafni Hjálmar á Mæri, hann var réttsyn madur og gódgjarn, verndadi lítilmagnann, straffadi þá ásælnu, virdti hina lærdu, en lét þá fá laun, sem kostgjæfnir og ástundunarsamir vóru, hann hafdi allra hrós, þó þókrast menn varir

við verða, að svo sem hann gjorði öllum oðr-
um gott, mundi honum samt eitthvað þúngt
fyrir brjósti búa. Hann varð þánkafullur,
sóktist eptir að fara einförum, væri hann á
gángi, þá gékk hann seint, stardi ofaná jorð-
ina, og honum séll þúngt það, sem hann átti
í embættinu að gjöra. Loksins einsetti hann
sér að sleppa sínu léni, fór til Eysteins Kóngs,
beiddi hann að gésa sér lausn frá embættinu,
og færdi rok þar til, „að hvorsu lángt, sem
„lífið væri, nægdist það þó ecki til að búa sig
„undir dauðann, en allt hvað maður gjörði
„annað, væri hégómlegt og eins lítið í varið
„og köngulvofu-vef, sem trodinn er undir fót-
„um á alfara-vegi, en öll heimsins gjædi svo
„svipul eins og snæ-ljós sem í sama vetfángi
„leiptrar og hverfur burt. Leyf mér þess
„vegna," (sagði Hjálmar við Eystein Kóng)
„að eg megi búa mig undir eilífðina, þurfa
„eckert að gjöra, nema bráka andlegar um-
„þenkíngar, yðka guðrækni og andakt í ein-
„setu, gleyma heiminum og láta aðra gleyma
„mér, þángað til eilífðin lýkur upp augum
„mínum, og eg á að birtast fyrir dómstóli
„ens allra hæsta."

Eysteinn Kóngur þagði litla stund, en
sagði síðan: „Hjálmar! þú hefir bæði gjört
„mig skélkaðann og óvissann hvað eg skuli af-
„ráða. Mér er eins og þeim manni, sem er
„kominn fram á hengi-flug, og þó veit eg ecki
„hvort háskinn er raunar svo, ellegar ecki. Eg

„er manneskja eins og þú, mitt líf er ecki nema
„augnablik, eins og eckert ad reikna móti ei-
„lífdinni, eg þyrfti þess vegna allann minn
„tíma til ad búa mig undir daudann, en hvørt
„ætti þá ad segja løg, og stjórna Norvegs
„ríki? ega þeir kannské ad gjøra þad, sem
„aldrei hugsa um Gud né daudann, og enga
„samvitsku hafa? eru þeir þá allir í fordæm-
„íngar standi, sem stunda vinnu sína og stétt?
„ecki er møgulegt ad allir géti verid Múkar,
„þess vegna er ecki allra skylda ad vera þad.
„Fardu nú í þad hús, sem þú ert til gist-
„íngar í hér í stadnum, eg skal hugsa betur
„eptir því, sem þú hefir umbedid, og segja þér
„seinna til hvørs eg vil ráda þér."

Hjálmar fór burt, og þegar hann í þriá
daga féck engin bod, kom hann annad sinn á
Kóngs fund, var þá hýr í yfirbragdi tók upp
bréf hjá sér, og féck Kónginum segjandi: „síd-
„an eg seinast taladi vid Ydur, Herra! hefi
„eg fengid bréf frá Bjartmari Læknir, sem
„kénnir mér, hvørninn eg á ad nota mér lífid,
„nú gét eg med gledi litid til baka á umlidna
„æfi mína, og med gódri von áfram til ókom-
„inna tída. Nú er eg reidubúinn ad vera fram-
„vegis í þeirri stétt, sem eg híngad til hefi
„stadid í, ef þar er Ydar vilji til." Kóng-
urinn féll bædi í forundrun, og vard forvitinn
um hvad í bréfinu stædi, féck þad Hird-presti
sínum ad lesa. Þad hljódadi þannig:

„Bjart-

„Bjartmar sendir Hjálmari bónda qved„ju Guds og sína. Sárt sveid mér þegar „eg heyrdi þú ætladir ecki lengur ad hafa sýslu „Kóngs á Mæri; ega þá svo margar mann„eskjur ad fara á mis réttdæmis þíns og vernd„ar? eg skal segja þér frá því, sem vid mig „framkom í úngdæmi mínu, kannské þú gétir „dregid þér nockurn lærdóm af því. Eg nam „læknis-frædi hjá Erlíngi Læknir, sem mestur „var í þeirri ydn hér á Nordur-löndum, og „þókti eg vera med þeim bestu úr því hann „leid. Sá eg sárindi þau, eymd og dauda, „daglega fyrir augum mér, sem ollu því ad „eg skalf og titradi, þegar eg hugsadi um mína „endalykt, mér var hvort sinn eins og sæa eg „opna grofina fyrir fótum mér. Eg tók þess „vegna fyrir mig ad hugsa um eckert nema „eilífdina, ad forakta alla jardneska hluti, eg „þenkti eckert væri syndlaust nema í þogn ad „íhuga andlega hluti, ad þeir sem girntust „audæfi væru þeirra ecki verdugir, en hinir, „sem einkis virdtu þenna jardar-leir, væru „hæfir ad ega þau. Þess vegna gróf eg allt „mitt sylfur í mold, fór burt frá ollum monn„um í eydi-pláts, og var þar í hellir, hvar „eg drack vatn, en lifdi af rótum og berjum, „sem eg gróf og tíndi til ad vidhalda lífinu „med. Til ad leggja þess þyngra á mig, „vakti eg opt heilum nóttunum saman, og sat „fyrir utan hellis-dyr mínar, snúandi andlit„inu til austurs, svo eg fengi upplýsing af

„hædum. Einn morgun eptir ad eg hafdi vak-
„ad alla nóttina, rétt í því sólin ætladi ad
„koma upp, fèll á mig svefn-høfgi, sem eg gat
„ecki á móti stadid. Mér sýndist eins og eg
„væri vid hellis-dyr mínar, sólin væri ad renna
„upp, en þá kom eitthvad svart og dymmt,
„sem huldi hana fyrir augum mér. Eg sá
„þad færdist nær og nær, en óx í augum mér
„því meir, sem þad nálgadist, og loksins sá
„eg þad var Örn, er settist skammt frá Tóu
„þeirri, er tveir fætur vóru brotnir á. Örnin
„skildi þar eptir hálft lamb, sem hún hafdi kom-
„id med í klónum, sídan flaug hún burtu. Ept-
„ir ad eg vaknadi, hugfadi eg úti draum minn,
„og taladi þannig vid sjálfann mig: rétt gjørdi
„eg ad skilja mig vid skarkala, athafnir og
„hégóma heimsins, þó hefi eg ecki gjørt meir
„enn helmíng skyldu minnar. Medan eg er
„dag hvørn ad tyna saman þad, sem eg á
„ad lifa af, er sálin hvørki í fullkominni ró-
„semi, né traustid til Guds forsjónar algjør-
„legt. Þessi vitran kennir mér, ad sá Gud,
„sem sendi Örnina til ad sedja Refinn, getur
„líka sendt mér mína fædu, þegar eg gjøri
„eckert annad enn þjóna honum med andakt.
„Eg var svo fulltrúa um þetta, ad Gud mundi
„hjálpa mér, ad eg hætti ad gánga eptir minni
„fædu, og beid med þolinmædi, ad hún mundi
„til mín koma; samt bar eg mig ad kéfja
„þessa óþolinmædi, og standa stødugur í mín-
„um ásetníngi, en mér fór ad sortna fyrir aug-
„um

„um af húngri, knén ad skjálfa, og eg gat
„naumast dregid mig af óstyrk, þá mér birtist
„í svefni madur bjartleitur, hýr á yfirbragd en
„þó alvarlegur nöckud svo, eins og honum
„líkadi ecki nitt fyrirtæki.“ „Þar liggur þú
„Bjartmar, sagdi hann, og ætlar ad
„vera vitrari enn þér hefir verid kénnt.
„Heimska þín hefir snúit þeim lærdómi til
„verri vegar, sem þér var gefinn til ad skyn-
„ja af hid rétta. Ertú fótlama eins og
„Refurinn? hefir þú ecki miklu fremur Arn-
„arins krapta? stattú upp! breyttu eptir
„Erninum! bjargadu lífi og heilsu þeirra,
„sem eru sárir og sjúkir. Dygdin er ecki
„innifalin í hvíld, heldur í athøfnum, ef
„þú synir elskuna til Guds med því ad
„gjøra mønnunum gott, þá verdur þín
„dygd himnesk, og þú færd á jørdunni for-
„smeck þeirrar gledi, er þú seinna munt
„hreppa fullkomna í eilífdinni.“ „Eptir
„þessa vitran fór eg aptur til kaupstadarins,
„og gróf upp peninga mína, vard orlátur, gat
„opt læknad sálarinnar sjúkdóma, í því eg var
„ad græda líkamlegu meinin, og kappkostá
„ad láta þá vitrun, sem eg féck, verda mér ei
„til ónytis. Nyttú þér hana líka, Hjálmar
„bóndi! og vertú viss um þad, ad hvad, sem
„madur veit og kann, en hann þénar eigi ødr-
„um med, er foraktanlegt; einsetu líferníd er
„til einkis gott, nema leidir frá einni villu til
„annarar; þess meira, sem þér er lánad, þess

„meira áttú ödrum í tje ad láta; láttú, sem „flesta sá not dygda þinna, þá elskar Gud „þig. Vertú sæll!"

Þegar Kóngurinn hafdi heyrt þetta bréf, fell honum þad vel í géd; hann leysti Hjálmar burt med gódum gjöfum, og lét hann fara til baka aptur í sýslu sína. Sýnir eptirdæmi þetta, ad einkis manns líferni er Gudi þægt, nema þad sé manneskjunum nytsamlegt.

## LXX. Sagan af Herra Jóhann Sólskjöld.

Luckan er tídum brygdlynd, og á stundum hefir upp úr duptinu til ædstu metorda og valda, þá sem hún adur hefir ecki virdt þess ad líta til. Ad vísu eru sumir svo íllgvittnir, ad bera uppí sér, slíkir hafi sjaldan nógu sterk bein til ad þola góda daga, og þeim sé virdíngin svo ný og óvenjulega há, ad þá sundli af henni; en þeir, sem þetta mæla, gjæta ei ad því, ad lucka og metord eru lítilsverd, nema þau séu brúkud, og sá hefdi mátt eins vel liggja í skarninu, sem ecki kynni ad nýta sér upphefd sína, til ad láta þá úndirgéfnu finna, ad nú sé sá kominn í höfdíngja-tölu, sem ádur lá undir hvørs manns fótum. Þetta hafdi lengi setid rikt í þánka allra sveita qvikindisins hans Jóns Deigusonar; módir hans hét Solveig, sem hvørgi tolldi, og enginn vildi halda viku lengur, átti hún þenna Jón á flacki sínu, og gat

ei fedrad hann, hvar fyrir hann var dæmdur á alla sýsluna, og almennt kalladur Jón Veiguson, hafdi þessi allann sinn aldur á vergángi alist, verid hortugur, skrafinn og ópeckur, hvar fyrir honum vard vída illa til greida, fèck sjaldan inni bæar-húsum ad vera, og í øllum adbúnadi átti því lakara vidurværi til fædis og fatnadar enn adrir fátæklíngar, sem hann hafdi komid sèr illa hjá øllum. Rètt í einu snèri luckan sèr, og þessi veslíngs ræfill vard í augabragdi sú luckulegasta manneskja undir sólunni.

Nú var Jón Veiguson ordinn ædstu landsins hofdíngja jafníngi, hann átti mørg hundrud hundrada, hvørt allt góts var besta hofudból og stórjardir í næstu sýslum, heilar tunnur af stórum peníngum og margar vættarkistur fullar af gulli og gersemum; hann bjó í stærra og betra múrhúsi enn hann sjálfur hafdi nockurntíma ádur sied, vóru stofurnar í því allar glansandi af gulli og fogrum málverkum, svo óvanir fengu augna-deprur, þegar þeir komu þar inn ad kasta sèr fyrir fætur hans; þrír danskir kockar høfdu fullt í fángi ad búa til alla hvørs dags rètti honum til bordhalds, en af raudu skarlati, med allavega litu flojeli var lakasti klædnadurinn hans. Hvørt sem hann gèck inn eda út, var sveina mergdin óteljandi, sem allir kepptust hvørr vid annann, ad vera fyrstir til ad útrètta hvad helst er hann bendti til. Adrir hofdíngjar tóku fyrir sig lángar reisur, til ad finna hann, og med gudmykt ad koma

koma sér í mjúkinn hjá honum, og hvorr sá sem í sýslunni var stoku-fær, orkti um hann lof-psálma, og hóf hann uppúr skýjunum, þeir kolludu hann landsins prýdi, og allrar sýslunnar máttar-stólpa; þad eina, sem honum mislíkadi í þessu, var, ad þeir nefndu hann enn þá Hra. Jón Solveigarson, hvad honum þókti ofmikil endurminning síns fyrra fátæktar stands, hvarfyrir hann gaf sér þad nafn: Jóhann Sólskjøld, og skipadi ollum ad kalla sig þad. Nábúa átti Hra. Sólskjøld þann er Þorleifur hét, æru og sóma mann, sem med ástundun, atorku og skynsamlegri sparsemi var ordinn mektar-madur í sveitinni. Ádur í fyrndinni, medan Hra. Sólskjøld hét Jón Veiguson, hafdi hann haft ofund á þessum manni. Þorleifur, sem var hreppstjóri, hafdi líka eins hvorntíma verid nógu tann-hvass um ónytjúngs húsgánga, og jafnvel látid sér um munn fara, ad slíkir væru réttur tukthúss-matur. Þetta hafdi setst í Jón Veiguson, og Hra. Jóhann Sólskjøld var ecki heldur búinn ad gleyma því, þókti honum þess vegna Þorleifur maklegastur til ad bera nidur á, til ad kénna ovildar-monnum sínum, hvors þeir vænta mættu, sem þyrdu bjóda sér, ad styggja svoddan mann. Vitni vóru tilsengin, sem báru: ad Þorleifur hefdi talad illa um Kónginn, myrdt mann, og væri ránglega kominn ad ollu því, sem hann ætti. Þorleifi var því kastad í smánarlega fángelsis-grysju, og hann dæmdur til

dauda;

dauda; hans sorgbitna kona, og saklausu born kostudu sér grátandi fyrir fœtur ens mektuga Sólskjølds og beiddu um náð, en forgefins. Þorleifur misti hofudið undir bøduls-oxinni, allt hans hysski var rekið blánakið útúr syslunni á vonar-vøl, en gótsið dæmt upptækt, og fallið hálft undir Kóng, en hálft undir Hra. Jóhann Sólskjøld. Eitt vantaði þenna enn til fullkominnar lucku sinnar: hann hugfesti sér nú að giptá sig. Margir Stór-hofdingjar gjordu sér ómak fyrir, að komi honum inn ætt sína, en Hra. Hinrik einúngis vard svo luckudrjúgur, að Sólskjøld leit ástar-augum til dóttur hans Hugborgar, hún var þess líka verdug. Hinrik sjálfur var stór-ættadur, ríkur, mikils-metinn og frænd-margur af voldugu fólki, en Hugborg dáfríd, skorp, velvaxin og skáldin í syslunni hofdu opt og tídum í qvædum sínum svarid, að Jdún og Freyja hvi sinnis øfundad hana af fridleika hennar. Rádahagurinn var á bádar sídur med jafnri gledi sampyckiur, veitslan haldin med mestu prakt og øllu stórmenni tilbodið. Sá voldugi Hra. Jóhann Sólskjøld, sem ecki hafdi minkad af mægdum þessum, var leiddur til brúdar rúms síns, og ætladi að kyssa sína unnustu; „æ! „sagdi hann, í því hann ætladi að umfadma „hana: æ! hvorsu ánæadur —“

Hér rak Jón Deigusón houdina á sér í fjós-stodina, og hrøck upp úr svefninum; øll hans lucka hafdi ecki verid nema draumur;

hann lá enn í karbættu og rísnu úlpunni sinni, sársoltinn í sama moðbás, og hann hafði snarað sér niður í qvöldinu fyrir; Hra. Jóhann Sólskjöld var horfinn, Hugborg ógipt þegar seinast tilspurðist, og sá góði Þorleifur lisir enn.

## LXXI. Gátur.

56.) Mús. 57.) Eckert. 58.) Sikur-toppur. 59.) Fló. 60.) Nef-tóbak.

61.) Við erum fimm alls, og höfum sinn hvört embætti hjá þér, í hvörju við þénum þér seint og snemma, opt gjörum við þér mikla pínu og ángur, en þó hefir þú litla gleði án ockar.

62.) Í Gjær mun ég verða, á morgun var eg.

63.) Með snúinn-haus mínum gjöri eg kytru handa honum bróður hvass-nef; því gjöri eg það ecki, þá þreyngir hann sér svo gapalega inn, að hann spreingir í sundur veggina undir húsinu.

64.) Einn stór port-vegur leyfir öllum inn að gánga, en þó margar séu dyrnar, þá getur samt enginn út aptur komist, því portvegurinn er þá lokaður, en allar dyrnar oflitlar.

65.) Mér er skipt í fjóra parta, og skipti sjálf mörgum hlutum, er kosta ærna peninga. Sumstaðar er eg lítil, sumstaðar stór. En hvört eg er stór eða lítil, gét eg þó orðið minni enn eg á að vera.

Þrið-

Þridjudáginn, 23 Decembr.

## LXXII. Gudhrædslan er af-faragód.

Kaupmadur nockurr fór til Indíalands med konu sinni, vann sér þar inn mikla peninga, og ad nockrum árum lidnum, fór skipaleid aptur til Fracklands, hvar hann ádur átti heima. Med honum vóru kona hans og tvø børn, pilltur og stúlka. Pillturinn var fjogra ára, ad nafni Jóhann, en stúlkan þrévetur, hét María. Á midjum vegi rotudu þau í storma mikla, sagdi Styrimadurinn þá, ad mikill háski væri fyrir hendi, því skipid ræki ad eyjum, hvar þad mundi brotna. Þegar Kaupmadurinn heyrdi þad, tók hann stóra bord-fjøl, batt konuna sína og børnin ramlega þar á, en í því hann ætladi ad binda sjálfann sig, steytti skipid á skéri, svo þad klofnadi ad endilaungu, en allir, sem á því vóru duttu í sjóinn. Bordid med konunni og bádum børnunum flaut ofan á, og rak til einnar af eyjunum; þar leysti konan bøndin og fór uppá eyjuna med bádum børnum sínum. Þad fyrsta, sem henni vard fyrir, þegar hún var komin upp úr flædarmálinu, var, ad hún kastadi sér á kné, og þackadi Gudi fyrir þetta frelsi; samt var hún mjøg forgbitin, af ad hafa mist mann sinn; og líka var hún hrædd um ad bædi hún og børnin mundu deyja af húngri á þessari ey, ellegar ad ólm dýr mundu rífa þau í hel; nockra

stund gêck hún í þessum sorgar-þaunkum, en þegar hún sá fjølda af eikum, sem vóru full-ar med ávexti, tók hún staur, og krakadi þá ofan, át af þeim sjálf, og gaf þá sídan børn-um sínum med sér. Eptir þad fór hún lengra áfram, ad vita hvørt hún fyndi ecki neinn kofa edur manna-verk, en hún komst ad raun um ad þetta var eydi-ey. Á vegi fyrir sér fann hún stóra eik, sem var hol innan, og í henni ásetti hún sér ad hafa nætur-vist í þad skiptid. Hún var þar um nóttina med børnum sínum; daginn eptir fór hún enn lengra fram á eyjuna, svo lángt, sem þau gátu gengid; fann hún þar á vegi fyrir sér fugla-hreidur og tók undan þeim eggin, en þegar hún vard hvørki vør vid menn nê skadleg dýr, einsetti hún sér ad und-irkasta sig Guds vilja, og ala upp børnin sín, sem best hún gæti. Í vasa sínum hafdi hún nýja Testamentid og Bænabók, þær bækur brúkadi hún til ad kénna þeim ad lesa á, og ad þeckja sódann Gud. Stundum sagdi pillt-urinn vid hana: módir mín! hvar er hann fadir minn? því lét hann ockur fara burt úr húsinu ockar á eyjuna þá arna? ætl' hann komi ecki ad finna ockur? módirin svaradi grátandi: børnin mín! hann fadir yckar er farinn til himnaríkis, en þid egid annann fødur, sem er gódur Gud; hann er hêrna þó þid sjáid hann ecki, hann er sá, sem sendir yckur ávextina og eggin, og hann mun ala ønn fyrir ockur, svo lengi, sem vid elskum hann af øllu hjarta og hlýdum honum.

Þegar börnin vóru búin að læra að lesa, lásu þau aptur og aptur með ánægju það, sem var í bókunum þeirra, og töluðu um það með degi laungum, þau vóru líka góð börn og hlýðin móður sinni.

Að tveggja ára fresti lagðist móðir þeirra í sótt, en þegar hún sá, hún mundi ecki ega lángt eptir, varð hún mjög sorgbitin vegna barna sinna, en huggaði sig samt við það, að góður Guð mundi ala önn fyrir þeim. Hún lá í holu eikinni, kallaði börnin til sín, og sagði við þau: eg mun nú innan skamms deyja, min kjæru börn! svo þið verðið þá móður=laus, en munið samt ætíð til þess, að þið aldrei erruð einsömul, því góður Guð sjer allt hvað þið gjörið. Látið þið aldrei hjáliða, að biðja hann kvöld og morgna. Jóhann minn góður! hafðu ætíð umsorgun fyrir henni systur þinni Maríu, vertu ecki hastur við hana, og berðu hana aldrei; þú ert stærri og sterkari enn hún, þú átt þá að leita upp eggin og ávextina handa henni —hún ætlaði að segja eitthvað við hana Maríu, en hafði ecki tíma til þess, því hún dó. Þessi vesælings börn skildu ecki hvað móðir þeirra meinti, því þau hofðu ecki sjeð hvað það var að deyja, svo þegar hún var dauð, hugsuðu þau að hún svæfi, og þorðu ecki að hafa hátt um sig, svo hún vaknaði ecki. Jóhann fór að sækja ávexti, þau systkynin borðuðu um kvöldið, og sváfu hjá móður sinni um nóttina. Morguninn eptir furðuðu þau sig yfir, að móð=

ir Þeirra sœrsi svo lengi, tóku í handleagiun á henni til ad vekja hana, en Þegar Þau sáu, ad hún svaradi Þeim ecki, héldu Þau henni Þœkti eitthvad midur, fóru ad gráta, beiddu hana fyrirgéfníngar, og lofudu ad vera gód börn, en hvad sem Þau tilgjordu, má nærri géta, ad módirin gat ecki svarad Þeim, Þared hún var daud. Þau vóru Þar nockra daga, Þángad til líkaminn var farinn ad rotna. Einn morguninn hljódadi María uppyfir sig, og sagdi: æ! bródir minn! skódadu madkana, sem eru ad éta hana módur ockar góda, víd skulum taka Þá burt, komdu ad hjálpa mér til! Jóhann kom ad en ólyktin var Þá svo mikil af líkamanum, ad Þau gátu ei haldist Þar vid, og urdu ad leita sér upp adra eik til ad liggja í.

Þessi born hlýddu í ollu módur sinnar rádum, og létu aldrei hjálida ad bidja Gud. Þau lásu svo opt bækur sínar, ad Þau kunnu Þær utanbókar. Þegar Þau vóru búin ad lesa, gengu Þau út til skémtunar, ellegar sátu saman í grasinu. Einusinni sagdi Jóhann vid systur sína: eg man til Þess Þegar eg var dá-litill, Þá var eg Þar, sem vóru stór hús, og sjeldi af manneskjum, eg átti fóstru, og Þú líka, og fadir minn héldt morg hjú, vid vórum Þá í fallegum fotum. Allt í einu lét hann fadir minn ockur í hús, sem hljóp á vatninu, og nock u Þareptir batt hann ockur á fjol, sér sjálfur ofaní sjóinn, en hefir ecki sídan komid

Þadan

þaðan aptur. Það er undarlegt, svaraði María, en þar það hefir skéð, þá hefir Guð viljað hafa það svo, því þú veitst, bróðir minn! að hann er almáttugur, og allt skéður þeim til besta, sem elska hann. Jóhann og María vóru ellefu ár á þessari ey. Einusinni þegar þau sátu í fjörunni, sáu þau hvar bátur kom með mörgum svörtum mönnum. Í fyrstunni varð María hrædd, og ætlaði að hlaupa burt, en Jóhann sagði við hana: við skulum vera kyrr, systir mín! veitstú ekki, að hann faðir ockar, góður Guð er hérna, og hann mun vernda ockur, svo mennirnir þeir arna gjöri ockur ecki neitt illt. Þegar svörtu mennirnir vóru komnir á land, undruðust þeir yfir að finna þar únglínga oðruvísi lita enn sjálfa sig. Þeir flyktust kríngum þau, og töluðu til þeirra, en hvorugt systkynanna skildi þeirra túngumál. Jóhann leiddi þá að beinunum hennar móður sinnar, og sagði þeim hvorninn hún hefði dáið allt í einu, en þeir skildu eckert af því; loksins sýndu þeir únglíngum þessum bátinn og bendtu þeim að fara uppí hann. Eg þori það ecki, sagði María, eg er svo hrædd við þessa menn. Jóhann sagði henni: vertú óhrædd systir mín, hann faðir minn hafði þénara, sem vóru eins litir og þessir menn, kannské hann sé núna kominn heim aptur, og hafi sendt eptir ockur.

Þau fóru uppí bátinn, en mennirnir réru heim til sín, að eý þar skammt frá Allir innbyggjararnir tóku vel á móti þeim, og Kóngur þeirra

þeirra stardi mikid á hana Maríu, og lagdi hendina opt á brjóstid, til ad gefa henni þar med tilkynna, ad hann elskadi hana. María og Jóhann lærdu fljótt þessarar eyjar túngumál, og urdu áskynja um, ad innbyggjararnir, og þeir, sem vóru í næstu eyju hofdu strid saman; en hvorjir fyrir sig ætti upp þá, sem þeir tæki til fánga, ad þeir tilbædu stórann, ljótann apa-kott, sem hefdi marga menn sér til þjónustu, vóru þau því mjög sorgbitin af, ad vera komin til svo vondra manna.

Nú vildi Kóngurinn endilega ega hana Maríu, en hún sagdi bródur sínum, ad hún vildi heldur deyja enn vera kona hans. Þad er af því hann er svo ófrídur ad þú vilt ecki ega hann? sagdi Jóhann. Nei, bródir minn! svaradi hún, þad er af því hann er svo vondur. Sjer þú ecki, ad hann þeckir ecki hann fodur ockar, gódann Gud; og í stadinn fyrir ad bidja hann, kastar hann sér á kné fyrir óhræsis apa-ketti, og líka þar sem bókin ockar skipar, ad fyrirgefa óvinum sínum, og gjöra þeim gott, þá drepur þessi vonda manneskja strídsfángana sína, og etur þá.

Mér kémur eitt í hug, sagdi Jóhann; ef vid dræpum ólucku apa-kottinn, þá sæu þeir ad hann er ecki sannur Gud? vid getum gjört annad betra, sagdi María, bókin ockar segir, ad Gud bænheyri þá, sem bidja hann af gódu hjarta, vid skulum leggjast á kné, og bidja Gud sjálfann, ad drepa apa-kottinn, þá verdur ock-

ur

ur ecki kennt um, og við verðum þá ecki drep-in í staðinn; Jóhann fellst á þetta; þau kost-uðu sér bæði á kné, og sögðu hátt: Drott-inn! þú getur allt hvað þú vilt, sýndu þína gjæðsku í því að drepa apa-köttinn, svo ve-sælingarnir þessir fái að vita, að þú einn átt að tilbiðjast, enn ecki hann. Þau láu enn á knjám, þegar þau heyrðu mikið ýlfur, og þegar þau fóru að spyrjast eptir, hvor orsök-in til þess væri, var þeim sagt, að stóri apa-kötturinn hefði stockið ofanúr eik, og brotið í sér lær-legginn. Þeir svörtu menn, sem þjón-uðu apa-kéttinum, og Prestar hans, sögðu Kónginum, að María og bróðir hennar væru orsök í þessu ólucku tilfelli, og landið gæti ei orðið luckulegt, fyrr enn þessar hvítu mann-eskjur væru búnar að tilbiðja þess Guð. Strax var úrskurðað, að offur skyldi færast apa-kéttinum, sem var ný-útvalinn til að verá Goð, að hvítu systkynin skyldu vera þar við, og María ekta Kóng þeirra, en ef þau vildu ecki gjöra þetta, þá skyldi brenna þau bæði lif-andi, og bækurnar þeirra með, sem þau hefðu brúkað til galdra sinna. Þegar María heyrði þenna dóm, og að Prestarnir báru uppá hana, að hún hefði drepið apa-kottinn, svaraði hún þeim: hafi eg látið apa-kottinn yckar deyja, þá mætti eg vera mektugri enn hann, og væri heimskt að tilbiðja það, sem ecki er æðra enn eg. Sá verður að lúta, sem lægri hefir dyrnar, því ætti apa-kotturinn miklu heldur að tilbiðja

mig enn eg hann; samt vil eg ecki ganta yckur, því ecki hefi eg drepid hann, en minn Gud rædur yfir öllum skopudum skepnum, og án hans leyfis gétid þid ecki tekid eitt hár af minu hofdi. Af þessu espudust hinir svortu, bundu Maríu og bródur hennar á bord-stúfa, og ætludu ad brenna þau, en í því kom fjoldi fjandmanna á eyjuna. Innbyggjararnir hlupu til ad verja sig, urdu yfirunnir, þeir adkomandi hjuggu fjoturin af bádum hvítu systkynunum, og fluttu þau til sinnar eyjar, hvar hann vard þræll en hún ambátt hjá Kónginum. Þau þrælkudu frá morgni til qvolds og sogdu: af elskunni til Guds, egum vid ad þjóna trúlega húsbónda ockar, og halda þad sé Drottinn, sem vid þjónum, því bókin ockar skipar ockur þad.

## Midvikudaginn, 24 Decembr.

En þessir svortu menn áttu í stríduín, og átu strídsfánga sina eins og þeir, sem þau fyrr hofdu verid hjá. Einusinni nádu þeir morgum, sem þeir tóku til fánga, og medal þeirra var einn hvítur madur, en vegna þess hann var skin-horadur, ásettu þeir sér ad ala hann fyrst, ádur enn þeir slátrudu honum. Þeir hofdu hann bundinn í einum kofa, og skipudu Maríu, ad færa honum matinn. Vegna þess hún vissi, ad hann var ætladur til

til slátrunar, aumkaðist hún yfir hann, leit hálf-grátandi til hans, og sagði: æ! Guð minn Faðir! miskuna þú þig yfir hann! þessi hvíti maður hafði í fyrstunni undrast yfir að sjá þar eins lita stúlku, og hann var sjálfur, en meira brá honum við, þegar hann heyrði hana tala sitt túngumál, og biðja einn sannann Guð. Hvörr hefir kénnt þér að tala frönsku, sagði hann, og að þeckja góðann Guð? ecki veit eg hvað túngumálið heitir, sem eg tala, svaraði hún, það var málið hennar móður minnar, hún kénndi mér það, en hvað góðann Guð áhrærir, þá höfum við, hann bróðir minn og eg, tvær bækur, sem tala um hann, og við lesum bækurnar ockar á hvörjum degi. Æ! Drottinn minn! sagði maðurinn, og fórnaði með höndum og augum til himins. Ætli það géti verið mögulegt? en, stúlka mín! gétur þú sýnt mér bækurnar, sem þú ert að tala um? eg hefi þær ecki hjá mér, sagði hún, en eg skal fara og finna hann bróður minn, þær eru hjá honum, hann skal sýna þér þær. Hún fór strax burt, en innan skamms kom Jóhann og hún aptur með báðar bækurnar. Þessum hvíta manni var mikið niðri fyrir, lauk þeim sem fljótast upp, og þegar hann sá á saurbladið skrifað: þessa bók á eg Jóhann Mauritius, kallaði hann uppyfir sig og sagði: æ! mín elskulegu börn! eg er faðir yckar, komið þið og kyssið þið mig! æ! gétið þið sagt mér góðar fréttir af henni móður yckar?

Þegar Jóhann og María heyrdu þetta, kostudu þau sér í fángid á hvíta manninum, og grétu af gledi. Loksins sagdi Jóhann: hugur minn segir mér, ad þér séud fadir minn, samt skil eg ecki hvorninn þad getur verid, því hún módir mín sagdi mér, ad þér hefdud dottid ofaní sjóinn, og nú veit eg ad þad er ecki mögulegt ad lifa nidrí sjónum eda komast þadan. Satt var þad eg datt í sjóinn, svaradi madurinn, þegar skipid ockar klofnadi í sundur, en eg nádi sjalar broti, og komst luckulega til einnar af eyjunum, en hugsadi þid hefdu drucknad. Þá sagdi Jóhann honum frá öllu því, sem hann mundi til, og grét hvíti madurinn mjög, þegar hann frétti lát konu sinnar. María grét hástöfum, en þad var af ödru tilefni. Æ! sagdi hún, til hvörs var ockur ad finna hann fodur ockar aptur, úr því á ad drepa hann og eta innan fárra daga? vid skulum brjóta af honum fjotrana, sagdi Jóhann, og strjúka sídan öll þrjú í skóginn. Og hvad egum vid ad gjöra þángad, míu vesælings börn! sagdi Jóhann Mauritius? annadhvört ná ockur svörtu mennirnir, ellegar vid megum deyja af húngri. Losid þid mér ad ráda, sagdi María, eg veit þad medal, sem dugir til ad frelsa ydur.

Í því hún endadi þessi ord, fór hún burt og til Kóngsins, kastadi sér fram fyrir fætur honum, og sagdi: þad er stór velgjörd, sem eg ætla ad bidja ydur um, viljid þér lofa mér

ad

að veita mér þá mína bæn? eg sver þér það, sagði Kóngurinn, því mér líkar hvorninn þú þjónar. Hana þá! sagði María, Þér skulið vita, að sá hvíti maður, sem eg á að færa mat, er faðir minn, og hans Jóhanns. Þér hafið áselt að hafa hann Yður til borðs, en eg kem að segja Yður, að hann er bæði gamall og magur, svo það verður ecki einn góður biti af honum. Þess vegna vona eg að Þér munið heldur vilja eta mig í hans stað, því eg er úng og feit, og bið ecki utan um viku frest, svo eg géti kynnst við hann á meðan, áður enn eg dey. Mikið góð stúlka máttú vera svaraði Kóngur, og það er lángt frá mér, eg vilji drepa þig, lifðu þá og hann faðir þinn líka. Eg gét þar að auk sagt þér, að á ári hvörju kémur híngað eitt skip fullt af hvítum mönnum, til hvörra við seljum ockar fánga. Innann skamms er von á þessu skipi, og þá skaltú fá leyfi til að fara með því.

María þackaði Kónginum innilega, og í hjarta sínu þackaði hún góðum Guði, sem hefði inngéfið Kónginum meðaumkun með henni. Hún hljóp með þessi góðu tíðindi til föður síns, og nockrum dögum síðar kom skipið, sem Kóngurinn hafði nefnt við hana, með því fór hún, faðir hennar og bróðir. Þau komu að stórri ey, sem Spanskir bjuggu í, þegar Höfuðs-maðurinn á eyjunni heyrði þessa sögu, hugsaði hann með sjálfum sér: þessi stúlka á ecki eitt fiskvirði, og mörg kann að vera bragð-

fegri, en hún er svo góð og dygdaudug, ad, hún gæti gjort ektamann sinn lángtum luckulegri heldur enn onnur fríd og rík. Hann hóf þess vegna bónord sitt til hennar hjá fødur hennar, sem gaf samþycki til ráda-hagsins. Hofudsmadurinn giptist henni Maríu, og seinna gaf hann Jóhann til ekta eina frænd-stúlku sína, svo þau lifdu luckulega á þessari ey, og dádust ad Guds speki og forsjón, sem lét Maríu verda ambátt, og hrekjast frá einum manni-ætunum til annara, til þess hún gæti fengid tækifæri ad frelsa líf fødur síns.

## LXXIII. Hjátrú.

Einn vellaudugur, en undir eins ágjarn madur var til húsa á lopti í gésta-herbergi nockru. Hann var hræddur um ad einhvorr mundi ná penínaum sínum, vissi því ei hvad hann skyldi af þeim gjora, en eptir ad hann hafdi lengi hugsad sig um, réd hann þad af, ad grafa þá nidur í gólfid, taka upp fjol úr því, og leggja peníngana milli lopta. Þetta tókst honum vel, hann lét gull-peníngana nedst, og þar ofaná stórann seck, fullann med sylfur-penínga, sídan negldi hann fjolina vel ofanyfir aptur, og vard hjartans gladur, ad þetta hefdi svo vel tekist, ad enginn hefdi ordid var vid hvad hann var ad starfa. Svo bar til ad Kaupmadur nockurr med konu sinni og bornum kom í þetta sama gésta-herbergi, og var honum leigd

ni stofa, er var rétt undir loptinu, sem peníngarnir vóru geymdir í. Þessir vesælingar hofdu lidid skip-brot, og mist alla sína aleigu. Madurinn var Lútherskur en konan Pápisk; hún var jafnan ad hugga hann med því, ad hún med sinnúm sífeldu og hjartnæmu bænum, skyldi útverka þad hjá hinum H. Bónifaciusi, sem var hennar Fulltrúi, ad hann skyldi hjálpa þeim úr allri naud, og til hennar þess frekari trúarstyrkingar, vildi svo til, ad sá h. Bónifacius var máladur á vaxdúk, sem negldur var undir bitana á loptinu. Hún lagdi aldrei frá sér nótt eda dag talna-band sitt, sem Pápiskir eru vanir ad þylja á bænir sínar, og tautadi svo mikla afbakada látínu vid þenna sæla dírdlíng, ad hefdi hann heyrt þad, og skilid látínu-mál, þá hefdi hann varla gétad stadid af sér ad hlæa. Einusinni um midnættis bil, lá hún, enn sem optar á knjám, og bad sinn dírdlíng, en madurinn vakti á medan, og var í þúngum þaunkum; varla var hún búin ad segja Amen, fyrr enn peninga-seckurinn og allir gull-peningarnir duttu úr lopti nidur fyrir fætur hennar, og þad úr þeim stad, hvar vasinn hefdi átt at vera á kjólnum dírdlíngsins. Gud minn gódur! hvad er þetta? kalladi madurinn. Þad eru peníngar, madurinn minn gódur! stór peninga-seckur, sem sá helgi Bónifacius skeinkir ockur, sagdi konan. Nú erum vid rétt í einu út úr allri ockar neyd. Skodadu nú! nú hlýtur trúar-leysid þitt ad

verda

verda til skammar! æ! sá blessadi og gódi Bónifacius! skodadu! vasinn, sem hann hafdi peningana í, hefir rifnad. Þareptir sókti hún stiga og saumadi saman rifuna á kjólnum dirdlingsins med gullvír, en var á medan sífeldlega ad kyssa hann og þacka honum fyrir þessa örlætis gáfu. Madurinn komst svo vid af þessu krapta-verki, ad hann grét af gledi og sagdi: Nú sé eg, hjartans konan mín gód! ad þau pápísku trúarbrögd eru sönn, á morgun skulum vid strax reisa hédan, beint til Róm, og þar skal eg opinberlega játa þá trú, og í henni lifa og deyja. Konan gladdist mikilega af þessu, hún umfadmadi mann sinn af ást og alúd, og þau fóru af stad strax um morguninn í bítid.

Á sömu nótt vard þeim gamla nirfli hastarlega íllt, en af því hann svaf í litilli afsídis kytru, heyrdi hann ecki neitt til fallsins. Synir hans þar á móti, sem heyrdu dynkinn vóru mjög gladir, og sögdu hvörr vid annann: tokum vid nú eptir! í þetta sinn batnar ecki kallinum honum födur ockar, því alltid hefir svoddann dynkur ordid fyrir því, þegar einhvörr hefir dáid í ætt ockar. Fadirinn fann líka á sér, ad hann var allt affram kominn, lét kalla sonu sína fyrir sig, og sagdi: börnin mín! eg hlyt nú ad skilja hér vid, en þid fáid kostulég audæfi eptir mig, hvar af þid getid med sómá lifad í veröldinni, ef þid farid eins vel ad högum yckar eins og eg hefi gjört. Undir midfjölinni í kamersinu þarna til hægri handar hefi

hefi eg grafid hundrad þúsund ríkisdali í gulli, og stórann poka med sylfur-peninga þar ad auki. Strax á eptir stundi hann þúngann, og gaf upp öndina. Synir hans vóru naumast búnir ad veita honum nábjargirnar, fyrr enn þeir fóru hoppandi af gledi ad brjóta upp gólfid, en bilt vard þeim vid þegar þeir fundu ecki annad enn þann h. Bónifacius máladann. Hvörr skyldi trúa því, sögdu þeir, ad hann h. Bónifacius hefir stolid peníngunum ockar? og svona eru sumir dýrdlíngarnir! rifu svo í brædi sinni þann h. Bónifacius í þúsund parta. Skodadu, sagdi einn af brædrunum, hvar til hann hefir brúkad peníngana hans födur ockar! hann hefir keypt gullvír fyrir þá, til ad leggja med kjólinn sinn. Er svoddan fyrir afgamla kall-hrotu ad stela peníngum til ad kaupa sér med skart? þad er best, ad tilbidja aldrei neinn heilagann hédanaf, en gésum vid ockur heldur til Lútherskra trúarbragda.

## LXXIV. Gátur.

61.) Skilníngar-vitin. 62.) Dagurinn í dag. 63.) Nasar. 64.) Net-háfur. 65.) Strika.

66.) Unglíngum þéna eg opt til prýdis og gamans, reidum í brædi hans, offsóktum til verndar, en gamal-mennum er eg alltíd velkominn.

67.) Eg ber þúngar byrdir yfir vatnsfoll, sem og forædi, samtengi gjár og hóla, en stend þó alltid kyrr.
68.) Mitt ljós gefur ró.
69.) Einn og annar trúir mér fyrir leyndarmálum, þvi hann veit ad eg þegi, ef húsbóndi minn gétur þagad. Stundum er eg qvalinn og stundum er verid ad skémta mér, en lángtum heldur kys eg mér litla vísu, enn allt gull og gimsteina veraldarinnar.
70.) Farveaurinn minn er litill, þó er lækurinn, sem rennur ígégnum hann útá eydilandid mjög frjóssamur. Avextirnir, sem strax spretta, þegar vatnid rennur, eru ymislegir, sumir gódir, sumir slæmir, sumir geymast vel og lengi, adrir torthynast fljótt. Ef flód kémur, þá brytst þad ætid útúr uppsprettunni, sem er skammt frá, en aldreji útúr far-veginum.

## Fimtudaginn, 25 Decembr.

## LXXV. Sæla er á jördu, og (Gud hefir) velþóknun á manneskjunum. Lúc. 2, 14.

Í qvøld í rockrinu vóru børnin mín í badstofunni, þegar mig bar þar ad, á þeim lá mikid vel, vóru samt galsa-laus, eg hugsadi, ad nú væri þeirra hugskot opid, akurinn hentugur til ad

ad så í einhvörju gódu frækorni, en óvíst hvört eins vel kynni ad liggja á þeim eda sjálfum mér um vökuna. Eg gaf mig því á tal vid þau, og sagdi:

Prestur. Eitthvad þykir yckur nú vænt um, eg sje þid erud svo hýrleg?

Þórdur. Þér vitid hvaraf þad kémur, fadir minn gódur!

Prestur. Vera kann þad; en eg vil líka ad þid segid mér þad.

Þórdur. Þér munid hvada hátíd var í dag?

Prestur. Eg veit ad jóla-dagurinn var í dag. En hvad kémur til ad vel liggur á yckur þó svo sé?

Kristrún. Hún módir mín er búin ad láta sjóda svo mikid, og kértin vóru svo mörg í kirkjunni, og spari-fötin mín, sem eg er í; skodid þér, fadir minn gódur! eins var líka á jólunum í fyrra.

Prestur. Já! já! eg sje þad. En því er svo mikid vidhaft, ecki einasta hérna á bænum ockar, heldur líka í öllu Íslandi, já í allri kristninni; þad er þó sérlegt?

Gudmundur. Eg gét sagt ydur þad, fadir minn gódur! Drottinn vor Jesús Kristur var fæddur á jóla-nóttinni.

Prestur. Jóla-hátídin er haldin í minning þess, ad hann fæddist. En margur annar mikill og gódur madur hefir verid til, og þó er ecki þeirra afmælis-dagur gjördur ad svo stórri gledi-hátíd; hvaraf heldur þú ad þad komi? Hh 2 Gud-

Guðmundur. Af því enginn hefir gjört ockur svo mikið gott, sem Jesús Kristur.

Prestur. Hvað gott hefir hann þá gjört ockur?

Lýður. Hann hefir gefið ockur þá bestu lærdóma?

Prestur. Eg gef yckur líka góða lærdóma, þó er ecki afmælis-dagurinn minn nein hátíð.

Lýður. Jesús Kristur kenndi öllum manneskjum, en þér kennið svo fáum.

Prestur. Það er satt, sem þú segir. En Jesús gjörði manneskjunum þar að auk miklu meira gott enn að kenna þeim. Hann frelsaði þær frá stórri eymd, og ávann þeim aptur í staðinn mikla sælu. Er Jesú lífs-saga þér nockuð kunnug?

Lýður. Já!

Prestur. Segðu mér hana þá!

Lýður. Leit uppá Magnús, og Magnús uppá hann, en öll börnin þögðu.

Prestur. Það er ecki von þið getið komið orðum að því, börnin góð! eg skal þá segja yckur hvörninn til gêck þegar Jesús fæddist.

Mjög illa gêck til í veröldinni, áður enn Jesús kom í heiminn. Þar vóru þá tvennslags manneskjur, Heiðingjar og Gyðingar, hvörutveggju í sáraumu standi. Heiðingjarnir vóru búnir að kasta fyrir óðal, og gleyma öllu því, sem Guð hafði sagt þeirra forfeðrum, en vóru orðnir smámsaman svo fáfróðir, að þeir héldu margir Guði væru til, og diktuðu upp margt heimsku-

heimskulegt og svívirdilegt, um þessa Gudi. Heidingjarnir īminduðu sèr ad þessir Gudir lifdu í veitslum og ofáti, þeim kjæmi illa saman, væru ad kytast og lifdu svo vondslega, ad hvør ein sómasamleg manneskja hefdi mátt skammast sín ad hegda sèr eins og um þá var sagt. Af þessu reis margt illt í veroldinni. Hinir einfoldu hugsudu, ad ef Gudirnir færu svo ad rádi sinu, þá væri sèr óhætt ad gjora þad sama, og svísdust þess vegna ecki ad drygja marga stór-glæpi. Þó Yfirvoldin stundum bønnudu slikt, þá hafdi þad optast litinn árángur, því þau gátu ecki komist ad ollu, eda hindrad margt, sem illt var. Almúginn, sem trúdi ad Gudirnir skiptu sèr eckert af, hvad sem, hvørr hefdist ad, og stroffudu ecki þad, sem þeir sjálfir væru sifeldlega ad gjora, hèldt sèr allt þad leyfilegt er þeir gátu leynt. Þeir skynsamari sáu af greind sinni, ad oll þau æfintýri og lyga-sogur; sem vóru í allra manna munni um Gudina, væru diktur og ósannindi, trúdu þess vegna ad enginn Gud væri til. Endur og sinnum fannst einn og annar Spekíngur, sem uppgøtvadi nockud af sannleikanum, og bar sig ad telja þá trú, ad manneskjurnar ættu ad heidra Gud, og gjora hid góda, en flestir spottudu slika og hlóu ad þeim, en allir gjordu eins og hvørjum einum líkadi best sjálfum. Hinir ríku og mektugu undirþryktu þá fátæku, en fátækir sættu hvørju tækifæri, sem þeir fengu til ad gjora upphlaup. Róm-

verskir vóru um þær mundir þeir mektugustu og skynsömustu af öllum Heidíngjum, en þecktu samt ei sannann Gud betur enn adrir. Þeir bygdu upp stórar hallir og glæsileg musteri, en dýrkudu í þeim Afguda-bílæti. Þar þeir hugsudu, ad Gud skipti sér eckert af því, sem manneskjurnar hafast ad, þá birjudu þeir eitt óréttvíst stríd eptir annad, og þegar þeir inntóku eitthvört land, þá var aldreji hugsad til, ad láta þar vera skóla, kénna fólkinu neitt gott sidferdi, eda þvíumlíkt, heldur svældu þeir undir sig peninga útaf þeim, sem þeir yfirunnu, og svölludu þeim út á eptir í óhófi og sæl-lífi. Lesum einasta fyrsta kapítulann af Páls Postula Sendibréfi til Rómverja, og skodum þar hvörninn hann lýsir framferdi Rómverskra um þær mundir. Forfedur vorir vóru þá vankunnandi og stjórnlausir, hofdu allt þeirra yndi af strídi, og sá var haldinn mestur madurinn af þeim, og vænti sér ædstu sælu í Valhöll, sem flestar manneskjur hafdi drepid. Svona vóru þá Heidíngjarnir; en Gydíngarnir vóru litlu betri. Veistú, Kristrún litla! af hvörjum Gydíngar eru komnir?

Kristrún. Af Abraham.

Prestur. Manstú hvad eg hefi sagt þér um einn mann hjá Gydíngunum, sem kénndi þeim hvörninn þeir ættu ad breyta vid Gud og menn? hvad hét hann?

Kristrún. Ojá! hann hét Móses.

Prestur. Hafdi Gud ecki látid nockra góda menn skilja til Gydínganna neinu loforði frá sér? manstú, Lýdur litli! hvorju Gud hafdi lofad þeim?

Lýdur. Endurlausnara.

Prestur. Já! Þad er rétt. En Gydíngarnir vóru í þær mundir eins slæmir og Heidíngar. Þeirra Yfirvold er kolludust Kénnimanna-hofdíngjar og skrift-lærdir vóru ecki gudhræddir. Þeir látu ad sonnu lángar og margar bænir, svo adrir sæu og heyrdu til, fostudu líka; en í leyníngi báru þeir sig ad forsa til sín hús og góts munadar-lausra og fátækra. Þegar Yfirvoldin breyttu svo, þá má nærri géta, hvorsu baudlegir margir af enum undirgéfnu hafi verid. Þeir væntu ad sonnu þess Endurlausnara, sem þeim var lofadur, en hugsudu ad hann skyldi verda stríds-hetja, sem dræpi þá Rómversku nidur í strá, en gjæfi Gydíngum aptur allt hinna ríkidæmi. Þessvegna vóru þeir alltjafnt reidubúnir, ad setja sig upp á móti Rómverjum, nær sem Endurlausnarinn kjæmi, til ad vera þeirra leidtogi í því. Þeirra eginn Sagnaskrifari Jósephus, sjálfur Gydíngur, segir: ad syndir og lestir hafi svo almennir og stórir verid, ad hefdu Rómverjar ei komid ad drepa Gydínga nidur og eydileggja þá, svo hefdi samt jordin ordid ad opnast og svelgja í sig þann ógudlega stad Jerúsalem, og þær ófreskjur, sem þar í bjuggu. Svona var þá ástatt í veroldinni þegar Kríst-

ur fæddist! þad syndist eins og oll Guds dyr-kan og náungans elska væri gjörsamlega út-sloknud, eins og veroldin væri ordin ad mord-íngja-bæli, hvar hvör manneskjan væri ad leita lags ad drepa og myrda adra.

Gamall Spámadur, ad nafni Micha, hafdi spád, ad Kristur ætti ad fædast í Bethle-hem, en módir Jesú átti ecki þar heima, heldur í Nazareth. Hefdi Kristur fædst í Nazareth, þá hefdu Gydíngarnir aldrei med-tekid hann, heldur sagt: hvad kémur þessi ock-ur vid? sá Lausnari, sem Gud hefir lofad ock-ur, á ad fædast í Bethlehem.

En nú skulud þid sjá, börnin gód! hvörsu dásamlega Gud gétur komid því fyrir, þegar hann vill hafa eitthvad fram. Allir hlutir í veroldinni, og jafnvel manneskjurnar verda ad hjálpa þar til, og þad svo, ad þeir vita ecki af því hvad þeir gjora.

Augústus var í þær mundir, ædsti stjórn-ari Rómverja, og þared Gydíngaland var þá undir þeirra veldi, hafdi hann líka yfir-rád yf-ir Gydíngunum. Augústus skipadi þá, ad allir Gydíngar skyldu fara til þeirra stada, hvar hvörs eins ætt var upprunnin, til ad láta skrifa þar upp nefn sín. María vard því ad fara til Bethlehem, af því ad sá var ættstadur Davids Kóngs forfödur hennar; en medan hún var þar þess erindis, fæddi hún Krist í heiminn, og kalladi hans nafn Jesús, því Gud hafdi ætlad hann til ad gjora allar manneskjur sáluhólpnar.

Nótt-

Nóttina, sem hann fæddist, bar nockud sérlegt til, sem sýndi ad þetta barn mundi verda frábrugdid øllum ødrum. A sømu nótt stódu nockrir smala=menn yfir sé sínu í haganum skammt frá Bethlehem. Líklegt er þeir hafi verid gudhræddir menn, sem sín á milli hafi verid ad tala um stjørnurnar, og horfa á himininn, ellegar og þeir hafi verid ad tala um þad góda, sem Gud héfdi þángad til gjört, edá framvegis mundi gjøra Ísraels fólki. Rétt í einu augna=bragdi vard himininn ljómandi. Þeir urdu hræddir, gættu náqvæmlega ad himninum, og sáu einn af þeim øndum, sem kallast Englar, og hvørja Gud er vanur ad senda til þeirra útréttinga, sem honum þóknast. Þessi Engill ságdi til þeirra: óttist ecki, ég segi ydur frá mikilli gledi, sem allt fólk hefir fengid, því í dag er yckur til góda sá Endurlausnari fæddur í Davids borg, hvørr ad er Kristur og Dróttinn. Sídan lýsti hann fyrir þeim stadnum hvar barnid væri, og á hvørju þeir kynnu ad þeckja þad. Varla var hann búinn ad tala þetta, fyrr enn stór fjøldi af Englum var kominn, sem sáung lof=psálm Gudi til æru. Mikil gledi má þad hafa verid þessum gódu mønnum! þeir fóru strax ad vørmu spori þángad, sem barnid var, og audsýndu því lotníngu.

Skommu þareptir komst þetta barn í mikinn lífs háska. Heródes var þá af Rómverskum tilsettur Kóngur yfir Gydíngalandi,

hann var illmenni, sem lèt drepa hvørn þann, sem honum baud vid ad horfa. Nockrir skynsamir og gódir menn úr fjarlægu landi sögdu honum, ad í Bethlehem væri fædt þad barn, sem mundi afreka eitthvad mikilvægt, og verda Stór-höfdíngi medal Gydínganna; þá vard hann hræddur og hugsadi med sèr: þegar þetta born vex upp, þá kannskè þad reki mig frá ríkinu, þad er best ad fyrirkoma því, á medan þad er á barns-aldri, og gètur ecki varid sig. Strax skipadi hann — æ, börnin mín! svo vond gètur manneskjan ordid, þegar hún lætur eptir brædi sinni, og svifist einkis, sem henni kèmur í hug! hann skipadi ad öll born, sem væru í Bethlehem, eda nálægt þeim stad, tvævetur eda ýngri, skyldu drepast; þènarar hans vóru eins grimmir og sjálfur hann, gjördu þess vegna allteins og fyrir þá var lagt. Æ! hvada skèlfing má hafa verid ad sjá, þegar þessir bödlar hafa verid ad stínga sverdunum ígègnum börnin, í kjöltunni á mædrunum, og horfa á þessa meinlausa barna-únga, sem hafa verid ad veltast um í þeirra egin blódi, en foreldrarnir ad hljóda og gráta uppyfir þeim! en svo vildi Heródes hafa þad — Hann hugsadi, þá gæti hann verid rólegur, því medal þeirra mörgu barna yrdi þó þad ad vera líka med, sem hann var hræddur vid.

En honum vard ecki ad því! þegar Gud vill vardveita einhvørn, þá gètur enginn Kóngur, engin makt, gjört honum mein. Gud var

ädur bäinn ad koma þvi söd fyrir, ad barnid var burtu fyrri enn þad hrÿllilega barnamord skédi. Hann hafdi í draumi sagt Jóseph fóstur-fodur barnsins, ad hann skyldi fara med barnid og módur þess til Egyptalands, hvorri skipun Jóseph strax hafdi hlÿdt. Sú bók, sem heitir Barndóms-sagan Krists og er fyrir laungu skrifud, er eintóm diktur. En þad segir Ritníngin oss, ad í uppvexti sínum var Jesús gott, hlÿdid og gudhrædt barn, sem kom sér vel vid alla, hvarmed hánn hefir sÿnt öllum börnum hvorninn þau egi ad hegda sér, svo Gudi og gódum mönnum sé vel vid þau. Sómasamleg, hlÿdin og góð börn leggja strax í barnæskunni grundvöllinn til þess ad koma sér vel, verda þessa heims farsæl, og annars heims án allrar mædu í fullkominni velgengni; þau hafa síns Endurlausnara góda eptirdæmi fyrir sér; ef þau feta í háns litilætis-, hlÿdnis- og dygda-spor, þá er Gud þeirra gódur fadir, sem elur önn fyrir þeim, frelsar þau úr öllum háska, leidir þau, sér vid hönd, styrkir þau og blessar, og ad sídustu tekur þau til sín í sitt eilífa dírdar-ríki; og allt þetta gott, (og miklu margt fleira, af hvorju eg kannské skal tala um nockud á morgun, ef Gud lofar) egum vid Jesú Kristi ad þacka, sem vor vegna fæddist í heiminn, lifdi í fátækt, leid offóknir, og seinast herfilegann qvalrædafullann dauda. Æ! börnin mín góð! styggjum hann aldrei med vondskufullu liferni, látum honum í tje, þad

þacklæti, sem hann af oss heimtir, ad breyta eptir hans bodordum, ad elska hvørr annann, lifa gudrækilega, sparlega og réttvíslega í heimi þessum. Gud gefi ockur nád, vilja og krapta þar til vegna Drottins vors Jesú Kristo, Amen! syngjum nú øll samhuga, børnin mín gód! (seinasta versid af messu upphafinu í dag: Frelsarinn er oss fæddur nú.)

Føllum nú til fóta Krists, rc.

## Føstudaginn, 26 Decembr.

## *LXXVI.* Hvørsu opt hefi eg viljad samansafna ydur, eins og hænan safnar úngum sínum saman undir vængi sér! Matth. 23, 37.

Þegar eg í qvøld var ad spyrja børn mín úr messunni, minntu þau mig á loford mitt í gjærqvøldi, ad eg ætti ad segja þeim frá nockrum þeim velgjørníngum, sem Jesús hefdi gjørt oss, og hvørja vér aldrei hefdum ødlast, ef hann ei hefdi fædst í þenna heim. Þessir velgjørníngar eru svo margs-slags, ad eg sá mér ecki færi á, ad nefna nema einn einasta, og valdi þá eptir Gudspjallsins ávísun einúngis hans kénníngar, med hvørjum hann leitadist vid, ad gjøra af øllum mønnum, Gydíngum og Heidíngjum (á hvørra beggja astand eg í gjær hafdi drepid) einn søfnud, sem væri kost-

gjæfinn

gjæfinn til góðra verka, og svo heilagur, að hann væri hæfilegur til Guðs ríkis á himnum. Fell þá talið fyrir mér og bornum mínum, sem eptirfylgir:

Þegar Jesús var orðinn þrítugur að aldri, gjorði hann meira gott, enn þángað til. Hann fór um allt Gyðíngaland, kénndi fólkinu hvað það ætti að gjora, svo því liði vel í þessu lífi, og gæti rósamlega skilið við lífið í dauðanum; stundum prédikaði hann á víða-vángi, stundum í musterinu, stundum á fjalli, stundum á skipi, og ollum, sem ei af ásettu forherdtu sig, þókti vænt um að heyra til hans. Eg vil ei nú nefna nema fátt eitt af því, sem hann kénndi manneskjunum. Magnús! hefir þú nockurn tíma beðið?

Magnús. Já! Faðir minn góður!

Prestur. Þegar þú hefir á qvoldin verið búinn að tala við þann góða Guð, búinn að þacka honum fyrir allt það góða, sem hann hefir auðsýnt þér, og beðið hann að vernda þig, þína kjæru foreldra og systkyni, hvornin hefir þá legið á þér?

Magnús. Vel! ofurvel! eg hefi sofnað svo sætt, eins og eg lægi í fángi hans foður míns.

Prestur. Eg trúi þér vel til þess. Eg hefi átt margann gleði-tíma um æfi mína; eg hefi opt haft ánægju hjá vinum mínum, en aldrei hefi eg verið eins vel til geðs, eins og þegar eg hefi beðið rétt hjartanlega. Þá hefi

eg reynt og fundid, hvörsu lukkuleg sú manneskja er, sem í raun og réttri veru gétur sagt: Fadir minn! eg held engin gledi géti jafnast vid þad. Lydur! þú varst sjúkur í haust, þá varstú optast þolinnmódur meir enn von var til. Hvaraf kom þad?

Lydur. Eg var stfeldlega ad bidja Gud.

Prestur. Hvad sagdir þú þá?

Lydur. Eg veit, Gud minn gódur! ad þú elskar mig! þú lætur barnid þitt ecki fortapast! géf þú mér heilsu mína, ef þú sierd ad eg géti ordid veroldinni til nockurs gagns! en eg er líka reidubúinn til ad deyja, ef þad væri svo þinn vilji. Eg hefi alltíd elskad þig, og mér hefir alltíd sárnad, þegar eg hefi móðgad þig, svo eg þá hefi bedid þig forláts á því, sem mér hefir ordid á, og viljad betra mig; eg hefi þess vegna þá von til þín, ad þú munir vilja medtaka mig, vesælings barnid þitt, í himnaríki.

Prestur. Og þá varst þú rólegur! þetta kémur ætíd af því, þegar einhvörr einlæglega segir Gudi frá því, sem ad sér géngur. Hvad illt, sem mætir ockur í veroldinni, þá léttir ockur fyrir hjartanu, þegar vid snúum huga ockar til Guds; þad er svo sætt, þad er svo rósamlegt ad húgsa til þess, ad Gud sier vora naud, og vill létta henni af oss, þegar vér bidjum hann. Hvörr hefir kénnt ockur ad bidja?

Lydur. Drottinn vor Jesús Kristur.

Prestur. Já! svo er þad. Heidíngjarnir hofdu eigi rétta þeckíngu um Gud, því nær enginn þeirra vissi ad þeir hofdu leyfi til, ad tala vid hann, eda hvert Gud vissi af því, ad þeir toludu vid hann. Hefdi Kristur ecki komid í heiminn, þá hefdir þú ecki haft alla þá gledi-tíma, sem bænin hefir gjort þér, þú hefdir þá farid á mis vid þá huggun, sem þú hefir af henni haft. En Jesús hefir skipad oss ad bidja, hann hefir kennt oss, ad vér megum tala vid Gud eins og fodur, og þar hjá lofad ockur, ad Gud vilji heyra ockar bænir. Magnús litli! flettú upp í nýja Testamentinu Matth. 6, 6.

Magnús. Þegar þú bidur, þá gack inn í þitt svefn-herbergi, lokadu dyrunum og bid þinn Fødur, sem er í leyni; þá skal sá Fadir þinn, sem sjer hvad leynilega skédur, endurgjalda þér þad opinberlega.

Prestur. Þad er dæileg Ritníngar-grein! þar uppbvetur Jesús Kristur oss, ad vér skulum bidja einlæglega í einrúmi, þar sem enginn sipar fyrir ockur, bidja Fødur vorn, og lofar undir eins, ad Gud skuli taka eptir því, sem vér tølum og gjørum einslega, og endurgjalda ockur þad. Ydkur þyki vænt um sparifotin yckar, og um þad, sem þid egid ad borda núna um jólin. Hverr gefur yckur þad?

Gudmundur. Þér, Fadir minn gódur!

Prestur. Gét eg þá alltid lifad?

Gudmundur. Ecki helo eg þad.

Prest-

Prestur. Þegar eg dey, hvorr á þá að sorga fyrir því, sem þið þurfið við?

Gudmundur. Hún módir ockar.

Prestur. Þess megið þið vænta af henni. En þegar hún líka fer burt úr veroldinni?

Gudmundur. Þá verdum við ad hafa fyrir ockur sjálf.

Prestur. Heldur þú þá þú getir hafi fyrir þér sjálfur.

Gudmundur. Nei! það get eg ecki. Eg get ecki unnið fyrir helmingi af því, sem eg borda, því síður líka fyrir því, sem eg þarf til fatnadar.

Prestur. Vesælings börn! ef að fadir yckar og módir dæi frá yckur, medan þið erud ung, þá kannske þið yrdud ad deyja úr vesæld? hvad heldur þú? Kristrún litla!

Kristrún. Æ gjörid mig ecki hrædda, Fadir minn gódur! sá gódi Gud lætur ockur ecki deyja úr vesæld.

Prestur. Hvorr er sá, sem ecki lætur þig deyja úr vesæld?

Kristrún. Gud minn gódur!

Prestur. Hvorr hefir sagt þér það?

Kristrún. Þér sjálfir, Fadir minn gódur!

Prestur. Hvad hafdi eg þá fyrir mér í því?

Kristrún. Þér sögdud það stædi í Biblíunni.

Prestur. Manstú med hvada ordum eg sagdi það stædi í henni?

Kríst-

Kristrún. Kastid allri ydar áhyggju uppá Gud, hann ber umhyggju fyrir ydur.

Prestur. Þetta er ypparleg hugaun, börnin mín! margt sorglegt og mörg bágindi falla opt uppá fyrir ockur, sem vid getum ecki hjálpad ockur sjálf útúr. Vid yrdum þá ad yfirbugast af sorginni. En þegar vid hugsum til þess: Gud minn gódur hefir umhyggju fyrir ockur, hann vill oss ætíd hid besta! þá megum vid vera róleg, og sleppa allri sorg. Þetta er líka eitt af því, sem vid egum Jesú Kristi ad þacka. Þad er einn af hans velgjörningum. En, Lydur litli! í fyrri vikunni lá ofur illa á þér. Hvad géck þá ad þér?

Lydur. Þér vitid þad, Fadir minn gódur! þad komst strax upp.

Prestur. Ojá! eg veit þad. En segdu mér þad aptur núna.

Lydur. Eg hafdi léd honum Einari á Sandi bók, og reif hann úr henni tvo blod, medan hún var í láni hjá honum. Þess vegna lá svo illa á mér, og eg var ad hugsa mig um, hvörninn eg gæti hefnt mín á honum aptur.

Prestur. Hvörninn var þér til géds á medan?

Lydur. Illa. Eg gat ecki á mér tekid; allt var eins og utanvid mig. Mér þókti ecki maturinn minn eins gódur og vant var, eg gat ecki lært lectsíuna, sem mér var sett fyrir, og ecki fengid af mér ad leika mér. Því eg var sífeldlega ad þenkja mig um eitthvört brag til ad gæta leikid á hann.

Prestur. Hvada ráð gaf eg þér þá?

Lýður. Þér sögðuð eg skyldi sleppa þeim slæma ásetníngi, og verða aptur blíður og vinsamlegur við hann Einar. Það hefði kannské orðið af ógáti, að hann hefði skémmt bókina; þér sögðuð mér eg skyldi géfa honum kjólmannin úr tré, sem honum hafði lengi leikið hugur á.

Prestur. Hvorninn varð hann við þig þegar þú gafst honum hann?

Lýður. Honum þókti ofurvænt um, kysti mig, og vildi gjöra mér allt til þægðar. Hann fékk líka hann föður sinn til, að kaupa handa mér nýja bók.

Prestur. Sagði eg þér ecki undir eins Ritníngar-grein?

Lýður. Já! þér sögðuð: elskið yðar óvini, blessið þá, sem yður bölva, gjörið þeim gott, sem hata yður, og biðjið fyrir þeim, sem yfirfalla og ofsækja yður.

Prestur. Hvörr heldur þú hafi kénnt mér þetta?

Lýður. Drottinn Jesús Kristur.

Prestur. A hann þá ecki skilið af oss, að vér elskum hann? mikla mæðu hefir hann sparað oss, að hann hefir kénnt oss þetta. Hatrið er beiskt, það skémmir alla vora gleði! en þegar vér elskum hvörr annann, þá höfum vér hugarhægð og ánægju. Þegar einn gjörir öðrum íllt, þá fer hinn að hefna sín og gjörir aptur á hans hluta, og þó hann ecki verði betur til móðs við það, heldur hann samt áfram.

fram. En nú segir Kristur oss: vesælar manneskjur! því viljid þid gjøra yckur lífid beiskt med hatrinu? elskid hvørr annann innbyrdis! og þó adrir séu svo vondir ad gjøra yckur mein, þá gjørid þeim gott þángad til þeir fara ad verda gódir vid yckur, og bidjid Gud ad beygja þeirra sinni. Þeir, sem hlýda Jesú Kristi hafa gott af því, eins og þú, Lýdur minn! þegar hann Einar forlíkadi sig vid þig.

En, mín elsku-born! øll mannanna eymd og armæda kémur af því, ad þeir sækjast ofmjøg eptir sumum hlutum, og fordast adra líka um of. Þaraf kémur alls-slags órósemi í sálunni, sem burt-tekur eda minkar gledi í lífinu. En Drottinn Jesús hefir líka géfid oss þann góda lærdóm, ad vér egum ad undirþvínga vorar sterku girndir og lystíngar. Ef auga þitt, segir hann, hneixlar þig, þá rif þad út og kasta því frá þér. Þad er: þegar þínar lystíngar ætla ad ginna þig til einhvørs ílls, þá stattú á móti þeim, og þó þér kynni sýnast þad eins sárt, eins og ad rífa augad útúr þér. Allir, sem hafa hlýdt þessu, hafa haft gott af því, og reynt ad hann sagdi sannleikann, þegar hann lofadi: hjá mér skulud þér hafa sálar rósemi. Þeir hafa líka af hjarta þackad honum fyrir þann góda lærdóm.

Nú, bornin góð! þessa gledi og fleiri hefir Jesús útvegad oss handa þessu lífi. Kristrún litla! þegar þú hlýdir Jesú Kristi, talar opt í bænum þínum vid Gud þinn gódann,

trúir hans ordum, strídir móti brædi þinni, einþyckni og ødrum løstum, heldur þú þá þú gétir lifad ánægd?

Kristrún. Eg held þad. Þad liggur aldrei betur á mér, enn þegar eg haga mér vel.

Prestur. Þú munt lika óska þér ad lifa lengi?

Kristrún. Já!

Prestur. En ef daudinn kjæmi—

Kristrún. Æ! æ! þá yrdi eg hrædd.

Prestur. Því þá?

Kristrún. Eg qvídi fyrir ad deyja. Eg yrdi þá ad skilja vid foreldra mína, systkyni og alla kunníngja.

Prestur. Ætlar þú ad þú munir aldrei sjá þá aptur?

Kristrún. Jú! á himnum.

Prestur. Ætlar þú þar verdi eigi eins fallegt eins og er á jørdunni?

Kristrún. Eg held miklu fallegra.

Prestur. Mundir þú þá ei vilja deyja, ef Gud þinn gódur vildi hafa þad svo?

Kristrún. Jú! ef Gud vildi svo.

Prestur. En hverr hefir sagt þér ad þú skulir koma í himininn?

Kristrún Jesús Kristur hefir lofad því.

Prestur. Magnús litli! hverninn hefir hann þá sagt?

Magnús. Þeir réttlátu skulu gánga inn til eilífs lífs.

Prest-

Preſtur. Mikid má hann vera gódur. Hann hefir kennt ockur ad þeckja Gud, kennt ockur hvorninn vér gétum haft margann gledi-tíma med bæninni, og verid rólegir í ſtærſtu eymdum, verid ánægdir, og þurfum ecki hrædaſt ſjálfann daudann, og alls þeſſa hefdum vér ordid án ad vera, ef hann ecki hefdi í heiminn fædſt. Nú, börninn gód! ſyngjum honum til lofs og æru (ſeinaſta verſid af Pſálminum: Af Fødurs hjarta barn er borid.)

Ø! ad vér þá elſku þecktum, ꝛc.

Laugardaginn, 27 Decembr.

## LXXVII. Manneſkja, er ei gat ſockid í vatni, og vatn, ſem enginn gétur ſockid í.

Í þetta ſinn beiddu börn mín og fólkid mig ad enda þad, ſem eg fyrir nockru lofad hafdi, ad ſegja þeim dæmi uppá manneſkju er ecki gæti ſockid í vatni, og uppá vatn, ſem enginn gæti ſockid í, hvort-tveggja ſýndiſt þeim undarlegt, og höfdu þau gjört ſér ymſar gétgátur um hvorninn þad gæti ſkéd, hvorsvegna eg leitadiſt vid ad ſedja forvitni þeirra á þenna hátt:

Á ſídustu árunum, ſem eg var í Kaupmannahøfn, var í Neapólis á Vallandi Preſtur einn á fertugs aldri, lærdur madur, Síra Páll Moccía, ſem gat gjört á vatni fleſt þad, er adrir hafaſt ad á þurru landi. Hann géck

útá sjó, og lét bylgjurnar halda sér stødugum, en sock ei lengra enn vatnid tók honum uppá midt brjóst, lét svo hendurnar hánga nidur med hlidunum, géck þannig í vatninu eins og þad væri á landi; kjæmi þá straumur edur bylgju-kast ad honum, gat hann ecki gengid, eda fært fæturnar áfram, heldur héldt þeim saman, og víxl-lagdi handleggina, ellegar héldt þeim fast ad búknum, og lét svo strauminn bera sig upprèttann, en aldrei sock hann. Í blæ-logni átti hann bágt med ad gánga, en brúkadi þá samt hendurnar eins og ára-blod, hann gat líka stadid kyrr, þegar hann vildi, bordadi mat þegar honum var hann færdur, skrifadi edá las, væri honum fengin bók. Menn létu góda sund-menn fara til hans og taka í fæturnar á honum, til ad draga hann nidur, hvar til þeir þurftu ad neytá orku, og þá skaut honum strax upp aptur, þegar þeir slepptu honum; hann setti hondina undir kinn og alnbogann á vatnid, eins og þegar setid er vid bord, og svo gat hann sofid, þó vard hann þá ad taka fótin hinumegin upp, og rètta hann út ofaná vatninu. Hvorki gat hann sýndt nè kunni þad. Þad var af hendíngu, ad hann fyrst vard þess var, ad líkama hans var þannig háttad. Í Vallandi er þad morgum svölun þegar mikill er sólar-hiti, ad bada sig í sjó eda vatni. Hann var einusinni þannig med morgum ødrum ad bada sig, og fann ad hann gat aldrei til sulls stángid sèr, reyndi hann

opt

ypt til hins sama, vard svo smámsaman djarfari, þángad til hann vogadi sér ad gánga útí rúm-sjó. Eins kunna ad vera fleiri mannesktur, einkum feitar og léttholda qvenn-persónur, en enginn veit þad medan ecki er tilreynt. Aldrei hafdi hann í sótt legid, svo þetta hafi gétad þaraf orsakast, og eckert sérlegt var á honum ad sjá, sem gjördi hann odrum frá-leitann, var ad sönnu madur í feitari lagi, en ecki svo nein býsn væri, því hann vóg 19 fjórdúnga. — En orsökin til þessa hefir fundist: lærdur madur nockurr mældi stærd hans náqvæmlega, og þá fannst ad hann var vel svo þriáthai og átta morkum léttari enn vatn, sem innilykst í jafnstóru rúmi, eda, eins og eg á Laugardaginn var, kalladi þad, hann var edlis-léttari enn vatn, vard þess vegna ofauá þoí ad fljóta. Eg vil ecki eyda tímanum lengur um þetta dæmi, samt vil eg ádur enn eg hér vid hætti, drepa á þad, ad ólíkt er þetta því þegar Jesús Kristur géck á vatninu, hann fór á móti ossa-vedri, hann mun ei, þared hann var sífeldlega á ferd fót-gángandi, hafa verid holdugur madur, eins og hann Síra Moccia var, líka þurfti hann ei annad enn skipa Pétri ad gánga á vatninu, hvorr strax ætladi ad sockva, og loksins stodvadi Drottinn vor vind og sjó, strax sem hann var kominn uppí bátinn, med þessu krapta-verki búinn ad hughreysta Lærlsveinana, og stadfesta þeirra traust til sín.

Adur

Adur enn eg segi yckur frá hinu dæminu um vatn þad, sem enginn gétur sockid í, verd eg ad minna yckur á, ad salt er edlis-þyngra enn vatn, þess vegna ef þid látid glæ-nýtt egg í vatn, þá sockur þad, en ef þid látid salt brádna í sama vatni, fer eggid ad fljóta ofaná. Allt sjóar-vatn er salt, og þess vegna edlis-þyngra enn salt-laust vatn í regni, snjó, lækjum, ám og stödu-vötnum; er sjóar-vatnid því saltara, sem nær er Midjardar-línunni. Í Midjardar-hafinu er fimtándi partur þess salt. Þaraf kémur, ad í sjóar-vatni eru allir hlutir léttari enn í ósöltu, og sá bátur sem í þessu ber fjórtan menn, ber eins vel, og þó betur til, fimtán á sjó. Enginn sjór er svo saltur í heiminum, sem Dauda-vatn (mare mortuum) í Gydíngalandi. Þetta stödu-vatn hefir ýmisleg nöfn í Ritníngunni, og hjá heidnum Sagna-skrifurum: Sléttlendis-vatnid mun þad fyrst hafa heitid 5 Mós. b. 4, 49. því þad lá sunnan til vid Jórdans sléttur; Seltu-vatn kallast þad, 5 Mós. b. 3, 17. Jós. 3, 16. og 12, 3. líka vídar, og Spámennirnir kölludu þad Austur-vatn. Ezech. 47, 18. Jóel 2, 20. Zach. 14, 8. því þad lá mót austri frá Jerúsalem; Jardarbiks-vatn (lacus asphaltites) heitir þad hjá Sagna-skrifurum af biklími því, sem þar er nægd af; Dauda-vatn, af því eckert rennsli edur hræring er í því. Tyrkjar kalla þad Brennusteins-vatn, og Arabískir Loths-vatn, vegna þess stadirnir Sódóma og hin-

hinir sjörir vóru í þeim dal, sem þetta sála og ramsallta stödu-vatn nú syllir. Eg hefi sagt yckur öll þessi nöfn, bædi til ad skilja um hvada vatn talad er í bókum, þó ymis-leg séu ordin uppá sama hlut, og líka af því, ad sérhvört af þessum nöfnum bendir til ad-skiljanlegra vatnsins eginlegleiká. Þetta vatn er svo sallt, ad allur fimti partur þess er klára sallt, og þeir, sem rekid hafa andlitid á sér nidur í þad, hafa fundid, ad yfir þad allt hafdi setst sallt-skurn. Héraf kémur, ad þart finnst engin lifandi sképna, og þared þad er hid edlis-þýngsta vatn, sem menn til vita, svo sockur líka enginn lifandi sképna í þad. Ves-pasíanus Keisari lét til reynslu taka nockra menn, sem eckert kunnu í sundi, binda hend-urnar á bak þeim, og kasta þeim útí vatnid, en enginn þeirra gat sockid. Adrir hafa hoss-ad sér, og leitast vid ad koma á kaf, en hafa ecki gétad; hafa velt sér eins og tunnu á vatn-inu, eda lagt sig ymislega til ad géta sockid, en þeim hefir í engann máta tekist þad, og þó þeir hafi stappad med fótunum nidur í vatnid, hefir þad ad vörmu spori hafid fæt-urnar aptur upp úr sér. Hvad mikid sallt hér sé í jördunni, má af því nærri géta, ad vatn-id sjálft er gódar þrjár þíngmanna-leidir á lengd, en hálf önnur á breidd, renna í þad tvær stórar ár Jórdan og Arnon, og sex adrar minni, þaradauk lækirnir Kedron og Zared, en eckert rennandi vatn kémur úr því

aptur svo sjáist. Þetta mikla sallt er brúkad til matar, og innbyggjararnir flytja ecki allitid af því til solu i onnur lond og hérod; safna þeir því þannig: ad þeir gjora grafir skamt frá vatns-bockunum. Þegar mikill voxtur er á vorin i Jórdan og fleirum ám, sem i Dauda-vatn renna, flóir þad uppá backana, og fyllir upp tjedar holur, en þá vatnavoxturinn er úti, og vatnid af bockunum runnid, sýdur sólar-hitinn og þurkar upp þad vatn, sem i holunum vard eptir, svo þad verdur ad sallti. Þessar sallt-holur hafa frá alda-odli verid brúkadar, sem sjest af Zophon. 2, 9.

Þegar eg ætladi hér med ad hætta, spurdi Magnús minn mig ad, hvad mikid munadi edlis-þyngd vatns og sallts, svo og trés, glers, og almennilegustu málma-tegunda. Til svars þar uppá taldi eg honum upp eptirfylgjandi fáein dæmi uppá edlis-þyngd ýmislegra hluta eptir þeim grundvelli, ad regn-vatn vegi 100 lód, vegur þá jafnstærd þess af

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Lopti | : | 1¼. | Sallti | : | 214. |
| Greni | : | 30. | Gleri | : | 266. |
| Terpentín-olju | | 79. | Kristalli | : | 340. |
| Breñuvíni hreinu | | 86. | Járni steyptu | : | 710. |
| Tólg | : | 95. | Tini | : | 732. |
| Vaxi | : | 96. | Járni smídudu | | 784. |
| Mjólk | : | 103. | Stáli | : | 789. |
| Blódi | : | 104. | Látúni steyptu | | 823. |
| Kjoti | : | 106. | —— hamarsleg. | | 835. |
| Steinkolum | | 124. | Klucku-kopari | | 870. |

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eiri | 878. | Dúcáta-gulli | 1826. |
| Sylfri smídudu | 1053. | Hreinasta gulli | 1964. |
| — — hreinasta | 1109. | Platína edur | |
| Blýi | 1140. | Hvíta-gulli | 2100. |
| Qvikasylfri | 1358. | | |

## LXXVIII. Sjaldan veldur einn, þegar tveir deila.

Kona nockur hafdi þad mótlæti, ad bóndi hennar bardi hana á hvörjum degi, svo hún opt lá sjúk eptir, en þó optar, sem hún slapp med glódar-auga, eda tvær eda þrjár kúlur, sem hlupu upp á henni; hún fór til gamallrar nágranna konu sinnar, sem hafdi ord fyrir ad kunna margt, og ecki trútt um, ad sumir héldu nockud væri forneskjulegt, því hún kom því öllu fram, sem hún tók sér fyrir hondur; adrir assokudu hana samt fyrir því, og sögdu: ad þared hún væri forsjál, adgjætin og tæki vel eptir sinnis-lagi allra þeirra, sem hún ætti nockud vid ad skipta, ynni hún þá svo, ad þeir gjordu allt hvad hún vildi, því hún sá fyrirfram allt þad, sem þeir hofdu lofta á ad gjora. Þessi góda kona hlustadi med athygli á þad, sem nágranna kona hennar þuldi fram um raunir sínar, og vegna þess hún bædi þeckti konuna og manninn hennar, lofadi hún ad gjora sitt besta, og brúka alla þá kunnáttu, sem hún hefdi, til ad létta þessu mótlæti á henni. Hún tók þá stóra krucku fulla med vatn,

setti hana á bordid, gékk tvisvar sólar-sinnis og einusinni andsælis í kríngum þad, en var á medan ad tauta eitthvad fyrir munni sér, sídan lét hún þrjá smáa mola af salti í sama vatn, hélti því sídan á flösku og sagdi: geymdu grandvarlega þetta vatn, og í hvört sinn, sem þú sjer, ad manninum þínum ætlar ad fara ad renna í skap, þá taktú gúl-sopa þinn af vatninu, og eg lofa þér því, ad svo lengi, sem þú heldur því í munninum, skál madurinn þinn ecki berja þig. Konan þackadi henni hjartanlega, og forsómadi ecki ad brúka þetta medal eptir því, sem fyrir hana var lagt. Nú hafdi hún engann efa um, ad þessi gamla kona væri galdra-norn, því í þá heilu viku, sem vatnid dugdi, bardi bóndi hennar hana ecki einusinni, því sídur optar. Hún vard mjög sorg-bitin, þegar hún sá ad flaskan var ordin tóm, fór því sem fljótast aptur til nábúa konu sinnar, og beiddi hana ad géfa sér á hana af sama aptur. Þú þarft þess ecki med, fuglinn minn! sagdi kunnáttu konan. Vatnid er úr læknum, sem rennur milli bæanna ockar beggja, en ordin, sem eg taladi yfir því, þýddu ekkert. Hvad um þad, sagdi adkomandi konan, þad vatn hafdi þó þann krapt, ad madurinn minn hefir aldrei barid mig sídan. Þad kom af því, svaradi gamal-konan, ad þú svaradir honum engu, því þú gatst ecki talad medan þú hafdir vatnid í munninum. Fardu nú heim aptur, og þegar þú sjerd, ad madurinn þinn er druck-

inn,

inn, ellegar illa liggur á honum, þá í stadinn fyrir ad jafnkyta honum ellegar vera svorul, önugleg í ordum, og ertin, þá einsetti þér ad þegja, rétt eins og munnurinn á þér sé fullur med vatn, og þá muntú reyna, ad honum rénar reidin. Þessu rádi fylgdi konan trúlega, og þad vard henni ad gódu, því þegar bóndi hennar fékk ecki lengur ill svör, vandist af honum ad vera brádur til reidi, hann fór þareptir vel med konu sína, og elskadi hana heitt, strax sem hún var ordin gjæf og hógvær.

## LXXIX. Gátur.

66.) Stafur. 67.) Brú. 68.) Túnglsljós. 69.) Eyra. 70.) Penni.

71.) Stórann brúka mig einasta bændur, en litinn þeir, sem eru af ædra standi; stór er eg settur upp vid vegg, en lítill látinn í nett hulstur; stór er eg brúkadur einsamall til vinnu, en lítill þarf eg optast annann med mér til hjálpar.

72.) Hvad er ómissanlegast vid hvörja máltíd?

73.) Mitt engi verdur ecki slegid fyrr enn allt grasid er undir snjókrapi.

74.) Ofaná mér ser þú upp, og ofaná mér nidur. Þó verdur þú vel ad mæla mig med skrefum þínum, því þú getur ecki farid eins lángt og þú vilt, heldur ræd eg því hvad lángt þú fer, annars verdur þú ad stadnæmast uppi eda nidri.

75.) Eins og eg er, verd eg. Sé eg úng þá verd eg úng; sé eg gomul, þá verd eg gomul; sé eg blíd, þá verd eg blíd, sé eg dymm þá verd eg dymm. Eg hefi augu, og sie ecki; eyru, og heyri ecki; munn, og mæli ecki.

## Sunnudaginn, 28 Decembr.

### LXXX. (Spákona Anna) géck eigi úr musterinu, þjónandi Gudi nótt og dag med føstum og bæna-haldi.

Lúc. 2, 37.

Þetta (sagdi eg vid børn min) má ei skiljast svo sem Anna hafi aldrei útúr musterinu farid, en hafi alltaf verid ad offra, og fremja þar opinbera Guds dyrkun, heldur; 1.) er þad af lærdum monnum fullsannad, ad qvennfólk framdi hjá Gydingum eckert opinberrar Guds þjónustu verk, nema einúngis ad syngja heilaga psálma, og ad því leiti átti Anna Spákonu nafnid 1 Sam. 10, 5. Dóm. b. 4, 4. 5, 1. 1 Cor. 11, 5. En gudrækuar qvinnur vóru vid þjónustugjørdina, lofudu Gud, þøckudu honum, og tilbádu hann 1 Sam. 2, 24. Lúc. 2, 22. 38. 41. Eigi færi eg samt þessu minu máli til sonnunar 2 Mós. b. 38, 8. þar sem gétid er um „hvert „yfir frá konunum, sem þjónudu fyrir sam„kundu-dyrunum“ því þar skil eg einkum ad fagr-

fagrar mindir hafi verid til prýdis vid samkundu tjaldbúdar-dyrnar. 2.) Anna mun ei nótt og daga hafa verid í musterinu, enn sídur ætlo verid ad bidja Gud, og þacka honum, því þad stendst engin manneskja í stellu. Hér er meiníngin: ad hún, eins og vér ad ordi komunst, var vakinn og sofin í, lét sér um eckert vera meira annt, enn ad vera á tilsettum fórnfæríngа og guds-þjónustu tídum í musterinu, og forsómadi þad aldrei. Þannig takast ordin alltíd og nótt og dag í Ritníngunni Lúc. 24, 54. Psálm. 1, 2. Marc. 5, 5. Lúc. 18, 1. 7. Post. g. b. 10, 2. 20, 31. 1 Thess. 2, 9. og 3, 10. 2 Thessal. 3, 8. 1 Timoth. 5, 5. 2 Tim. 1, 3. o. s. v. En hvad egum vid af þessu ad læra, börnin mín? Þessi há-aldrada kona var svo kostgjæfin í ad vitja Guds musteris, en hvørt yckar var þad, sem lét skila fyrir sig til mín í morgun, ad þad mætti vera inni, og fara ecki í kirkjuna, því svo kallt væri?

Lydur. Þad var eg, Fadir minn gódur! mig nøddi allann ígégn þegar eg kom út í morgun, svo hvasst og kallt var þá.

Prestur. Þegar eckert gott á ad gjøra, Lydur minn! nema þad, sem madur þarf eckert ad leggja hardt á sig fyrir, þá verdur þad mjøg litid. Eg er hræddur um þá verdi of-heitt á sumrin eins og núna var of-kallt. En hann jafn-aldri þinn, hann Þorsteinn á Hálsi, var þó vid kirkjuna, og átti samt bædi á móti og lángann kirkju-veg. Samt tók, eg eptir, ad

þeir

þeir vóru ecki í kirkju, sem bædi áttu skémri veg, og líka vóru eldri, og betur klæddir enn hann Þorsteinn.

Erlendur. Eg veit þér munud meina til mín, húsbóndi gódur! en eg var í kirkjunni báda hátídis-dagana, og þá veit eg ad ecki skipar Forordníngin manni ad fara optar til kirkju, hellst á vetrar-daginn.

Prestur. Heldur þú, Erlendur minn! ad Gud muni dæma þig einasta eptir Forordníngunum? nei! Sýslumadurinn hefir þær sér fyrir reglu í sínum dómum. En samvitska þín og gudhrædsla eiga ad sýna þér, ad þegar þú átt heima á kirkju-stadnum, þá er þér hægra um kirkjuferdir enn ödrum, sem lengra eiga. Ad sönnu þecki eg þig, ad þad kémur ecki af Guds orda forakti eda gudleysi fyrir þér, þó þú sért optar frá kirkjunni enn þú þarft ad vera, heldur er þad af því þú veist ecki hvad mikid á því rídur, ad vera opt vid opinbera Guds-þiónustugiörd, og þér mun ecki í úngdæminu hafa verid haldid til þess svo opt sem skyldi, ef þad er satt, sem sagt er, ad hann fyrri húsbóndi þinn hafi giört sér ad reglu ad koma ecki til kirkju optar enn þridja hvört sinn, sem embættad var, enn kirkju yckar bar ecki optar enn þridja hvörn á sumar, og fiórda hvörn á vetur.

Erlendur. Satt er þad, húsbóndi gódur! og því brá mér svo mikid vid, þegar eg fyrst kom híngad í sókn, og mér var sagt, þér vild-

ud fólkid, sem gæti mist sig ad heiman, og úngt og heilbrygdt væri, skyldi koma hvorn helgann dag til kirkju ad forfalla-lausu. Ek hefi aldrei gétad skilid þad, ad svo mikid rli i á kirkjuferdunum, þegar madur annars helgar hvíldar-daginn.

Prestur. Hefdir þú, Erlendur minn! og margir fleiri þenkt eptir því, hvad stór velgjörníngur af Gudi ein helgi í hvorri viku er, þá. þækti þér og þeim ei svo lítid til kirkjuferdanna koma. Stóra velgjörd veitti Gud med þeirri tilskickun manneskjunnar líkama, sem ætíd þarf endrum og sinnum ad fá hvíld og endurnæríng, annars út-tæmist hann og ormagnast af sífeldu sliti og strit-vinnu. Samt var sú velgjördin miklu stærri, sem þar med veittist sálunni. Ef þánkarnir eru sí og æ fastir vid búksorg, líkamans vinnu og tímanlega muni, þá yrdi ávoxturinn þaraf þúngsinni, dofinnleikur til alls, sem sanna og stadfasta sælu snertir, og manneskjan mundi fljótt gleyma Gudi sínum, til hvörs hún sjaldan hugsadi,ef hún hefdi ei tiltekinn fastsettann tíma ad upplypta sinni sinu og hugskoti, til ad yfirvega hans gædsku og velgjörnínga, sem hann á umlidnum sex dogum hefir manneskjunni gefid, þacka honum fyrir þá, og bidja um Guds nád, vernd og adstod til ad lifa vel, lída þolinmódlega, og halda uppbyggilega áfram á lífsins skeidi tilkomandi vikuna. Til þessa þénar lángtum betur, sameginlega med morgunt

odrum í heilum söfnudi, ad syngja Gudi lof, bidja í einíngu, og sá samegínlegann lærdóm af kénníngum Prestsins, enn einasta ad hlyda á lestur í heima-húsum. Allir, sem rétt adgæta þad, siá líka Guds gædsku í því, ad hann heimtar ei meira af oss enn einn daginn af sjö, en skilur oss eptir sex til ad vinna á, og þarsndauk er þad enn ein velgjörd, ad hann þennann eina dag ecki heimtar neitt af oss, sem oss þarf ersidt eda bágt ad falla; því þad er einasta ad koma saman í hans húsi, til ad vegsama og tilbidja hann, siálfum oss til betrunar, lærdóms og uppörfunar í því, sem oss er naudsynlegast og ómissanlegast.

Sigurdur. En var ei Sabbaths-dagur Gydínganna partur af kirkjusidum þeirra, og skuggi einn, þar sem vér hofum siálfann líkamann, Krist, og kristilegt frelsi, svo vér ei þurfum lengur á því Gydínga stafrófi ad halda?

Prestur. Satt er þetta ad nockru leiti, Sigurdur minn! en þaraf má samt ei drága ad oll skylda vor áhrærandi einn helgann dag í viku sé burt-tekinn og ordinn ad engu. Sunnudags helgin er hiá kristnum monnum eins gomul og nýja Testamentisins lærdómur; Postularnir létu sofnudinn þá koma soman, og hafa án efa útvalid þann dag, eda Drottinn Jesús hefir tiltekid hann í minníng þess, ad hann, Endurlausnarinn vor, reis þá frá dauda, hvörs velgjörníngs oss ber ætíd ad minnast, og láta hann vekja upp fyrir oss, ad vér egum af synd-

syndanna dauda upp ad rísa, Róm. 6, 4. En þad þá, Sigurdur minn! sagdir um Gydinganna Sabbath, þá meguin vér Gudi fyrir þacka, ad vor opinber Guds-þiónusta er óvandari, léttbærari og frelsis meiri enn Gydinganna; þeirra fórnfæríngar kostudu sátæka mikid; sida-lögmálid var margbreytt, þeir urdu ad vera eins og á glódum, hvort eckert hefdi mis-tekist, eckert lyti verid á fórninni, engin yfirsjón í hreinsuninni og offurs-adferdinni; þad var bágt fyrir þá ad vera óhreinir og skildir um stund og tíma frá allra manna samneyti fyrir hvørn smámuninn, og þúngt ad fara þrisvar á ári frá eihum lands-enda til annars ad Jerúsalems musteri. Frá øllum þessum þyngslum erum vér frír, því Gud heimtar nú ecki af oss annad enn frjálsa, ljúfa og einlæga dýrkun munnsins og hugskotsins, sem fátækir géta eins vel í tje látid og ríkir; vér þurfum ei ad fara nema spøl-korn, eins eda fárra kluckustíma ferd, til kirkjunnar. Og, gétur sá þá kristinn heitid, sem lætur hvørn einn smámun, litla skúr eda nædíng, halda sér heima frá kirkjunni, og hindra sig frá ad nýta sér þann stóra Guds velgjorníng í hans sofnudi ad lofa Gud, vegsama hann og þacka honum, betrast af Guds orda heyrn, og stadfestast í sonnum Guds ótta? æ! hvad ólíkir eru slíkir **Davíd** Kóngi, sem eckert stærra yndi hafdi, enn ad birtast í húsi Drottins? **Hvad yndislegur**, sagdi hann (ellegar Samuel, ef

 hann

hann hefir Psálminn orkt) hvad yndislegur er þinn bústadur! herskaranna Drottinn! mig sárlángar til ad koma í forgard Drottins! mitt sinni og hugur hrópa af gledi til hinns sannarlega eilífa Guds. Psálm. 84, 2. 3.

Sigurdur. En hvad er þá, Prestur minn gódur! sem madur á sérlega ad gjöra til kirkjunnar?

Prestur. Ad vegsama Gud, bidja hann, og betrast af ad heyra Guds ord. Vér vegsömum Gud, þegar vér samansöfnunst fyrir hans augliti, þad er: hvar hans þjónustugjörd er framin, þökkum honum fyrir Jesúm Krist og alla þá velgjörnínga, sem Gud hefir géfid oss med honum. Lofum og dýrkum Gud fyrir allt þad andlegt og líkamlegt gott, sem hann hefir látid oss í tje á umlidinni viku, géfid oss föt og fædi, verndad oss frá örbyrgd, sótt, slisum og dauda, hjálpad ockur í ockar starfi og atvinnu, og blessad vorar átréttíngar. Hértil heyrir sérílagi saungurinn í kirkjunni; getur nockur gudhrædd manneskja, sem þenkir um sálar velferd sína, og ad hún birtist med mörgum ödrum sínum brædrum fyrir Guds síns Drottins augliti; getur, segi eg, nockurr verid svo tilfinníngar-laus, ad láta sig einu gylda hvort hann er nálægur eda ecki, þegar heill Guds barna söfnudur sameginlega med hug og raust syngur Drottni allsvaldanda lof og dírd, prísar sinn Gud med Psálminum: Til þín, heilagi Herra Gud! Sælir eru þeim sjálfur Gud.

Gud. Og mörgum fleirum, en þó allrahelst þeim ad-dáanlega Psálmi: Heidur sé Gudi himnum á, eda Alleinasta Gudi í himnaríki? mikill sálar-dofi má vera, heldur ad vilja slíma og slóra einhversstadar í nánd, enn ad hafa hlut-deild í svo yndislegu lofgjördar verki!

Þad annad, sem eg sagdi ætti ad vera vort erindi til kirkjunnar, er ad **bidja Gud**, og á þad mjög skyldt vid hid fyrr umtalada ad vegsama hann, því þegar vér þeckjum Gud fyrir þann, sem vér egum allt gott til lífs og sálar ad þacka, þá egum vér líka ad bidja hann um allt þad góda, sem vér vidþurfum. Þessvegna er Gudsþjónustu-gjördin hjá oss byrjud og endud med bæn, oa þeir gjöra illa, sem ad naudsynjalausu forsóma ad vera vid þá bæn, þeir mundu máske margir meira úr býtum bera af þjónustu-gjördinni, ef þeir af hug og hjarta beiddu med Kór-djáknanum, sem hefir upp ordin fyrir söfnudinum, og minnir á þad, sem oss ber þar ad bidja um. Yckur þarf eg ecki ad segja, ad saungur og bænir mega ei vera einbert munn-flapur, yckur hefir svo opt verid sagt þad, þid vitid, ad Gud bæn-heyrir ei adra enn þá, sem nálgast hann med audmýkt, hreinum ásetníngi ad hlýda honum, og sonarlegu trúnadar-trausti, sem gefur sig allann Gudi á vald, og lætur sér allt lynda, sem hans speki álítur ad vera þénanlegast.

Hid þridja, sem á ad vera vort erindi til kirkjunnar er, ad **betrast af heyrn Guds**

orda, þad er: ad læra hvad Gud heimtar af oss, hvad hann ætlar sér med oss, styrkjast á trúnni á hann, og uppørfast til heilags lífernis. Þá vér í úngdæminu lærum þad, sem oss er naudsynlegast ad vita til vorrar sálar velferdar, þá þarf þad fyrir oss ad ítrekast, brýnast, og uppá margvíslegann máta ad útlistast, ef þad á ad vera vakandi fyrir vorum hugskotssjónum. Freistíngarnar eru margvíslegar, móti þeim þarf þessvegna margvíslegar varnir, sem oss eru sýndar í Guds orda prédikun, þar verda løstanna tillockanir og vondskunnar veidibrellur útmáladar, og líka hvad gótt dygdirnar med sér færa. Yfirheyrsla úngdómsins í kirkjunni er eins nytsamleg, þar gétur hvorreinn í huga sínum lesid svarid, sem úngdómurinn er adspurdur, og fær þar ad heyra útleggíngu yfir eitt og annad í barna-lærdóminum, sem þá risjast upp fyrir þeim fullordnu, þeir géta þar líka tekid eptir morgu, sem þeir á eptir kunna ad kénna únglingum heima hjá sér, og leggja þad eins út fyrir þeim, eins og Presturinn gjørdi í yfirheyrslunni innan kirkju, hvad morgum kann ad gódu gagni koma, þegar nýi barna-lærdómurinn kémst á gáng, því í fyrstunni er hvorreinn hlutur torveldari enn þegar hann er algengur ordinn; og svo er um þann lærdóm, ad svo audveldur, lidugur og gódur, sem hann er, mun óvaninn í fyrstu gjøra hann þeim ørdugann, sem ecki brúka athygli og eptirtekt, hvørninn hægast sé ad innprenta og útleggja hann.

En

En í því eg, börnin mín góð! nefndi at= hygli og eptirtekt, þá vil eg ei gleyma því ad lyktum, ad bidja yckur muna til þess, ad allur ávöxturinn af kirkjuferdunum er undir því kominn, hvort þid brúkid athygli og ept= irtekt ellegar ecki. Vanti þetta, þá er allur saungur, bænir og Guds orda heyrn yckur til einkis gagns. Um Psálma=saunginn, þegar hugur fylgir ei máli, segir Gud: Amos 5, 23. 24. „hættá med þína mörgu saungva! ea gét „ecki fengid af mér, ad heyra uppá lof=psálmi= „ana af Psaltaranum þínum! en sannsýnin „fljóti eins og lækur, og réttvísin eins og sí= „rennandi uppsprettа!" um bænina: „þessi „lýdur nálgast mig med vorunum, en hugur= „inn er lángt þar frá. Esaj. 29, 13. Marc. „7, 6." og um Guds orda heyrn: ad sá, sem ecki heimfæri ordid uppá sitt ástand, eda kappkostar ecki ad breyta eptir því, heldur er eptir sem ádur eins hálfvolgur og hirdulaus í því góda, eins fastur vid sinn gamla synda= vana og vondar tilhneigíngar, hann sé eins og sá, sem skodar sig í spegli, en strax, sem hann snýr vid bakinu er búinn ad gleyma ásjónu sinni, Jac. 1, 23. Hann, sem sagt hefir: „hvör „sem elskar mig, sá vardveitir mín ord" Jóh. 14, 21. 23. gefi oss öllum nád til ad elska, heyra, vardveita hans ord, og færa af því stodugann ávöxt, svo hann aptur á mót elski oss, og inn= leidi í þá sælu, hvar vor sífeld ydja skal vera, ad lofa og vegsama vorn góda Gud, hafa

ockar yndi af ad tala um hann, og auka vora þeckingu um hans dásemdar verk.

Samsýngjum þá oll Davíd Kóngi, af Psálmi hans 27. (*)

Eg bid eins hlutar, Herra Gud! hann vil og gjarnan þyggja; ad eg mætti alla lífs-tíd í þínu húsi byggja, ad horfa á, og heyra þá, heilögu Guds þjónustu, og vitja þess þíns musteres þar læra ordin bestu.

## Mánudaginn, 29 Decembr.

## LXXXI. Margur ágirnist meir enn þarf.

Einusinni var madur nockurr, sem eckert átti í eigu sinni, nema einn aumlegann kofa á backanum hjá litlum læk, og lifdi ei á ödru enn þeim smá-murtum, sem hann veiddi í lækuum, hvad þó var harla litid vidur-væri; samt var hann ánægdur í sinni fátækt, því hann girntist eckert nema þad, sem hann átti. Einusinni kom honum í hug, ad vitja sjá kaupstad, og einsetti sér ad fara þángad daginn eptir. Þegar hann var ad velta þessari reisu fyrir sér í þaunkunum, mætti honum ferdamadur, sem spurdi hvad lángt væri til nærsta þorps, svo hann gæti fundid bæ til ad vera í um nóttina. Þángad er þingmanna-leid, svaradi fiskar-

(*) Lagid er: Verdi ætíd hvad vill minn Gud.

Krinn hönum, en nú er ordid mjøg framordid; ef þú vilt vera hér í kofanum mínum í nótt, þá er þér það velkomid. Ferdamadurinn þádi það, og fiskarinn, er ætladi ad taka gest sinn, sem best hann gat, fór ad qveikja upp eld, til ad sjóda nockrar murtur. Medan hann var ad þessu, saung hann, hló og lék vid hvørn sinn fingur. Mikid máttú vera luckulegur! sagdi gestur hans vid hann, ad vera svona kátur. Eg vildi gefa allt hvad eg á til ad geta verid eins gladur og þú. Hvad hindrar þig frá því, svaradi fiskarinn? mín gledi kostar mig eckert, og eg hefi aldrei orsøk til ad láta liggja illa á mér. Eda gengur nockud sérlegt ad þér? æ! svaradi ferdamadurinn, allir halda eg sé sá luckulegasti manneskja. Eg var Kaupmadur, og græddi stóra peninga, en eg hafdi aldrei ró eitt augnablik. Eg var sífeldlega hræddur um, ad adrir mundu svíkja mig, vørurnar mínar kynnu ad skémmast, eda skipin mín brotna af ofvidri, og þess vegna hætti eg Kaupmannsskap, en reyndi til ad verda rólegri, og kom mér í hátt embætti hjá Kónginum. Í fyrstu vard eg svo luckulegur, ad gedjast honum vel, eg vard uppáhaldid hans, og eg hugsadi þá, ad eg mundi verda ánægdur; en innan skamms þeckta eg, ad eg miklu heldur var Kóngsins þræll, heldur enn hans uppáhald. Sífeldlega vard eg ad láta á móti gedi mínu, til þess, ad hans vilji fengi framgáng. Hann var gefinn fyrir dyra-veidum, enn eg fyrir

kyrrsetu, þess vegna vard eg allann daginn að vera ad ríða með honum um skógana, og þá eg á qvoldin kom heim lafs-þreyttur, og mig blód-lángadi ad fara ad hátta, þá hafdi frilla hans tilbúid Dans eda veitslu, og mér var sérstlagi ætlud sú æra, ad vera einn af bods-monnunum, til þess ad Kónginum mætti þad betur líka. Eg vard þángad ad fara, hvorsu sem mér var þad á móti; en Kóngsins blíða huggadi mig þo nockud í þessu. Nú er nálægt hálfum mánudi sídan hann fór ad tala blídlega vid einn af Herrunum, hvorn hann hefir og látid útrétta tvennt smávegis, og sagt ad hann þenkti sá væri skickanlegur madur. Frá því augnabliki sá eg fullkonilega ad eg var tapadur, og nú hefir ecki komid dúr á auga mitt í margar nætur. En, svaradi fiskarinn, leit þá Kóngurinn reiduglega til þín, eda hætti hann ad halda lengur uppá þig? onei, svaradi þessi madur, Kóngurinn var blídari vid mig enn hann var vanur, en gættu ad því, ad nú héldt hann ecki uppá mig einann, og allir sögdu, ad hinn Herrann mundi innan skamms verda annad uppáhaldid. Héraf sier þú hvörsu þetta er óþolandi, og þess vegna er eg nú nærri daudur af ólund. Eg géck í gjærqvöldi sorgbitin í mitt svefn-herbergi, og þá eg var aleinn, grét eg, svo eg flaut í tárum. Rétt í einu sá eg stóran og svip-gódann mann, sem sagdi til mín: Grímkell! eg aumkast yfir þig, ef þu vilt verda rólegur, þá kasta frá þér eilsku

til

til ríkdómsins og metorda-girnd. Æ! Herra! sagdi eg vid þenna mann, eg vildi þad hjartans feginn, en hvornin á eg ad fara ad því? fardu burt frá hirdinni, sagdi hann vid mig, og haldtu áfram í tvo daga gotuna, sem fyrst verdur fyrir þér; þú munt þá sjá vitleysu þessmanns, hvaraf æru-girnd þín mun læknast. Þegar þú ert búinn ad ferdast áleidis í tvo daga, þá fardu til baka sama veg, og vertu viss uppá, ad þér einum skal verda ad kénna ef þú ecki verdur gladur og rólegur. Af hlýdni vid þenna mann er eg nú búinn ad ferdast heilann dag, og ætla enn nú ad halda áfram á morgun, en naumast gét eg vænt mér þeirrar rósemi, sem hann hefir lofad mér.

Þegar fiskarinn heyrdi þetta, gat hann ecki ad sér gjort ad hlæa ecki ad því hvad heimskur þessi virdíngagjarni madur var, sem áleit alla sína lucku rida á því, hvada tillit Kóngurinn hafdi til hvers eins. Mér skal vera kjært, sagdi hann vid ferda-manninn, ad sjá þig aptur, þegar þú ert búinn ad gjora góda reisu uppá þetta efni; haldtu áfram ferd þinni, og ad tveggja daga fresti komdu híngad aptur til kofans þess arna, því eg ætla líka ad ferdast, eg hefi aldrei komid í kaupstad, og eg veit af því, ad eg muni skémta mér þar vel, í ollum glaumnum, sem þar má vera. Þad er mikil heimska fyrir þig, svaradi ferdamadurinn, úr því þú ert nú sem stendur luckulegur, því viltú þá leitast vid ad gjora þig óluckulegann?

legann? kofinn þinn sýnist þer nú nægilegur, en þegar þú ert búinn ad sjá stórgardana og hallirnar, þá sýnist þér hann ofurlitill og aumlegur. Þú ert nú ánægdur med fatnadinn þinn, því þú hefir skjól af honum, en þér mun svída í hjartanu, ad sjá hann, eptir ad þú ert búinn ad adgæta skart og vidhofn ríkis-mannanna. Gódurinn minn! sagdi fiskarinn vid gést sinn, þú ert nógu skorinordur ad tala um ad tarna, en brúkadu alla þessa greind til ad læra, ad fúla ecki af því, þó einhverr liti vid ødrum eda tali til þeirra, heimurinn er fullur af þess slags fólki, sem géfa ødrum heilrædi, en kunna ecki ad stjórna sjálfum sér. Ferdamadurinn svaradi engu, því þad er ecki sidsamlegt, ad kýta vid húsbódann í húsum hans, en daginn eptir héldt hann áfram ferd sinni, og fiskarinn virjadi sína reisu. Ad tveggja daga fresti kom ferdamadurinn Grimkéll aptur til kofans, svo ad eckert sérlegt hafdi fyrir hann borid. Þar fann hann fiskarann sitjandi í húsdyrunum, hvar hann studdi hønd undir kinn, og stardi á jørdina. Um hvad ertú ad þenkja? spurdi Grimkéll. Eg er ad þenkja um vesæld mína, svaradi fiskarinn. Eg skil ecki hvad eg hefi þess syndgad á móti Gudi, ad hann skuli hafa gjert mig svo fátækann, medan fjøldi annara manna eru svo ríkir og ánægdir? í sama augabragdi birtist sá madur, sem hafdi skipad Grimkéli ad ferdast í tvo daga, og hvøred var Engill. Hvørs vegna, sagdi hann vid fiskarann, fylgd-

fylgdir þú ecki rádum hans. Grímkélls? þegar þú sást hvorsu glæsilegur kaupstadurinn var, kom upp hjá þér ágirnd og metorda-þorsti, hvored hafa burt-tekid gledina og rósemina frá þér. Stodva þínar lystingar, og þá muntú fá aptur þad, sem þú hefir mist. Þad er hægt ad tala, svaradi fiskarinn, en mér er þad ei mogulegt, og eg finn, ad eg verd sífelldlega, vesæll, nema Gudi þócknast kynni ad umbreyta mínum kjorum. Þad yrdi þér til ólucku, sagdi Engillinn vid hann; trúdu mér og óskadu einkis nema þess, sem þú hefir. Hvad, sem þér segid, svaradi fiskarinn, þá gétid þér þó ecki bannad mér ad óska ad komast í annad stand. Gud bænheyrir stundum óskir þess drambláta, svaradi Engillinn, en þad er þá í brædi, og til ad straffa hann. Hvad kémur þad ydur vid, sagdi fiskarinn, ef eg þyrsti ecki annad enn óska, þá skyldi eg lítid kjæra mig um hótanirnar ydar. Ur því þú vilt þína egin ólucku, sagdi Engillinn, þá læt eg þad eptir þér. Þú mátt óska þér þriggja hluta, Gud mun veita þér þá. Fiskarinn aat í hvorugann fótinn stadid fyrir gledi, óskadi ad kofinn sinn mætti verda ad glæsilegri holl, strax fékk hann sína ósk uppfyllta, þegar hann var búinn ad skoda og dást ad holl þessari, óskadi hann, ad litli lækurinn, sem var fyrir framan dyrnar, yrdi ad stóru hafi, og strax fékk hann sína ósk. Nú átti hann ecki utan þridju óskina eptir, hann hugsadi sig nockra stund um, og loksins ósk-

adi hann, ad kiænan sin yrdi ad stóru kaup-skipi, sem væri hladid med gull og gimsteina. Strax er hann sá skipid, fór hann útá þad til ad skoda oll þessi audæfi er hann nú var ordinn egandi ad. En naumast var hann kominn útá þad fyrr enn stórvidri kom uppá. Fiskarinn ætladi ad fara á land, en þar var enginn vegur til. Þá fór hann ad bolva sinni ágirnd, en þá var lika ofseint ad ydrast. Hafid braut skipid í spón, og uppsvelgdi eganda þess med ollum hans audæfum. Englinn sagdi þá vid Grímkél: lát þetta dæmi verda þér til lærdóms. Þessa manns endalykt er sú sama, og optastnær verdur fyrir þeim dramb-látu. Kóngshollin hvar þú nú átt heima, er sá nafnkunnugi ólgu-sjór, hvar stormvidri og skipbrot, eru algeng. Amedan þú enn nú getur, þá komstu á land, þvi þarad kemur loksins, ad þú óskar þér þess, og þá kannské þad standi ecki í þínu valdi. Grímkéll vard hrædd-ur af þessari syn, lofadi ad hlyda Englinum, og endti þad. Hann fór burt frá hirdinni, til ad búa á landsbygdinni, hvar hann giptist stúlku, sem var dygdaudugri enn hún var fríd eda rík til. Í stadinn fyrir ad bæta vid sitt stóra ríkidæmi, brúkadi hann þad med tempr-un og sparsemi, til þess ad geta gefid fátæk-um þad, sem yfir hafdi af inntektunum; þá vard hann luckulegur og ánægdur, og aldrei kom sá dagur yfir hann, ad hann þackadi ecki Gudi, er hafdi læknad hann af aura-elsku og

met-

metorda-girnd, sem allt þángad til hofdu hindrad hans luku og ánægju.

## LXXXII. Opt er von vakandi manns draumur.

Vonin er í allra manna hjortum, svo þegar allar adrar sinnis-hræríngar hreyfa sér ecki fyrr enn tækifæri gefst, ellegar á vissum tímum æsinnar, þá byrjar vonin strax, sem vér getum borid saman vort þá verandi ástand, vid þad, sem vér gætum seinna fengid. Hún er von ad fylgja oss í ollum tilfellum, og um alla vora æfi, drífur ockur sífeldlega til ad odlast nýtt og nýtt, og losar annadhvort ad minka vora mædu, edur auka farsældina.

Vonin er naudsynleg í alls-kyns kjörum, stétt og standi, án hennar væru fátækt, sjúkdómur og þrælkan óþolandi. Sú stærsta lucka, sem nockurr kann ad eignast í heiminum, getur ecki verid án vonarinnar, og þad líf, sem lucka og náttúra hafa gjort hid farsælasta, mundi ecki sýnast mikils-verdt, ef þad væri ecki kryddad og prýdt med eptirvænting nýrra gjæda, og þeirrar ánægju, sem enn er ókomin. Í hid minnsta getur ei hjartad ordid svo ánægt, sem mogulegt er, nema þad hafi einhvorja þá eptirlaungun, sem uppfyllast skal. Þó vonin bregdist opt, þá metum vér samt hennar lofsord meir enn sjálfrar luckunnar gædi, og vér holdum mikid uppá hana, þó hún pretti ocks

ur,

ur, þvi vër hugsum, ad loksins muni hún bæta þad upp aptur, sem vër missum í bidinni.

Eg var ad hugsa úrí þessa undarlegú tilhneigíngu, sem finnst hjá öllum mannèskjum, og hvarmed svo margur dregur sjálfann sig á tálar, og var eg ad vigta í huganum bædi illt og gott, sem hún med sër færir, þegar eg óforvarandis datt í svefn, sýndist mër þá allt í einu, eg væri staddur í svo stórum aldingardi, ad eg sá ecki útyfir hann. Allt hvad kríngum mig var, sýndist yndislegt. Jördin var skrýdd öllu sínu skarti eins og á hásumarsdag, og allsslags fuglar súngu fagurt í skóginum. Þegar eg sansadi mig, og fyrsta forundranin rénadi, fór eg ad gæta náqvæmlega ad þessum yndælu stad. Eg sá ad þad, sem nú bar fyrir augun, mundi vera litid ad reikna hjá því, sem var skammt þar frá, eg mundi finna fegri blómstur, tærari vatns uppsprettur og fallegri skóga, hvar fugla-saungurinn mundi enn betur lífga mig upp. Trén í kríngum mig vóru græn med ylmandi blómstrum, en litid lengra burt vóru paradauki girnilegustu ávextir á þeim. Eg ætladi ad taka þá, en ádur enn eg komst ad þeim, misstu þeir besta litinn, eda duttu nidur á jörd svo þeir skémdust, og fuglarnir flugu undan mër uppyfir eikurnar. Hvorninn sem eg flýtti mër, sá eg ánægjuna, en nádi henni ecki, því þad sýndist eins og hún væri ad ganta mig, og gëfa mër vid fót, til þess eg skyldi ellta hana.

Þó mér væri ná um og 6 af þessari mædu-blöndudu gledi; héldt eg samt alltjafnt áfram, og hugsadi eg mundi loksins géta nád þeirri ánægju, sem eg aldrei misti sjónar á, þó hún sýndist vilja skreppa frá mér. Loksins sá eg fjölda fólks af alls-slags aldri og standi, sem allir sýndust ad vera hlut-takandi í sömu al-mennilegu farsæld. Á útliti þeirra var hægt ad sjá tránadar-traust, og ánægjan skein útúr aug-um þeirra. Samt var hægt eptir ad taka, ad sérhvörr þeirra hafdi innvortis leynilega gledi, sem sá hafdi einsamall útaf fyrir sig, og sáir létu á því bera, hvad þeir höfdu fyrir stafni, eda sögdu ödrum hvad þá umvardadi. Margir hlupu svo-hardt, ad þad sýndist eins og þeir væru útlendir menn, er væru einasta á ferd ad sedja forvitni sína. Eg lét mér þad þess vegna verá nóg ad horfa á þá, en vildi ecki tésja þá med óþarfa spurningum. Loksins fann eg fjörgamlann mann, sem ecki gat fylast med hópnum; eg taladi til hans, en hann snéri sér snúdugt frá mér, og skipadi mér ad tefja sig ecki, því hann ætti nú von á, sá tími væri loksins kominn, ad til sín væri kastad ávextin-um fyrir allt sitt erfidi, og skadabót fyrir all-ann sinn kostnad.

Eg skildi vid þenna, og yrdti á annann, sem á svipinn var blídur og vidmóts-gódur, hugsadi eg hann mundi betur taka undir vid mig, en hann buktadi sig djupt og sagdist skyldi álíta sig hinn luckulegasta, ef hann gæti

þénad mér, en í þetta sinn væri sér það al-déilis ómögulegt, því það embætti væri nú komið undir að verda lidugt, sem hann hefdi verid ad sækja um í 30 ár. Eg taladi þá til annars manns, sem þar var nærstur, en hann flýtti sér, ad ná arfi eptir fodur-bródur sinn, sem uppá náttúrlegann máta ecki átti lángt eptir lífdaganna. Honum fylgdi enn nú einn, sem var ad bera sig ad ljúka vid bók, er átti ad prentast, og þess vegna hafdi ecki tíma til ad ansa mér.

Nú sá eg mér tjádi ecki ad spyrja adra, og ásetti mér þess vegna sjálfur, ad komast eptir því, sem mér var forvitni á ad vita, en sá í því úngann mann, sem vel lá á, og sýndist ecki ad taka sér neina sorg nærri. Uppá spurníngu mína svaradi hann: eg væri í aldingardi Vonar Eptirlaungunar-dóttur, og allir þeir sem hér væru á ferd genguft fyrir lofordum Vonarinnar, en kepptust vid af öllum kroptum ad ná þeim gáfum, sem hún hefdi í hendi sér. Eg leit þá hærra upp, hvar eg sá Gydjuna í sínu hásæti; hún var úngleg ad útliti, hafdi í kríngum sig öll luckunnar gædi, og alls-slags ánægju, sem í heiminum kann ad fást, var sífeldlega hýr og brosandi, en allir er hana sáu hugsudu, ad þessi nádar hýrleiki heyrdi sérhvörjum þeirra til útaf fyrir sig, og þókti eins og hún metti sig meir enn alla adra; allir hinir höfdu sama trúnadar-traust, og vóru í sömu leidslu.

Eg

Eg fór uppá háann hól, svo eg gæti sjed yfir allt plátsid, og hvad hvorr af þeim hefdi fyrir stafni, sem flycktust ad Gydjunni. Eg sá ad þeir komu innum tvær dyr er vóru á Vonargérdi. Adrar þeirra vaktadi Skynsemi, en hinar Innbirling. Skynsemi var vandlát og ecki mjúk á manninn, lofadi þess vegna fáum inn, og lokadi stundum dyrunum þegar sist vardi. En Innbirling var hógvær og altéleg, hennar dyr vóru vídar, og hún tók vel móti ollum, sem sig budu fram, svo þeim stód gángurinn alltjafnt opinn, sem annadhvort hofdu qvidid fyrir spurníngum hennar Skynsemi, ellegar hún hafdi útilokad.

Þeir, sem komu innum dyrnar hjá Skynsemi komust til hásætis Vonarinnar um ordugann, ósléttann, brattann og krókóttann veg, sem hét Bratti-stígur. Þeir sáu ecki í fyrstunni hvad torveldt var, hann upp ad komast, en reyndu þad samt brádt; opt urdu þeir ad standa vid rétt í einu, þegar þeir hugsudu engin hindran gæti stadid þeim í vegi. Þeir mættu svo miklum bágindum á þessari ferd, hrosudu svo opt, undu fót úr lidi, í einu ordi: komust í svo stórann háska og óteljandi bágindi, ad margir af þeim snéru aptur, adrir gáfust upp á midri leid, en fáir komust til hásætis Vonarinnar. Flestir af þeim sídarst nefndu ydrudust eptir, ad þeir hefdu gjort sér svo mikid ómak, þegar þeir vóru búnir ad ná því, sem Gydjan hafdi lofad, og sumir vildu

gjarnan aldrei hafa fengid þad. Hinir fóru burt med hennar gáfur, þeim fylgdi Spekin ad Anægjustødum.

Þareptir gjætti eg ad þeim, sem hinumegin komu inn dyrnar hjá Innbirlingu, en gat ecki sied ad nockurr vegur lægi þadan til hásætis Vonarinnar, jafnvel þó þessi Gydja sæist af øllum, og hún bydi sifeldlega gáfur sinar med mildu og hugar-látlegu tilliti, bendandi þeim ad koma nær, og taka vid, hvaraf allir gloddust í hjarta sínu. Vegurinn var svo óvíss og dymmur, ad enginn vard var vid hvørsu ómøgulegt var, ad komast þeim meginn ad hásæti Gydjunnar, en hvørr og einn ímyndadi sér, ad hann hefdi fundid gøtu-stíg, sem enginn annar vissi af. Fjøldi manns var ad reyna til uppá allann máta, ad komast áfram, en hvad sem þeir tóku til bragds, gátu þeir aldrei nálgast hásætid, samt horfdu þeir alltjafnt á Vonina, og hlóu ad þeim, sem fóru Bratta-stíg, og urdu þar mikid nærri sér ad taka.

Margir af þeim, sem vóru í ødstu metum hjá Innbirlingu, vildu ecki hafa stórt ómak fyrir ad komast til hásætis Vonarinnar, en fóru strax í Letidal, hvar enginn asi, ákafi eda skarkali var, þadan blíndu þeir á Vonina, og ætludust til hún mundi sjálf koma ofan til þeirra. Allir sem sáu þá, spottudust ad þeim, en þeir létu þad eckert á sér festa, kjærdu sig hvørki um brixli né forakt, en bidu í værd og mak-

makindum eptir því, ad Gydjan kjæmi ad útbýta milli þeirra hennar gáfum.

Eg fór ad finna þessa gódu menn í Letidal, þeir vóru líka bodnir og búnir til ad svara mér uppá spurníngar mínar, budu mér alúdlega ad stadnæmast hjá sér, og hafa hlutdeild í allri þeirra gledi, en í því sneri eg mér vid, og sá hvar tvær ofbodslegar ófreskjur komu í dalinn, hét önnur þeirra Örbyrgd en hin Elli. Þegar dalbúar sáu þær, hvarf burt öll gledi, en stunur, qvein og óp kom úr hvörri krá, vid hvad eg hröck saman og vaknadi.

## LXXXIII. Rádníng Gátnanna:

71.) Qvísl og Prítennt úr gaffall. 72.) Munnurinn. 73.) Skjegg. 74.) Stígi. 75.) Málud mind.

## Þridjudaginn og Midvikudaginn, 30 og 31 Decembr.

## LXXXIV. Illt er ad ega óskir margar, ef enginn kémur til bjargar.

Börnin mín og fólkid vóru útaf draumínum, sem eg hafdi sagt þeim í gjærqvöldi, ad tala sín á milli um vonina hvörsu hvíkul hún væri, og best mundi vera, ef manneskjan gæti haft vissu sína um alla óordna hluti, svo hvörki fallvöllt von né óþarfa ángist bleckti hana. Med-

an á þessu tali stód, og sumt af fólkinu á pall-inum var ad óska sér þad fengi ad vita hvad hér eptir ætti á dagana ad drífa, kom eg inní badstofuna, heyrda eg þá ad einn sagdi: ad med svo móti væri hægt, ad búa sig undir hvad, sem tilfalla kynni; annar, ad þá þyrfti madur ei ad hrædast þad, sem mótdrægt yrdi, eins og ef þad kæmi ad óvörum; þridji, ad eckert væri svo sárt, sem gánga í þoku og blindni útí hvad eitt, og vita eckert um endalokin; Geirdís vildi vita nær hún mundi giptast, Sigmundur, hvad hlutúrinn sinn mundi verda hár, því þad var fyrsta sinn hann átti ad vera formadur, en Sigurdur allt hvad á dag-ana mundi fyrir sér drífa. Eg géck nockra stund þegjandi um gólf, og lét eins og eg heyrdi ecki hvad verid var um ad ræda, en þá Sig-urdur yrdti á mig, og sagdi: þad vænti eg yrdi best og þarflegast, sem þér mundud óska ydur fyrirfram ad vita, Prestur minn gódur! ef þér ættud kost á um ad velja?

Prestur. Hægt er þad upp ad telja, Sig-urdur minn! sem eg vildi fyrifram vita, því þad er eckert.

Sigurdur. Svo sem allir hafa vit og vilja til ad óska sér einhvers, svo er líka nátt-úrlegt, ad hverr einn vilji vita hvort hann muni fá ósk sína eda ecki.

Prestur. Þad er sitt hvad, ad óska sér alls hins besta, vilja vita óordna hluti, sem oss vidkoma, eda ad oss sé gott og þénanlegt,

ad fá þá fyrifram ad vita. Ef eg vissi ad sá spásagnar-madur væri til, sem gæti med sanni sagt mér mína ókomnu æsi, þá skyldi eg flýja hann og fordast eins og daudann sjálfann, og eg er viss um, ad væri nockur svoddan manneskja til, þá væri hún veröldinni hin skadlegásta, sem ordid gæti.

Sigurdur. Þegar þér takid svóna djúpt í árinni, þá veit eg ei hvört þér talid þetta, Prestur minn gódur! af alvöru, ellegar þér erud ad reyna ockur. Er þad mögulegt, ad þad sé skadi, ad vita fyrifram forlog sín? því þó ei væri þad til annars, þá gleddist madur samt lángann tíma af lucku sinni, ef hann þeckti hana fyrifram.

Prestur. Þó madur fengi einúngis ad þeckja lucku sína fyrifram, og eckert um mótlæti sitt, þá væri þad jafnvel skadsamlegt, því bædi væri þad alleinasta til ad vekja upp eptirlaungun til ad vita meir, madur þeckti ei lucku sína edur ánægju ad heldur, þó hann vissi eina edur adra ánægjulega greind af forlögum sínum, og þar til þækti manneskjunni eckert til hins góda koma, þegar þad fram vid hana kjæmi, eptir ad hún lengi hefdi verid viss um ad ödlast þad. Sá sem fyrifram veit ad hann muni lifa fram á tírædis aldur, vill líka vita hvört hann muni medfram fá heilbrygdi, heidur, ríkidæmi, barna-lán, og medan honum er allt þetta óljóst, þá er hann litlu nær enn ádur. Hún Geirdís þarna vildi vita, hvört hún

hún á nærstkomandi ári mundi giptast eda ecki, en þó henni væri sagt það, mundi henni líká vera forvitni um, hvort hún þá fengi gott hlutskipti, hvör jord henni hlotnadist ad búa á, hvornin fjárhagur hennar mundi verda, hvört fyrir henni ætti liggja ad komast hardt nidur ad börnum sinum, og ótal fleira. Lucka og ólucka eru ætíd í hvörrar einnar manneskju lifernni samfara, af þeim er allt efnid í forlögum vorum samantvinnad, og hvad meira er, þad sem almennilega kallast lucká, er opt og tídum vor stærsta ólucka, eins og aptur á mót mesta lucka vor margsinnis stendur á þeim fótum, sem almennt kallast ólán. Þeir sem ödlast allt hvad hugur og auga girnast, sæl-lifi, audæfi, metord, og þurfa sem minnst fyrir atvinnu sinni ad hafa, þeir þykjast ega mesta láni ad fagna, en á þessu svellinu verdur þó flestum hættast. Þegar einn er búinn ad vita lucku sina, þá þykir honum ónytt, nema honum sé líka sagt, hvad lengi hún egi ad vara, og med hvadá atvikum hún komi, eda egi ad fara, en oll þessi vitneskja um óordna hluti getur hæglega ordid til ills eins, þeim sem slikt yrdi opinberad, hvar uppá eg skal segja ydkur eptirfylgjandi dæmisögu:

Á eyjunni Delphos í Gricklands-hafi var musteri Apollós, hvörju Godi Heidingjar eignudu spáfara-gáfuna, og leitudu hjá því frétta um forlög sín. Þángad fór madur einn ad nafni Semnon, hann fékk þad andsvar:

„fyr-

„fyrir þér liggur stórt happ, en það verður
„þín ólucka ef þú færð að vita það fyrifram."
Nú skyldu allir hugsa, að Semnon hefði hætt
forvitni sinni, en mannanna sinni er þesshátt-
ar, að þeir trúa og undir eins trúa ecki. Því
sem er eptir vild þeirra og ósk trúa þeir, en
hinu annaðhvort sinna þeir ecki, ellegar þeir
treysta sér til með skynseminni að afstýra því eda
stjórna, hvörninn sem þeir vilja. Eins var
Semnon, hans forvitni óx við það, sem búið
var að segja honum, hann vildi endilega fá
meira að vita, og hvað sem af því hljótast
kynni, girntist hann að heyra forlög sin. „Þú
„munt, sagði Goða andsvarið, af konu þinn-
„ar ást odlast Kóngs-tign og ríki, og stjórna
„þeim þjóðum, sem aldrei hafa séð þig." Af
þessu svari varð Semnon gladur og hróðugur,
hann fór burt, og í huganum var að setja
sig til sem Kóngur, gefa út Réttar-bætur,
fara í leiðángur og taka skatta, þó ecki ætti
hann þá eina þúsu. Svo fljót er manneskjan
til að trúa því, sem er eptir sjálfrar hennar
gédi! en hvörsu feginn og gladur, sem Semn-
on var, þókti honum samt vera nockurs áfátt,
hann hafði gleymt að spyrja að tímanum, nær
hann mundi til Kóngdæmisins koma, og hvað
lengi hann ætti að löndum sitja. Af þessari
óvissu varð hann ángurvær, biðin féll honum
laung, ef þessi lucka kynni lengi að dragást,
og sánið syndist honum ecki ýkja mikið, nema
það bæði kjæmi fljótt og varaði mörg ár.

Hann snéri því til baka í musterid, og beiddi Godid enn þá ad svara uppá þessar sínar spurníngar. „Mikid fávísar eru mannesskjurn„ar! vard svarid. Þeim til góds er af Gud„unum tilsett ad þær skuli ei vita fyrifram for„lögin! þú skalt þá vita, ad innan skamms „muntu Kóngur verda, og þér sjálfum skaltú „umkénna, þó sú tign verdi eigi láng-gæd, en „sú hönd, sem leidir þig í hásætid, skal aptur „frá þér taka líf og kórónu." Semnon fór strax eptir þetta þángad, sem stríd var tveggja þjóda á milli, vann þar mikinn sigur og sóma, vard ædsti rádgiafi og hers-höfdíngi Drottníngarinnar, sem af yfirmáta elsku, er hún hafdi á honum, setti hann í Kóngs-sætid og til ríkja med sér, og giptist honum; en strax sem Semnon, er ádur hafdi verid gladsinna, vidfeldinn og jafnlyndur, var í þessa tign kominn, var öll gledi frá honum horfin; Drottníngin, sem var úng og fríd, elskadi hann eins og sinn augastein, en hana bædi elskadi hann og hatadi undireins, svo hvörsu, sem hann létst sýna henni elsku-atlot, gat hún samt ei annad enn kénnt þess kulda og hryllíngs, sem hjá honum innifyrir bjó til hennar. Þá óskadi hann sér margsinnis, ad hann aldrei hefdi fengid forlög sín ad vita; þá hafdi hann eckert yndi af neinu, hvörki nótt né dag. En sú qvöl varadi ei lengi: Drottníng gat ei annad skilid, enn hann foraktadi sig, og leynilega tæki einhvörja adra fram hjá sér, vildi því hefna slíks óþacklætis og smán-

smánar, sem hann, svo ad segja, strax eptir brúdkaupid svísdist ecki vid ad audsýna henni, sendi slugu-menn til hofuds honum, og lét drepa hann. Þetta hafdi Semnon af ad vita fyrifram forløg sín!

Sigurdur. Satt er þad, Prestur minn gódur! ad þetta var Semnons ólán, en ef menn vissu hvad á dagana ætti ad drífa, þá þyrftu þeir ecki ad draga sig eptir neinni óvissu, og vinna svo margt fyrir gýg, sem þeir gjora, þeir vissu þá hvad sér koma mundi ad gagni eda ecki, og kynnu ad tempra gledi sína og sorg yfir því, sem fyrir þeim liggur, þegar eckert kjæmi hraparlega eda óvorum ad þeim.

Prestur. Vera kann, ad þad skjátli, Sigurdur minn! því fyrst er þad manneskjunum gagnlegt, ad frama sig sem best, og vinna margt þad, sem kann ad verda ødrum til gagns, þó ei sjái þeir strax sjálfum sér ábata af því. Manstú ei til hennar Herdísar heitinnar hérna í kotinu? hún var ordin vel fullordin ádur enn hún þeckti einn bókstaf, en þegar hún heyrdi ad enginn mætti í hjónaband gésast nema þeir væri bóklæsir, fór hún alltíd þegar hún komst høndunum undir, ad láta kénna sér ad lesa, vard vel-læs, og fród í Guds orda þeckíngu, og kénndi þad aptur út af sér. Ecki vard henni samt audid ad giptast; en heldur þú, Sigurdur minn! hún, komin yfir þrítugt, mundi hafa eydt svo morgum stundum uppá bóklestur, hefdi hún vitad, ad þad aldrei ætti ad

 koma

koma sér til þess gagns, sem hún óskadi og tilætladi? heldur þú hann Jón heitinn í Holti hefdi hýst svo vel hjá sér, byggt mikla túngardinn, sem þar er, og stángid fram veituna, ef hann hefdi vitad, ad hann átti svo skammt eptir ólifad, og ad hann Geirmundur, mesti hvildarmadur hans, ætti ad hafa nærstu notin af því? þau Jón og Herdís hefdu hugsad ad þau ynni fyrir gýg, ef þau vitad hefdu, ad þeirra tilgángur skyldi ad engu verda, og hefdu ei stofnad þad gott sem þau gjordu, hefdu þau vitad fyrifram þad, sem sídar framkom. Aptur á mót var þad ólucka hans Páls Sýslumanns, ad hann svo snemma fékk veitíngarbréf fyrir sýslunni hans módur-bródur síns, því þegar hann var ordinn viss um ad fá embættid, tók hann aldrei bók sér í hond, og var búinn ad týna nidur því litlu, sem hann í úngdæminu hafdi lært, þegar hann ad fimtán ára fresti þareptir fyrst settist í Dómarasæti, og þess vegna gaf Hreppstjórunum einn heimsku úrskurdinn eptir þann annann. En þaradauki er mestur munur, Sigurdur minn! nærmanneskjan ætli ad fá forlog sín ad vita, því á sínum hvorjum aldrinum þykir sama manni, sami hlutur lucka og ólucka, eptir ýmislegu hugar-fari, fjöri eda þeckíngu hans. Spyrjum ommu, dóttur og dóttur-dóttur, allar ad, hvad hvor þeirra álitur ad sé lucka eda ólucka, og uggir mig, sitt verdi svarid hjá hvorri. Hún Elín er sífeldlega ad hlacka til, ad ega hann

Haldór,

Haldór, hún álitur eckert fyrir lucku í veroldinni annad enn ad giptast ád eins árs fresti úngum, ferduguni, vel-klæddum og glad-lyndum lista-manni. Elin er naumast tvítug, og þess-vegna er henni varla láandi, þó hún sjái heldst uppá þad, sem útvortis er. Ef henni væri nú sagt, ad hún ætti ei ad giptast fyrr enn hún hefdi þrjá um þrítugt, og fá þá þurrlyndann, fálátann og aldradann eckjumann med fimm smá-bornum, hvada lucku mundi hún álíta þad? og þó verdur Elin uppá þenna hátt hin mesta gjæfu-kona, en med Haldóri sínum, ef hún fengi hann, hin óluckulegasta; og væri henni þetta sagt nú strax fyrirfram, mundi hún svo dragast upp af hugar-sorg og ángist, ad hún ecki lifdi þartil hún hefdi fulla þrjá um tvítugt. Þar aptur á mót, ad þrettán ára fresti hér frá, verdur Elin búin svo ad þeckja veroldina og sína sonnu lucku, ad þá þykist hún ei géta Gudi fullþackad fyrir þad hlut-skipti, sem hana tvítuga hryllti vid ad hugsa til, ef hún þá hefdi vitad þad ætti fram vid sig ad koma. Hér vid bætist, ad hvad illt, sem manneskjan vissi fyrirfram, þá sæi hún engann útveg til hjá því ad komast. Nú medan vér ei vitum hvad uppá dagana kann ad drífa, og óvíst er hvorninn útfallid verdur, hofum vér von um, ad eitthvad kunni ískérast, sem afvendad géti yfirhángangi háska, en ef vér vissum forlog vor ádur, þá væri oll von horfin hjá þeim ad sleppa, svo manneskjan hlyti ad örvæntast

Sigurdur. Þess vegna er það líka, Prestur minn gódur! sem eg vildi vita allt hvad á dagana á fyrir mér ad drífa, svo eg géti afstýrt því, eda búid mig undir það, því til þess er manni skynsemin géfin, ad hann fordi sér vid íllu, og hafi útvegu til, ad odlast það gott, sem hans standi sambýdur

Prestur. Það er: ad manneskjan skuli undireins vita, og ecki vita. Forlögin skuli vera sonn, og endilega framkoma, en samt skuli standa í manneskjunnar valdi, ad komast hjá þeim og géta umbreytt þeim? hún skuli vera alvitur og almáttug, og géta þeckt, stýrt og stjórnad ollum tilfellum, verkunum og atvikum, med sérhvorju því er þaraf kynni ad fljóta og hljótast? slíkt er ómogulegt, því sá yrdi ad vera Gud, en ecki nein skopud sképna, sem þetta gæti. Eg skal segja yckur dæmisogu um mann nockurn, er hafdi sama traust á skynsemi sinni í þessari grein, eins og þú gjordir ráð fyrir, Sigurdur minn! en hvorjum þó ecki vard ad því, þegar til efnanna kom:.

Á fyrri oldum, medan Huldu-fólk, Nornir, Volvur, Dvergar, Alfar og Valkyrjur, géngu umkríng í dular-klædum, og skiptu út gáfum sínum, géck Valva ein um stræti borgar nockrar, og sá mann sitjandi eins og hoggdofa, hann var vel klæddur, svo ei var á honum ad sjá, ad orbyrgd stædi honum fyrir hugskots-sjónum, þó studdi hann hond undir kinn, gádi einkis sem framfór, og dæsti þúngann. Ferda-konan gaf

gaf sig á tal við hann, spurði hann að vegi, en féck varla svar útúr honum. Eg heyri, sagði hún, yður býr eitthvað þúngt fyrir brjósti, má eg vera svo djorf, að spyrja hvað það er, því mér býður svo hugur um eg muni géta hjálpað yður? hann leit til hennar brosandi, og sagði: þá ertú ecki oll þar, sem þú ert sjeð, sképnan mín! ef þú gætir gjört mig rólegann allrahellst þareð sorg mín kémur af hláturlegri orsök, sem eg varla þori að láta ábera við nockra manneskju. Eg er Kaupmaður og stór-audugur, auk þess, sem eg ábatast á minni kauphondlun; eg er heilbrygður, eckert amar að mér, eg á konu og þrjú born, hvor eg elska, og þau elska mig, samt er eg ecki rétt luckulegur. Mér er sífeldt fyrir hugskots-sjónum, hvorsu óvíst það er, hvað lengi eg muni ega þessu láni að hrósa, og það géti skéð í augna-bliki, að eg missi það, svo eg er í minni nærverandi lucku alltaf hræddur um eptirkomandi ólán. Eg er dag hvorn ótta-sleginn fyrir, að eg þá, eða á næsta degi eptir, kunni að missa konu mína, bornin mín, góts og auðæfi, heilbrygði og lífið. Þú sjeð, að hvorsu hláturlegur, sem þessi qvíðbogi er, þá er þó mikið satt í honum, og eg gét ó-mogulega verið luckulegur með honum, því þess meira, sem mér géngur í vil í allann máta, þess meiri verður hræðslan hjá mér, að eg kunni að missa það. Nú! satt er það, svaraði kon-an, að yðar ástand er undarlegt, því heldur, sem

sem flestar manneskjur óska sér ad vita þad, sem sídar á fram vid þær ad koma, af því þær vænta sér lucku og betri kjora, enn þær þá hafa, og þessi von um betri lucku, huggar þær í morgum mannraunum. Ecki gét eg ad því gjort, sagdi madurinn, mér sýnist þó sér-feldlega eins og vor stærsta mæda í lífinu sé sú óvissa, sem vér hofum um eptirkomandi forlog vor. Þad er eins og vér gaungum í myrkri og þoku á mjórri fjalar-brú, hvar hel-dýpi er á bádar sídur, og opt fleigjum vid ockur ofaní þann afgrunn, rétt í því vid erum ad fordast hann. Sæi manneskjan fyrifram þá ólucku, sem yfir hana á ad koma, svo vissi hún á hvorju hún ætti von, gæti þá hagad athofnum sínum svo, ad hún kynni ad fordast hana, ellegar bæta hana upp aptur, þegar rádin væru tekin i tíma. Ég veit ecki, svaradi adkomandi konan, hvort manneskjurnar yrdi luckulegri fyrir þad, þó þær vissu fyrifram forlog sín, en vid skulum reyna þad samt. Strax í upphafi á hvorju ári skulud þér sá ad vita alla þá ógæfu, sem ydur á á því ad mæta. Eg óska ad sú opinberan gjori ydur rólegri enn þér erud. Madurinn héldt ad kérlingin væri ecki med ollum mjalla, og fór ad hlæa ad henni, en hún lét sem hún sæi þad ecki, og héldt áfram sinn veg.

Ad fárra ára fresti var kérling þessi enn á ferd, lá þá leid hennar framhjá einhvorjum enum aumasta kofa, sem varla var hundi ver-

andi

andi í, þot sidur manneskju. Utanfyrir dyrunum á þessu hreysi sat vesæl, bæklud manneskja, svo hún ómögulega gat þeckt, ad þad væri sá sami, sem hún ádur hafdi talad vid; en hann var þess fljótari til ad þeckja hana, vard strax sokreidur, og jós á hana öllum þeim skammar-yrdum og brixlum, sem hann gat uppfundid, lét svo dæluna gánga medan hann gat. Eg vorkenni þér, sagdi hún, þó þér sárni. Eg hefi unnid til allra þessara brixlyrda. En mér er forvitni á ad vita, hvörnin tilgéck þegar þú varst búinn ad fá kunnáttuna, ad vita fyrifram óordna hluti. Kannské eg géti nockud hjálpad til ad minka óluckuna, sem þaraf hefir hlotist, og móti vilja mínum og ásetníngi kann hafa af mér stadid. Ecki med ödrum skilmála enn þeim, gét eg fyrirgéfid þér þad, sem híngad til hefir vid mig framkomid, svaradi hann. Mikid blindar eru manneskjurnar þegar þær vilja sjá fyrifram þad, sem Guds forsjón hefir í sinni vid þær! mikid heimskar eru þær, ad hugsa þær géti fordast þad, sem fram á ad koma! Hvad opt verdur sjálf forsjálni þeirra, þegar þeir ætla sér ad koma í veg fyrir ólán sitt, medalid til ad steypa þeim í sama ólán. Til ad sanna þetta, þarf eg ecki annad enn segja þér hvörnign mér géck.

Þegar þú varst frá mér farin, fanust mér hvör stundin laung þángad til fyrsti dagurinn í árinu kom, og eg qvaldist milli vonar og ótta. Loksins kom sá dagur, sem eg svo lengi

hafdi eptirþráð; þá mátt nærri geta, hvað hræddur eg vard, þegar mér vitradist, ad bádir fótleggirnir í mér skyldu brotna, og þad lægi fyrir mér ad missa allar eigur mínar, og vitid med, ádur enn árid væri á enda. Þared spáin sagdi mér, ad fyrsta ólukkan ætti ad koma yfir mig á sama mánudi, sem þá birjadi, svo hugsadi eg med mér, eg skyldi koma í veg fyrir þad med því, ad fara aldrei á sætur úr rúminu; eg forsómadi allt hvad eg átti ad gjora, og þó öll veröldin hefdi verid í bodi, hefdi eg ecki hrært mig fótmál burtu; á sjöunda degi, þegar kona mín var í búrinu, og kaupsveinninn í krambúdinni, hvort ad sínu verki, datt loptid ofanyfir mig, af því þúngar vorur láu uppi á því, en bita-hofudin vóru ordin fúin, og hittist svo á, ad bitinn med öllum þyngslunum datt ofaná fótleggina á mér, sem brotnudu, og eg var dreginn uppúr brotunum, og öllu því, sem á mér lá, hálfdaudur og marinn á öllum líkamanum, svo varla sást á mér manns-mind, en þad versta var, ad eg af hrædslu og ofbodi misti vitid. Mörg ár vóru bestu læknarar ad leitast vid ad koma mér til heilsunnar aptur, og loksins tókst þeim þad, en þá vóru allar mínar eigur uppgengnar, og eg átti þá einkis úrkosti, nema ad fara í hreysi þetta, hvar eg hefi af fyrir mér med ad formæla þér og þinni kunnáttu, og gvöldi fyrir hvorju ný-ári, því eg er þá hræddur um, eg fái einhvorja ólukkuna ad vita fyri-

fram, og muni eg þá missa vitid aptur ad nýju. Ecki skaltú lengur þurfa ad qvída fyrir því, svaradi konan, því þú skalt ecki hédanaf vita fyrirfram hvad framvid þig á ad koma, en mundu til þess, ad ein af Guds mestu velgjørdum er sú, ad hann lét manneskjurnar ei vita fyrirfram ólán þad, sem þær mundu í rata, og þad er sú mesta heimska ad hafa hugar-vhl af því ádurenn þad áfellur, ellegar ætla sér ad skapa lucku sína eda fyribyggja ólánid. Treystú nú Guds alvísu forsjón, sem ætíd vakir yfir oss; hann verndadi konu þína, born og hjú, sem treystu honum, þú einsamall ætladir þér ad hafa betri forsjón, en reyndir, svó sem maklegt var, ad þú varst of skammsýn. Láttú þetta þéna þér til lærdóms.— Eg skal þaradauki bæta þér skadann og gjøra þig eins ríkann og þegar þú fannst mig. Hér er fé grafid af fornmonnum í jordu, svo Víkíngar ecki nædu því; brúkadu þad, birjadu aptur þína kaup-hondlun, og í stadinn fyrir ad vilja sjá fyrirfram forlog þín, þá nýttú þér þad góda, sem Gud géfur þér, en slepptú ollu hugar-vhli fyrir því, sem þér kynni eptirleidis mótdrægt tilfalla.

Sigurdur. Eg sje, ad óláns tilfelli gétur madur ei umflúid, þó hann vissi þau fyrirfram, því þau eru svo margs-slags, ad þó búid væri ad komast hjá einu, gæti vel skéd, ad þar med ratadi madur í annad miklu stærra En eg held, Prestur minn gódur! ad odruvísi sé láni

og lucku háttað. Þau þarf maður ei að umflýja, eður bera sig að breyta þeim, heldur einasta taka á móti þeim með þacklæti, búa sig sem best undir þau, og hafa þess lengri tíma til að gledja sig í voninni yfir þeim.

Prestur. Egi maður að vita fyrifram forlög sín, þá mun það vera bædi í blídu og stríðu, mun þá flestum ofbjóða andstreymið, en þykja litið til hins koma. Ef hann Vilhjálmur ætti nú fyrifram vita, að hann á í stángri vist að vera, hjá eptirgángs-somum húsbónda í tólf ár, setja saman af litlu, sá orðuga jörð, og verða fyrir fjárskaða á þriðja búskapar-ári, strax sem hann sjer, að nockuð fer að blómgast hjá sér, að hann á með heilsuveikri konu og mörgum bernum að berjast alla æfi við bágann búskap, svo þó hann ætíð muni hafa nóg fyrir sig og sína, stædi samt optast í harðvidi fyrir honum, og loksins deyja útslitinn af þreytu og mædu, áður enn hann sæi nockuð af bornum sínum gipt, eða þau komin til manns, mun honum virdast þetta stórlucka? og þó er það raunar gæfa hans. Eptirgángssemi húsbóndans er sú, sem kennir Vilhjálmi að vera vinnusamur, þrifinn, ala born sín upp til manndóms og ydjusemi, og fara vel með jörð sína. Opt hafdi Vilhjálmur, medan hann var vinnumaður, andvarpað yfir vinnu-horku húsbóndans, og opt í huganum heitið fyrir sér, að þegar hann yrdi sjálfs síns, skyldi hann ecki leggja svo þúngt á sig,

en

en nú var þad Vilhjálms lán, ad hann setti saman af litlu, og fèck svo ordúga jörd, ad hann gat ei haldid þad loford, nema hann sæi vergángsinu opinn fyrir augunum, en Vilhjálmur hafdi meiri sóma-tilfinníngu og gudhrædslu til ad bera, enn ad hann med leti og atorkuleysi, vildi hleypa sèr og sínum útá húsgáng. Fjármissir hans á þridja búskapar-ári, var honum besti lærimeistari til uppápossunar, og heilsuveiki konunnar æfdi hann í þolinmædi og bænrækninni. Svo hollt var Vilhjálmi mótlætid! en mundi hann á tvítugs aldri hafa þeckt þad, eda mundi hann ei miklu heldur hafa orvílnast, aldrei verid med hýrri há, og máské af hugar-sorg ordid sèr og ödrum ónýtur? en nú þegar þetta andstreymi kom smámsaman, og aldrei var allt í einu fyrir hans hugskots-sjónum, vonin, ad því mundi lètta, og ad hann á elli-dögunum, þó ecki væri fyrr, mundi fá hvíld, og mega njóta handaverka sinna, hèldt honum vid, og loksins, ad lángvarandi reynsla smámsaman hafdi kènnt honum ad fleira er Guds blessan, enn ad hafa allsnægtir med ydjuleysi, svo gat Vilhjálmur verid sí-gladur, haft allra gódra manna hylli og virdíngu, sied börnum sínum fara fram í öllu gódu, og med gódri samvitsku skilid gladur vid heiminn, eins og sá daglauna-madur, sem veit med sèr, ad hann er búinn med sóma ad ljúka af verki sínu, og á sèr þess vegna víst, bædi ad fá kaupid óskert, og ad húsbóndanum líkar vel vid sig. Vonin gjörir alla byrdi lèttbærari, og þid munud muna til draumsins um Vonargerdi,

sem eg las nockur í fyrra dag, er syndi hvada á-nægju, hvada atorkusemi, hvada líf vonin gefur, en alls þess færu þeir á mis, sem vissu for-lög sín fyrifram.

En, fyrir utan það, ad slík vitneskja mundi gjöra þann ólucklegann, sem fengi hana, þá mundi þar-adauk sár illa tilgánga í veröldinni, ef sú gáfa væri manneskjunum lént; það sem einum er ólucka, er opt og tídum og verdur ödrum ad lucku. Vissi þá hvorr einn fyrifram, hvorr ollaudi ættiad verda þess, sem hann álítur sína ólucku; hvada hatur, hvada kjærleiks-leysi mundi þaraf rísa og algengt verda? þann Vigfús tók hann Gunnar sér vandalaus-ann, blá-fátækann og munadar-lausann, ól hann upp eins og sinn eiginn emka son, geck nærri sér ad halda honum til síglíngar, trúdi honum fyrir öllum sínum leyndar-málum, og Gunnar nytti sér þau sídan svo vel, ad Vigfúsa var frá em-bættinu vikid, en Gunnar feck það aptur. Mundi Vigfús hafa elskad fóstur-son sinn, og alid hann svo vel upp, hefdi hann vitad þetta fyrifram? en af því Vigfús vissi það ei, svo hefir bædi hann nú góda samvitsku og sóma af dygd sinni, landid á dugandis embættismann, þar sem Gunn-ar er, sem getur ángur tekid vid, hvar Vigfús elli vegna annars innan fárra ára hefdi ei getad stadid straum af embættinu, og Gunnar getur nú aptur borgad landinu, það sem búid er fyrir honum ad hafa, med því ad ala upp og manna adra nytsamlega menn. Hvad illt mundi af því hljótast, (og tek eg ei nema eitt til) ef manneskj-

jan

jan þeckti fyrifram sitt enda=dægur? hvada óssa=kátína af gledi, hvada hirduleysi, miskunarleysi, örvilnan, ef oss væri opinberad allt hvad oss á ad kjæta edur hryggja á vegferdar=reisu vorri? mundi ei sá sem hefdi vitrun um ad á morgun ætladi vinur hans ad svikja af honum æru og velferd, bera sig ad verda fyrri til í dag? og þá yrdi máske annar til daginn þareptir, ad hefna þess uppá sama máta? í einu ordi: í veroldinni væri ecki lifandi, ef allir vissu fyrifram hvad ské mundi, en nú gjörir óvissan alla varkárari, þeir láta vonina locka sig, þeir gledjast af henni, hvörsu hvikul sem hún er, og svo lídur einn dagurinn eptir annann, ad ætíd hugsum vér luckan sé ad nálgast oss, og medan erum vér ad vinna hvad vér getum til ad gjöra oss hennar verduga. Vér óttustum nú þá mædu, sem óviss er, og máske aldrei yfirdrífur, en þarmed erum vér aldrei varbúnir, heldur hofum búid oss undir ad taka med þolinmædi móti andstreyminu, hvad vel kémur í hag, þegar eitthvört annad mótlæti sídar mætir oss, þó þess undirbúnings í þetta sinn hafi ei þurft, þar vér sleppum hjá hinu, sem vér fyrst óttudumst fyrir.

Sigurdur. Eg get þó ei ad því gjört, Prestur minn gódur! ad mjer sýnist manneskjurnar egi um sárt ad binda, ad verda ad gánga í þoku og myrkri, og vita eckert hvad fyrir ser liggur, eda hvad lánga eda skamma stund þær éga í þessari óvissu ad velkjast.

Prestur. Heldur þú, Sigurdur minn! hann Gúdmundur litli og hún Kristrún litla þarna fari mikils á mis, þó þau viti ecki hvad vid þau á fram ad koma

koma hina vikuna? hvad heldur þú þeim noti þad, þó þeim væri sagt það?

Sigurdur. Það er allt annað. Prestur minn gódur! því þau eru ei komin til vits og ára, þau hvørki vita hvad gott og þjenanlegt er, eda þeim óhollt og skadlegt, og þartil hefir Gud gefid þeim góda foreldra, sem eru á lífi, sem sjá til ad þau eckert bresti, og ad vel fari um þau.

Prestur. Engu meira vit høfum vid manneskjurnar á því, sem oss er best, ef vid sjálfar ætlum ad skapa ockar luku; en vid høfum þar á mót þann besta, alvitrann og almáttugann Fødur, sem hefir gefid ockur leyfi til ad vona uppá sig, ad kasta allri vorri áhyggju uppá sig, þared honum se umhugad um ockur. Hann heimtar einasta af oss, ad vjer skulum elska sig, og kappkosta ad vera hlýdnir, þá skuli oss allt annad gott tilleggjast, því þeim skuli allir hlutir þjena til hins besta, og verda ad gódu, sem hann elska. Æ! þá huggun! æ! þá gledi! í því trausti megum vjer gvøld hvørt ugglaust útaf sofna, í því trausti gladir á hvørjum morgni upp aptur standa. Allri vorri áhyggju megum vjer kasta uppá vorn gædskuríka Fødur, því þó hann hirti oss, þó hann sendi oss mótlæti, þá bædi gefur hann oss krapta til ad bera þad, hann skamtar það, svo þad verdi ei ofþúngbært, og lætur þad þaradauk þjena oss til góds! Nú, vor ljúfi Lausnari Jesú Kristur! þjer og þinni forþjenustu eigum vjer allt þetta, allt gott ad þacka! nú er Gud vor nádugur Fadir, því megum vjer gladir enda þetta umlidna ár, á hvørju vjer høfum reynt svo margfalda og stóra Guds mildi, gladir megum vjer byrja tilkomanda árid, gladir lifa, gladir lída, gladir deyja, því vjer vitum nóg þegar vjer þurfum ei ad efast um, ad Gud er vor vinur, sem elur ønn fyrir oss, og loksins leidir oss í síns dýrdar-ríkis eilífu sælu! segjum þá øll sømun þad væntanlega ár velkomid, þó ei vitum vid hvad oss á ad tilfalla á því, og syngjum hvørt med ødru:

Allt mitt rád til Guds eg set, ꝛc.